Evangelisk-kristileg

# Messu-saungs-

og

# Sálma-Bók,

ad konúnglegri tilhlutun

samantekin

til almennilegrar brúkunar í

## Kirkjum og Heima-húsum.

---

VIII. Utgáfa.

---

Videyar Klaustri, 1837.

Prentud á Forlag Sekretera O. M. Stephensens,
af Bókþryckjara Helga Helgasyni.



Til Adgætslu
vid
# Messu = gjörd.

Eptir þad samhríngt er til Messu, ega Prestarnir ad láta í kór=dyrum lesa á öllum Messu=dögum þessa bæn og Fadir vor á eptir.

Drottinn! eg er innkominn í þetta þitt heilaga hús, ad heyra hvad þú, Gud Fadir, minn Skapari! þú Drottinn Jesú, minn Frelsari! þú, verdugi heilagi Andi, minn Huggari! í þínu ordi vilt vid mig tala. Drottinn! opna þú svo med þínum heilaga Anda, fyrir Jesú Krists skuld, mitt hjarta, ad eg kunni af prédikuninni læra, ad bera ángur fyrir mínar syndir, í lífi og dauda trúa á Jesúm, og daglega betra mig í dygdugu lífernu og framferdi. Þad heyri og bænheyri Gud, fyrir Jesúm Krist, Amen! Fadir vor, etc.

Strax ad því búnu byrjar saungurinn, og framhelst tvo fyrstu Sálmana út. Þegar þeir eru útsúngnir, snýr Presturinn sér ad fólkinu og tónar:

## Drottinn sé med Ydur!

Forsaungvarinn og Fólkid ansar:

## Og med þínum anda!

Presturinn snýr sér aptur ad Altarinu og tónar;

## Látum oss bidja:

og sídan þá Collectu, sem deginum heyrir, eptir Handbókinni. Forsaungvarinn og Fólkid ansar: Amen!

Þá snýr Presturinn sér fram ad fólkinu og tónar: Pistilinn skrifadi Postulinn (sá sem Handbókin sýnir) En sé Lectían annarstadar ad finna, enn í Pistlum Postulanna, hagar Presturinn sér þar eptir og segir: Þessi heilaga Lectía stendur skrifud í N. N. Spádómsbók, (eda) Postulanna Gjørníngum, (eda) Opinb. bókinni, eda eptir sem vel hlýdir þessu ad umbreyta: tónar hann svo Pistilinn skírt og seint.

Eptir Pistilinn skal sýngja þann Sálm, sem Presturinn hefir hér til valid í bókinni, en ad honum búnum snýr Presturinn sér fram og tónar:

## Drottinn sé med Ydur!

Forsaungvarinn og Fólkid ansar:

## Og med Þínum anda!

Presturinn tónar svo:

## Eptirfylgjandi heilagt Gudspjall skrifadi Gudspjallamadurinn N. N.

Forsaungvarinn og fólkid ansar:

## Gudi sé lof og dyrd fyrir sinn gledilegann bodskap!

Sídan tónar Presturinn Gudspjallid seint og greinilega til enda. Ad því búnu er súnginn sá Sálmur, sem Presturinn hefir valid til og fundid ad hlýda uppá sitt rædu efni; vid hans lok stígur Prestur í stól og heldur þar sína rædu. Á hátídum er súngid þad vers, eda sá Sálmur, ádur enn Gudspjallid er lesid í prédikunar stól, sem Presturinn hefir þar til valid samqvæmt efni hans og tímunum, en ella ekkért. Eptir prédikun sýngist þad vers, edá sá Sálmur, er Presturinn hefir þar til ætlad; en egi børn ad skíra, eda konfirmera, eda opinber aflausn ad framfara, byrjast þá strax, sem Prestur stígur úr stól, þeir Sálmar eda þau vers, sem sérhvørju af þessu hlýda, eptir þessari Messusaungs-bók, og Prestsins fyrirmælum, og aflýkur hann þar eptir sérhvørju af þessu. Séu nockrir til Altaris þann dag, er súngid versid No. 212, sídan snýr Presturinn sér fram og les eptirfylgjandi áminníngu til þeirra, er gánga til Altaris:

Sakir þess, mínir kjærustu Krists vinir! ad þér réttilega og maklega mættud medtaka þad heilaga Sakrament Qvøldmáltídar vors Drottins, þá ber Ydur einkum þessa tvo hluti ad vita og skilja, sem er: hvad Þér skulud trúa og gjøra; því þessum ordum, sem Kristur sagdi: Pad er minn líkhami, sem fyrir Ydur verdur

géfinn, og það er mitt blóð, sem fyrir Ydur úthellist til fyrirgéfníngar syndanna, skulud þér fullkomlega trúa, ad svo í sannleika er; því Jesús Kristur er þar sannarlega sjálfur hjá, med sínum líkhama og blódi í Sakramentinu, eptir ordanna hljódun. Parnæst skulud Þér og svo trúa Krists ordum, til syndanna fyrirgéfníngar, það: ad Jesús Kristur skenkti ydur sinn líkhama og blód, til innsiglis og stadfestíngar uppá allra ydar synda fyrirgéfníngu. Ad sídustu skulud þér fyllilega gjöra Krists skipun, þar hann svo býdur ydur, segjandi: medtakid og etid! sömuleidis: dreckid hér af allir! og: gjörid það í mína minníngu! því hann hefir géfid oss sinn líkhama og blód ad eta og drecka til fyrirgéfníngar syndanna, og þar med ad minnast hans heilaga dauda og pínu. Þar fyrir, þegar þér svo trúid þessum Krists ordum, og breytid eptir hans skipun, þá erud þér réttprófadir og reyndir, sem Postulinn Páll segir, og megid svo maklega eta Krists líkhama og drecka hans blód, til fyrirgéfníngar syndanna. Þar til géfi ydur Gud himneskur Fadir síns heilaga Anda

nád, fyrir þann sama Jesúm Krist vorn Herra; og þar um viljum vér allir Gud bidja af hjarta og segja:

Þegar sú áminníng er útlesin, snýr Presturinn sér ad Altarinu og tónar skírt og seint eptirfylgjandi bæn:

Látum oss bidja:

Fadir vor! þú, sem ert á himnum. Helgist þitt nafn. Tilkomi þitt ríki. Verdi þinn vilji, svo á jördu sem á himni. Géf oss í dag vort daglegt braud. Og fyrirgéf oss vorar skuldir, svo sem vér og fyrirgéfum vorum skuldunautum. Og eigi leid þú oss í freistni. Heldur frelsa oss frá illu.

Forsaungvarinn og Fólkid ansar: Amen!

Svo tekur Presturinn Pátínuna med braudinu sér í hønd, á medan hann tónar eptirfylgjandi Innsetníngar-ord:

Vor Herra Jesús Kristur, á þeirri nátt, sem hann svikinn var, tók hann braudid, gjordi þakkir og braut þad og gaf sínum Lærisveinum og sagdi: takid og etid! þad er minn líkami, sem fyrir ydur verdur géfinn. Gjörid þad í mína minníngu.

Því næst tekur Presturinn Kaleikinn sér í hønd, og tónar hin Testamentis ordin, segjandi:

Somuleidis eptir Qvøldmáltídina, tók hann kaleikinn, gjørdi þackir, gaf þeim hann og sagdi: dreckid allir hér af! Þad er kaleikur ens nýa Testamentis í mínu blódi, sem fyrir ydur úthelliſt, til fyrirgéfníngar syndanna. Gjørid þetta, svo opt, sem þér þad dreckid, í mína minníngu.

Séu fleiri til altaris í einu, enn ad kaleikurinn á-ſkeinktur endiſt þeim, leggur hann høndina, á medan hann þetta tónar, til ſkipta á kaleikinn, og á þær vínflöſkur, sem á Altarinu ſtanda, ellegar les sømu ord lágt upp aptur í hvørt ſinn braud eda vín þrýtur á pátinu eda kaleik, med sømu adferd.

Á medan Presturinn þar eptir útdeilir, segir hann vid sérhvørn, sem Sakramentid medtekur: þetta er Jesú sannur líkhami; þetta er Jesú sannarlegt blód. Um Utdeilínguna sýngur Forsaungvarinn og Fólkid þá Altaris-gaungu Sálma, sem Presturinn hefir fyrirlagt, þó ecki leingra af þeim, enn versid, sem ástendur, þegar útdeilíngin er búin. Par eptir sýngiſt versid No. 218; ad því endudu snýr Presturinn sér fram og tónar:

## Drottinn sé med Ydur!

Forsaungvarinn og Fólkid ansar:

## Og med Þínum anda!

Því næſt snýr hann sér ad Altarinu og tónar eptirfylgjandi bæn:

Látum oss bidja!

Vér þøckum þér, Drottinn, almáttugi og eilífi Gud! ad þú med þessari heilsusamlegri gjøf hefir oss alla nært; vér bidjum þína miskunsemi: ad þú látir nú þessa þína gáfu koma oss til alls gagns og góda, og til vorrar sannrar trúarstyrkíngar á þér, og til brennandi kjærleika og elsku á medal vor innbyrdis; fyrir sakir nafns þíns elskulegasta Sonar, Jesú Krists, vors Drottins og Herra.

Forsaungvarinn og Fólkid anzar: Amen!

Þegar enginn er til Altaris, tónar Presturinn í stad þeirrar bænar, eptirfylgjandi bæn:

Látum oss bidja!

O Herra Gud, himneski Fadir! vér þøckum þér fyrir þenna þinn ødurlegann velgjørníng, ad þú af þinni miklu nád og miskunsemi, hefir géfid oss þitt heilaga og sáluhjálplega ord, med hvorju þú einninn hér hjá oss safnar þinni kristilegri kirkju. Vér bidjum þig audmjúklega: géf oss þinn heilaga Anda, ad vér med þackláta hjarta mættum taka vid því, og hegda oss þar eptir, og ætíd og ydugłega

fara varandi í kristilegri trú og kjærleikanum, og svo loksins sáluhólpnir verda, fyrir þinn elskulegann Son, Jesúm Krist vorn Drottinn, sem med þér lifir og ríkir í eníngu heilags Anda, sannur Gud, frá eilífd til eilífdar.

Forsaungvarinn og Fólkid ansar: Amen!

En um alla Langa-føstu, skal í þessarar bænar stad, á Sunnu- og Bæna-døgum tóna þessa bæn:

## Látum oss bidja!

Vér þøckum þér, Gud Fadir! ad þú hefir géfid oss þinn eingétinn Son Jesúm Krist, uppá þad, ad allir þeir, sem á hann trúa, ecki fyrifarist, heldur hafi eilíft líf. Vér þøckum þér, Jesú Kristi! ad þú hefir borid vorar syndir á þínum líkhama, og med þinni pínu afmád vorar yfirtrodslur. Vér þøckum þér, þú verdugi heilagi Andi! ad þú hefir géfid oss þá trú í vor hjørtu, ad vér eckért vitum annad til sáluhjálpar, enn þann krossfesta Jesúm Krist. Géf oss, ó Gud! þína nád, ad vér fullkomlega trúum, ad allar vorar syndir séu, fyrir Jesú pínu og dauda krapt, oss fyrirgéfnar.

Upplýs oss með þínum heilaga Anda, að vér, fyrir Jesú dauða daglega afleggjum syndina, og aldrei sleppum Jesú úr vorum hjörtum, þángað til vér sjáum hann berlega í eilífu lífi. Þessa biðjum vér þig allir í nafni Jesú Krists, vors Herra.

Forsaungvarinn og Fólkið ansar: Amen!

Þá snýr Presturinn sér fram og tónar:

Drottinn sé með Yður!

Forsaungvarinn og Fólkið ansar:

Og með þínum anda!

Síðan blessar hann yfir Fólkið og tónar:

Drottinn blessi þig, og varðveiti þig! Drottinn láti sína ásjónu lýsa yfir þig, og sé þér náðugur! Drottinn upplypti sínu augliti yfir þig, og géfi þér frið!

Forsaungvarinn og Fólkið ansar: Amen!

Þegar Konfirmérað er, tónar Presturinn ecki þessi blessunar-orð, fyrr enn Konfirmatíónin er búin.

Síðan er sá Útgaungu Sálmur súnginn, sem Presturinn hefir valið, hljóðandi uppá ræðu-efni hans.

A undan Katekisatíón er súngið No. 312, eða 313, og eptir Katekisatíón No. 130, eða 314. Endast svo Embættisgjörð með eptirfylgjandi bæn, sem lesin er í fórdyrum, og Faðir vor:

Drottinn! eg þacka þér af öllu mínu hjarta, að þú hefir nú kénnt mér, hvað þú vilt að eg skuli gjøra. Hjálpa mér nú, minn Guð! með þínum heilaga Anda, fyrir sakir Jesú Krists, að eg megi varðveita þitt orð í hreinu hjarta, og þar af styrkjast í trúnni, í guðrækilegu framferði betrast, og mig þar við í lífi og dauða hugga, Amen! Faðir vor! etc.



# Innihald Sálmanna.

## I. Lofgjørdar- og Þakklætis-Sálmar.


| | | Blſ. | Vidb. Blſ. |
|---|---|---|---|
| 1. | Guds vera og Eginlegleikar | 1-26 | „ |
| | — Almætti | 7-9 | „ |
| | — Alvitſka | 9-12 | „ |
| | — Allſtadar-nálægd | 12-13 | „ |
| | — Speki | 13-14 | „ |
| | — Gædſka | 14-24 | 327- |
| | — Réttlæti | 25- — | „ |
| 2. | Skøpunarverkid | 26-36 | 327- |
| 3. | Guds Forſjón | 36-56 | „ |
| 4. | Endurlauſn vegna Jeſú | 57-63 | 328-330 |
| 5. | Jeſú Fæding | 64-75 | „ |
| 6. | Jeſú Pína og Daudi | 76-90 | „ |
| 7. | Jeſú Ord á Kroſsinum | 90-93 | „ |
| 8. | Jeſú Uppriſa | 94-102 | „ |
| 9. | Jeſú Uppſtigning | 102-106 | |
| 10. | Jeſú ſtjórn ſinnar kirkju | 106-110 | „ |
| 11. | Guds Andi og Ord | 111-116 | „ |
| 12. | Fullſæla eptir daudann | 117-124 | „ |


## II. Bænar Sálmar.


| | | |
|---|---|---|
| 1. | Sannur kriſtinndómur | 125-141, 330-337 |
| 2. | Ydran, Trú, Trúrækni og Synda-fyrirgéfning | 142-154, 337-339 |
| 3. | Elſka og Trauſt til Guds | 154-174, 340-347 |

| | | Bls. | Viðb. Bls. |
|---|---|---|---|
| 4. | Elska til sjálfra vör og | | |
| | Náúngans | 174-186 | - |
| | Samvitska | 174-177 | - |
| | Rárvendni | 177-179 | 347-350 |
| | Réttlæti, Góðsemð | - | 350-351 |
| | Auðmýkt | 179-180 | - |
| | Anægja | 180-182 | - |
| | Polinmæði | - | 351-354 |
| | Bróðurleg ástsemi | 183-186 | - |
| | Ofund | - | 358-360 |
| | Einlægni og Hreinlyndi | 183- — | 354-355 |
| | Friðsemi, Blíðlyndi | 185-186 | 355-357 |
| | Ydjusemi, Hóffemi | 186- — | 357-358 |
| 5. | Jesú Eptirbreytni | 187-194 | 360-364 |
| 6. | Guðs Orð og Bænin | 195-205 | - |
| | Orðið | 196-198 | - |
| | Bænin | 198-204 | - |
| 7. | Skírn og Qvøldmáltíð | 205-215 | - |
| | Skírnin | 205-207 | - |
| | A undan Skírn | 205-206 | - |
| | Eptir Skírn | 206-207 | - |
| | Qvøldmáltíðin | 207-216 | - |
| | A undan Altarisgaungu | 207- — | - |
| | Um Utdeilíngu | 208-215 | - |
| | Eptir Utdeilíngu | 215 — | - |
| 8. | Dauðinn, Upprisan, Dóm-urinn | 216-233 | - |
| | Dauðinn | 216-225 | - |
| | Grøfin | 225-228 | - |
| | Upprisan | 228-229 | - |
| | Dómurinn | 229-230 | - |

| | Bls. | Vidb. Bls. |
|---|---|---|
| Eilíf Sæla | 230-232 | - |
| Fyrirbænir: | | |
| a) Fyrir øllum yfir høfud | 232-238 | - |
| α) Fyrir almenníngi | 233-237 | - |
| β) Fyrir Fødurlandinu | 236-337 | - |
| γ) Fyrir Kónginum | 237 — | - |
| b) A Strìds-tímum | 238 | - |
| c) J skjædum Stór-sóttum | 239-240 | - |
| d) J landplágum | 240-241 | - |
| e) Fyrir deyandi | 241-242 | - |


## III. Sálmár til vissra Tíma.


| | | |
|---|---|---|
| 1. Ara-skipti | 243-250 | - |
| 2. Missira-skipti | 250-265 | - |
| a) Vor-Sálmar | 250-260 | - |
| b) Haust-Sálmar | 260-267 | - |
| c) Eptir gott og ardsamt Sumar | 267-269 | - |
| d) Eptir bágt Sumar og í Hardæri | 269-273 | - |
| e) Eptir allgódar og ard-samar Vertídir | 272-274 | - |
| f) Eptir bágar Vertídir og í fiskileysi | 274-275 | - |
| 3. Morgun-Sálmar | 275-288 | - |
| 4. Qvøld-Sálmar | 289-304 | - |
| 5. Bord-Sálmar | 304-306 | - |
| a) Fyrir Máltíd | 304 — | - |
| b) Eptir Máltíd | 305-306 | - |
| 6. Brúdkaups Sálmar | 307-310 | - |
| a) A undan Hjónavígslu | 307-309 | - |

| | Bls. | Vidb. Bls. |
|---|---|---|
| b) Eptir Hjónavígslu | 310 — | = |
| 7. Katekisatíóns-Sálmar | 310-311 | = |
| a) Á undan Katekisatíón | 310-311 | = |
| b) Eptir Katekisatíón | 134-311 | = |
| 8. Konfirmatíóns Sálmar | 312-314 | = |
| a) Á undan Konfirmatíón | 312-313 | = |
| b) Eptir Konfirmatíón | 313-314 | = |
| 9. Reformatíóns-Sálmar | 315-316 | = |
| 10. Kirkjuvígslu-Sálmar | 316-318 | = |
| 11. Fridar Sálmar | 318 — | = |
| 12. Huggun í Sjúkdómi | 319 — | = |
| 13. Vid Kirkjugáng mædra eptir Barn-burd | 320 — | = |
| 14. Á Fædingar-degi manns | 321-322 | = |
| 15. Ferda-Sálmar | 322-325 | = |
| a) Vid Húss-födurs lánga Burtför | 323-324 | = |
| b) Vid Húss-födurs Apturkomu | 324 — | = |
| 16. Vid opinbera Aflausn | | |
| a) Fyrir: 8da versíd af No. 138 | 143 — | = |
| b) Eptir No. 145 | 150 — | = |
| 17. Vid Líka Uthafníngar | 325-226 | = |
| eda 2ad, 4da og 5ta versíd af No. 92 | 103 — | = |
| Utfarar-Sálmar | 218-232 | 365-368 |






# I. Lofgjørdar og Packlætis Sálmar.



## 1. Guds Vera og Eginlegleikar.

No. 1.

Lagid: Vér trúum allir á einn Gud, Skapara:

Vér trúum allir á einn Gud; er hans verk himin og jørdin; ástríkur Fadir er vor Gud; ætt hans manneskjan er ordin. Hann vill ofs vort uppheldi veita, vel ad sál' og lífi gæta; ei lætur ólucku rata, engum voda megum því mæta. Á hann vér setjum von og traust, því vís hann er, máttugur, gódur endalaust.

2. Vér trúum og á Jesum Krist, eingétinn Guds Son vorn Herra; á heims Frelsarann Herrann Krist, hvørs dýrd aldrei kann ad þverra. Madur ordinn

hann er, hafinn, hardt á kross-tré, daudur, grafinn. Enn hann ríkir æ lifandi, upp hjá Drottins hægri hendi; þadan med krapti kémur hann, kémur ad dæma jardríkid og sérhvørn mann.

3. Vér trúum á Anda heilagann, af Fødur og Syni sendann. Oss frædir, styrkir, huggar hann, helga bæn til Guds fær kennda. Krists um heiminn kénníng' breidir, kjært til apturhvarfs menn leidir; einninn trúna eblir rétta, og von betra lífs enn þetta, hvar ødlast munum føgnud, frid, og fullsælu þá, er um eilífd varir vid.

## No. 2.

### Te Deum.

Lagid: Kom Skapari heilagi Andi.

Þér mikli Gud! sé mesti prís, vor mildi Gud! vér þøckum þér; hvørr er svo sem þú hár og vís? hvørr svo sem þú frá eilífd er?

2. Kerúbim hátt þitt heidra nafn, hátt þér Serafim róma dýrd; útvaldra líka sálna safn, samhljómar þinni engla hird.

3. Heilagur ertú, Herra klár! heiløgust Vera sí-lofud, heilagur Gud um eilíf ár, allsherjar Drottinn og vor Gud.

4. Lof þitt frá hærstum himna kór, hljómar um alla vída jørd, Spámanna

hópur hefir stór, heidrað þitt nafn með þackargjørð.

5. Postular hafa prísað það, og písl-arvotta mergdin flest, á daudastundu dáðust að, dásemdar verkum þínum best.

6. Þig, heiløg kristnin, Herra Gud! heidra um tíð og eilífð má, þig, Fadir! sem ert sannur Gud, Son er í dýrd þér lifir hjá.

7. Og gódann helgann Anda þinn, oss sem vid rétta heldur trú; heidri þig jørð og himininn, hljómi lofgjørð um eilífð sú.

8. O Jesú Guds Son eingétinn! er lærdóm sannann kénndir oss, ljósid og fridinn leiddir inn, og lífsins betra vonar hnoss.

9. Frá daudans leystur dróma nú, vid Drottins hægri situr hønd, aptur munt skodast af oss þú, øll þegar dæm-ir jardar lønd.

10. Hjálp' oss, hjálp' oss, vor hugg-un vert, hefir þú sjálfur keypt oss dýrt, med ordi sannleiks æ þú sért, óbrygd-ult ljós, er fái' oss stýrt.

11. Blessa þú líf og sál í senn, sídar arf himna lát oss fá, krýn blessun alla kristna menn, og kynið sérhvørt jørdu á.

12. Svo friðinn, réttinn, sannleik, trú, sérhvør vel geymi heimsins þjóð, allir þér þjóni æ og nú, eindrægni haldi skynsemd góð.

13. O! mikli Guð! vér þøckum þér, þér mildi Guð! vér syngjum prís, hvørr svo sem þú að hátign er? hvørr er, sem þú, í øllu vís?

14. Til þín, til þín, vort traust er allt, um tíma og eilífð svo sem nú, heyr þú vorn saung, bænheyr ávallt, huga vorn styrk í von og trú.

## No. 3.

Með sínu lagi.

Heiður sé Guði himnum á, og hæsti lof fyrir náð sína, allt vel tilbjó hans vitskan há, verkin dásamleg skína; syndugri jørð frið senda vann, sitt hlýðið fólk æ lætur hann, sína miskun sjá og reyna.

2. Vér lofum, dýrkum og þøckum þér, þig tilbiðjum alleina; vald þitt, Guð Faðir! eilíft er, aldrei kann það að rjena; svo er þín makt ómæliteg, algjørt er allt hvað þér er í hug, vel er þeim í trú þer þéna!

3. O Jesú, Guðs eingétinn Son, athvarf og líknin manna! þú bættir allt vort andar tjón, eymd vora virðtist

kanna. Lausnari! er daudann leidst á kross, líknsamur sért þú øllum oss, leid oss veg til líssins sanna.

4. Heilagi Andi, hjálpin trú, huggarinn allra besti! frá heimsins svikum forda þú, fólki, sem Jesús leysti, med sárum dauda' og dapri pín. Drottinn! vardveit þú kristni þín', sem af hjarta á þig treystir.

## No. 4.

Lagid: Upp, uppstatt í nafni Jesú.

Um Gud eg sýng, því sýng eg frór, sá er vor mikli Gud, og Herra hár; hans heiti' er Drottinn, hans verk stór, himna gjørvallra' um vídd, hans veldi gár; Alvaldur vill, verøld hvør fær sinn stad, til verdur full, med fjøri, sem hann qvad.

2. Hann býdur, aptur hverfa þá, himnar vid bendíng' hans, sitt eckért í; ljós er hans skrúdi; skírt kann sjá, sképnuna', hid besta veit, ad velja því; Gud stjórna réd, stóls hans er hátign bygd, røksamri med, réttvísi' og sannleiks trygd.

3. Fullríkur einn auds gnóttum af, óhverranlegum, Gud, án upphafs einn; Gud um eilífdir, grunnlaust haf, gæda,

farsælldar, lífs, án enda, hreinn. Alvaldi Guð, alheims! hvørr finnst þér jafn? hvørr líkist við, dýrð þína' og dásamt nafn?

4. Um himna, fold og haf hvað er, og hefir verið, allt, Guð! þeckir þú; Guð! þinna vísdóms verka her, frá eilífð augljós var, þér æ og nú, mér ertú nær, mig vefur umsjá þín, þú verkad fær, hvíld að óhult sé mín.

5. Guðs forsjá stýrir furdanlig, því hvað fyrr edur síð, eg framqvæmt fæ; hann reynir, þeckir þig og mig, hvørt situr eda gár, nær er hann æ; hvørt ytst hafs á, eda skaut himins slýr, hans er þér hjá, hvervetna kraptur nýr.

6. Hann vóg allt út med vissum skamt', er vildi' hann skipta mér, og skrádi þar, á sína bók, hve fengi eg framt, fjørs notið, þá eg enn nú eckért var; eckért er mitt, alls eckért, Drottinn minn! allt er það þitt, í og hjá mér, sem finn.

7. Jafnan skal nafns þíns, Drottinn! dýrd, dásemda þinna hrós, í munni mín! hvørr má þín undur út fá skírd, ordu og fegurd þá, þeim skjært á skín; í vídum geym, allt sem til verda

létst, hrósar um heim, høfunds almætti mest.

8. Spegill er þinnar speki skjær, hvørt minnsta hálmstrá eitt; þú lopt og lá! þér hædir, dalir, grund, sem grær! Guðs hróss þér leikid ljód, lífleg og há; þín nádar-lind, landid æ vøkvar ný, fædir mannkind, fridsemd og heillum í.

9. Atvinnu nægtir nótt og dag, nágvæmri þyggjum vér, af þinni hønd; skyld' ei sú hugsan hjartalag, Herra! fridstilla mitt, vid efnin vønd; þín hønd ad míns, heill, Gud! er lífs og hlíf, fyrst vilja' án þíns, ferst einkis titlings líf.

10. Ef Gud mitt athvarf er og skjól, ef Gud Frelsari' og hlíf, vill vera minn; lífs þó umbiltist hradfært hjól, hvørki' um jørd hyrdi' eg þar, né himininn; umhælist þá, í trausti hans vid hel, ein hans forsjá, allt gjørir til mín vel.

## No. 5.

Lagjd: A þig alleina Jesú Krist.

Eg þá stjarna útbreiddann her, augum sje fyrir mínum, upplyptir þánkinn allur sér, ó Gud! ad hástól þínum; þín eilíf maktin aldrei þreytt, allt þetta stóra gat tilreidt, og nær þér þócknast

einninn greidt, þitt ördid eitt, gétur af engu líf framleidt.

2. Mikli, dýrdlegi Drottinn minn! Drottinn lífinu yfir! á þig treysti eg æ hvort sinn, allt blessar þú, sem lifir, frá augnabliki fyrsta hér, ad fécк eg líf til gæfu mér, hvor stundin mín þess minníng ber, ad merkt hún er, nýum velgjørdum, Gud! af þér.

3. Líka sýna mér løndin, sjór, og loptsins hvelfíng vída, ad þinn máttur er yfrid stór, engu þarf eg ad qvída; því aldrei mér sú þraut fær bægt, þín bendíng sem ei géti lægt, og ef vild þinni þad er þægt, þér veitir hægt, sumar skapa úr vetri vægt.

4. Hvor þjáníng, sem mig hittir þá, Herra! eg til þín leita; því vill og megnar hønd þín há, hjálp og frelsi mér veita; hvad þú ei byggir hrapa fer, hvad þú blessar er stødugt hér; æ! géf því blessun mildur mér, þín makt ei þver, þitt vald á himnum háleitt er.

## No. 6.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor Gud.

Allt skédur, Gud! sem einn þú vilt, allt verdur þér ad hlýda; veru engrar svo vald er gyldt, ad vinnist gegn

þér stríða; sem fisi feykir burt, fellir, sem laufblað burt, bára fibldjarfa, er, dirfast mótrísa þér, stjörn þína' ei þeckjast blíða.

2. Voldugir! gefið Guði dýrð, gætið þess hann er nærri; vitnið þér, menn! Guðs makt á jörð, mannlegri tign er hærri; hann dapurt hreßir þel, heyrir qvein allra vel. Eg reidi' í øllu mig, ó Drottinn Guð! á þig, aldrei þú ert mér fjærri.

3. Allt hvað mér gagnar gløggt þú sjer, gefur nægt þeim er snauður; svik né ofbeldi' ei blostra mér, bíð eg í von ó-trauður; mikli, máttugi Guð! mig þú frelsar úr nauð; eg þínu skauti í, óhult-ur jafnan bý; þér sé lof, þøck og heiður!

## No. 7.

Lagið: Sólin upprunnin er.

Dylst' engin fyrir þér, mig fela mega, ó Guð! sem allar sjer, upp fyrr enn stíga, hugsanir hér, hjartans illar og góðar; eymdirnar ásamt sjer, opt sem þúngbærar mér, aumum ofbjóða.

2. Øll veit alvitska þín, ørmæddra vinur! andvørp þeim øndin mín, upp til þín stynur; sannfær mig, Guð! synd mig svo aldrei blecki, að hugsun, orðið

hvert, athøfn og girndir bert, þú allar þeckir.

3. Fyrst girndir, gjørdir, mál, og gjørvallt þeckir, skal mína syndin sál', svívirda ecki; en med varúd, æ betri' og lastvarari, framgeng eg fyrir þér, Fadir! sem til mín sjer, í fridi ad fari.

4. Ef bregdast allir mér, og vid mér stugga, ad þú mig sjálfur sjer, samt skal vel hugga, og nær mannlegt, mig heyrir eckert eyra, þú kannt, víst veit eg þad, og vilt mér gæta ad, raust hjartans heyra.

## No. 8.

Lagid; Náttúran øll og edli manns.

Sál! dupti klædd, ei sómir þér, sveyma um straum lastanna; Dómarinn, sem í upphæd er, allar sjer gjørdir manna, øll augum hans, eru hjartans, opin fylsni hvørt sinni; ønd saurug ma, ei búa hjá, alskjæru hátigninni.

2. Drottins alskygnu augum frá, enginn kann fylsnis leita, vinds og eldínga vængjum á, þó vildi flótta þreyta; ecki neinn þann, umflýa kann, engill Skaparann mæta, sem tilbjó heim, og í þeim geym, ad øllu vel nam gæta.

3. Farir þú lengst, sem felur sýn, fjær enn himin-ljós skarta, og þó bólfesta

yrdi þín, undirdjúps mirkrid svarta, ei stadur sá, þú flýdir frá, fjær enn hinn, sem þú nádir, Guds hátign er, sem gætin sjer, gjørla hvar finnast bádir.

4. Eilífi Gud! þig enginn hér, umflýr glæpugur madur; mun þad ørvænting auka mér, eg svo deyi glatadur? ó nei! þín nád, ædra gaf rád, ørugg svo trúin standi; fyrir þínn Son, í fullri von, fæ eg miskun bidjandi.

5. Nú flý eg því á nádir þín, naudstaddur vesæll madur, eg finn og játa afbrot mín, er fyri þér skélkadur; heims biltíngar, mig hræda' ei par, hjá þér ef blídu mæti; en hirtir þú, allt fellur nú, í grunn mannsins dramblæti.

6. Fyrr' enn uppkomu fjøll á jørd, og flódu lækir dala, ádur enn ljósin urdu gjørd, og mønnum gafst ad tala, fyrr enn andar, sætt súngu þar, sem þeim var fenginn stadur, Gud sá þad þú, þar sem ert nú, þenkir og talar, madur!

7. Uppi býr Gud med engla her, er þó hjá þrælum synda, dýrd heima undir eins hann sjer, og skuggann smáqvikinda, sem sólu hann, sjá stærstu kann, svo lítur duptid valla, minnst eins hvad er, þess afdrif sjer, eins og heimsins gjørvalla.

8. Blygdast því, glæpa vesæll vin! vef þig ei bøndum syndar; aflegg hræsninnar yfirskin, augu mannleg, sem blindar; meina ei ad, hann megir stad, hvar mátt einn heita, finna, eilíft í þér, ætíd þú ber, athafna vitni þinna.

9. Endíng tímanna er oss nær, adstedjar daudans nóttin, eckért hæli lífs frekjan fær, flóttann þó reki óttinn; aumur er sá, ei fyrr' enn þá, audmjúkur vildi sanna: Guds augad er, sem gjørla sjer, gáng og athafnir manna.

## No. 9.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor Gud.

Allstadar vidverandi Gud! vér þig í øllu sjáum; á hátign þina' í hvørjum stad, horfum í stóru' og smáu; eins lífi' og ønd' í hag, øllu stjórnar hvørn dag; Gud! þinn í gledi' og neyd, Gud! þinn í lífi' og deyd, krapt med oss fundid fáum.

2. O dásøm heill! ad ert oss hjá, ædri enn hugsast kynni; ad blídt og strídt, ástgjafir frá, allt eru speki þinni; þú vora velferd vilt, vegsama þig er skyldt; gløggt munum sídar sjá, sønn nád og speki há, var stjórn þín sérhvørt sinni.

3. Sef ad eg lastvar vandi vel, verk mín og hegdun ætíd; því hjartans líka hulid þel, Herra! þú vel adgjætir, sú hugsan hjálpi mér, ad hlýda þér, sem ber; þér svo mér hegda þá, hugrór ad birtast má, fyrir þér þá eg mæti.

## No. 10.

Lagid: Heidrum vér Gud af hug' og sál'.

Gud! í øllu, sem eg lít ské, med undrun þína speki' eg sjé; hønd þín ádur enn heim tilbjó, hann sástú víst frá eilífd þó; þín vitska gløggt hvørn þánka sá, þann feril allt skal gánga á, afdrifin líka', er allt skal fá.

2. Allt vottar þad, ad þér ber prís, þú, sem ert furdanlega vís! alheimur fagur undra stór, allt hrópar: vitur Gud er vor! hvørt strá og høfud=hár, øgn hver, ef hugleidd er, af øllu ber, veraldar ment, sem vinna fer.

3. Allt, allt til samans hrópar hátt, um Herrans speki, gædsku, mátt; eg skal því, Fadir! uppá þig, øruggur jafnan reida mig; einn þú hid besta ávallt sjer, afskamtar best, sem líkar þér, hverjum þad veitskú hentast er.

4. Drottinn! lát speki þína þá, þrótt og huggun mér ætíd ljá; hérvistar þá

um hættann veg, hvörki uppgéfst né mögla eg; hvad ætti ské edur ecki um sinn, ei megnar skynja hugur minn; verdi því, Fadir! vilji þinn!

## No. 11.

Med sínu lagi.

Lofid Gud! lofid hann hvörr, sem kann! gjörvöll þjód, já, gjarnan heidrid hann! allir menn um allann heim, ætíd hann prísi, dýrd allsherjar Drottni þeim, dag hvörn auglýsi, af því hans, ædst miskunsemi, kyni manns, kunn er í heimi, ei vors lands, innbúum gleymir, føst og traust í ást á oss. Allt hvad hræra anda kann, æ hann vegsami! allt hvad bærist heidri hann, og hátt lofi! Amen!

## No. 12.

Lagid: Jesús Kristur ad Jórdan kom.

Gud! mikill ert, þig engla her, ótølulegur prísar, vegsemd og dýrd æ votta þér, veldinu guddóms lýsa. Þú, sem býr ofar hærstu hæd, himna, sjá! þess ber vottinn, vorkins inndæli' og skruggan skiæd, skjært sólskin, dymma, nóttin: ad mikill ertú, Drottinn!

2. Eins gǽdur ert, gafst englum líf, og ofs, sem dupti klæddir, þinn berum svip og þína hlíf, þǽckum, allt hagsæld gjæddir. Vor, sumar, haustíd sýna lýd, sanna nád, heim og medur, vetur-inn, frostin stǽrdu stríd, felli-bylja storm-vedur, allt lof Guds kjærleik qvedur.

3. Fyrir dómstólinn þegar þinn, þjódirnar náir kalla, og bristist jardar-hnötturinn, háreistar borgir falla, þitt veldi eg sje, skélf, þeigi þá; þú lýsir fridnum blída, og sképnan gledst, því elskar sá, sem allt má skapad hlýda, dupti ljer Drottinn lýda.

4. Hjartanu ögra ógn hvör þá, í-stödulitla skyldi, óbrigdula fyrst er ad sjá, umhverfis þína mildi; ef jardar-hnött umspenna fer, eldur med vatna flódi, mín von, mitt traust skal þó á þér, svo þrautin síst ofbjódi, Gud miskunsami' og gódi!

5. Daudinn ei blöskrar dapur mér, né dymmir grafar skuggar; þín gædska, sem mitt athvarf er, í allri neyd mig huggar; öruggann mig ad eilífd ber, þá ad vill daudinn fara, öruggur sje hann, öruggt fer, á fundinn míns Dómara, míns Guds og míns elskara.

## No. 13.

Lagid: Heidur sé Gudi himnum á.

Gódur er Gud, í allri átt, af gjædsku verk hans ljóma; allt gledst sem hefir andar drátt, ást hans og vernd samrómar, af ást því skapa allt hann réd, ást gledur hann og blessar med; prís Guds ástar æ skal hljóma.

2. Gud! þú baudst, jørdin gróa réd, grænt í skrúd engid klædir; jørd vora fylltir frjófgun med, fékkst oss vit hennar gædi, oss ad hagnyta, heilsu, frid, og hagsæld gafst oss, þína vid, ást og nád vort kannast qvædi.

3. Fødurlega lífs fram á skeid, frá æsku þú oss leidir, heyrir vort qvein í hverskyns neyd, henni med nád úrgreidir; ad Gud vor einskjær ástin er, eins í mótgángi fundum vér, reynsla sú best raunum eydir.

4. Þú gafst oss krapt' ad gætum hér, gengid fram lífs á vegi; opt þó røsudum veikir vér, vor Gud burthratt oss eigi, af vegi skeikud vor samt spor, vel áfram greiddi Fadir vor, med ást fær oss ad sér dregid.

5. Unn oss svo leidast, Fadir! fá, fødur-hønd vidur þína; þínum ei víkja

fótstig frá, fúsa þér hlýdni sýna; því þess fagnandi fáum gád, Fødur vors bod eru' einskjær nád; oss lát þessu aldrei týna!

6. Í ró vor skundar æfi-stund, oss, Drottinn! vegferd greidir; úr grøfum værann eptir blund, alla til þín heimleidir; þá í føgnudi' og fridi vér, Fadir! um eilífd syngjum þér, lof, ástkjæri! æru og heidur.

## No. 14.

Lagid: Gled þig Guds Sonar brúd!

Þér himnar! hefjid dýrd, ad hún sé Drottni skírd, lofid hann í upphædum, hrósid hans makt og gædum! her hans og englar allir, æ lofi hann gjørvallir!

2. Seig þú lof sólin kjær, og sérhvør stjarnan skjær, loptid skal lof Guds frama, líka túnglid hid sama, hvad, sem er yfir og undir, allar lofi hann stundir!

3. Veglegast vatna safn, vídfrægi Drottins nafn, forkunnar fagursmídur, fullgjørt er hvad hann býdur, hans nidurskipun halda, heimar um aldir alda!

4. Hann lofi haudrid frídt, og hafsins djúpid vídt, eldur, hagl, údi, skrugga, ofvidri, regn, snjór, mugga, hvad eitt Gud heidri, prísi, hátign vors Drottins lýsi!

5. Hálsar og háu fjøll, heidri þig, Drottinn! øll, dalir, grasbúnar grundir, gjaldid prís allar stundir, fuglar, dýr, qvikfénadur, fjøldinn, sem skrídur gladur.

6. Allt fólk um allann heim, æ sýngi Gudi þeim, lofgjørd, sem líf, heill greidir, líkn veitir, meinum eydir, føgnud, ljós, farsæld géfur, vid fødur=hønd leidt oss hefir.

7. Allt hvad er skapad skal, med skírt lofgjørdar tal, hans nafni heidur greida, Herrans lof vídt útbreida, allt yfir himna alla, og jørdina gjørvalla.

8. Lofi Gud allt hvad er, og hvad sem var og skér! hann allar heidri þjódir, hans fyrir Son vorn bródur, Jesúm, dýrd sé honum samen, sýng lof Guds kristni! Amen!

## No. 15.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín!

Vor Gud er einskjær ást og nád, æ hverrar sképnu best fær gád, og eyl=

ir heill í heimi, hann blessar hvorn dag allt hvad er, oss, símum börnum, nád þann tjer, og skepnu engri gleymir.

2. Fadir! oss sköpst til farsældar, flýtur af þinnar miskunar, lind, allt gott, allt bjargrædi; sadning' hvorri og svaladrykk, er sjór og jord oss borid fékk, orlát þín gædska' oss gædir.

3. Inad þú minnist ætíd vor, af þer stjórnast vor luckukjor, hvort sæld eda sorg oss greidir; þú ert hjá oss í allri neyd, oss, gódi Gud! í vorum deyd, födurhönd þín framleidir.

4. Eins og Fadir áminnir þú, ó= dygd ad hata' en geyma trú, er dygd laun eilíf géldur; en þó vér brjótum bodord þín, Borgunarmannsins vit= um þín, ó Gud! ad vægd oss veldur.

5. Já, þú ert einskjær ást og nád, eblir vort sanna hjálpar rád, öll skal því eilífd lýsa; hér byrjum vér med barna=róm, í borg þinni med engla hljóm, ást þína æ skal prísa!

## No. 16.

Med sínu lagi.

Gudi lof skal önd mín inna, upplypti raust og hugur sér; síst ber ad láti'

eg linna, líkn hans, makt, speki ad prísa
hér; sekt gaf upp glæpa minna, gud-
hræddra styrkur er; hans nád ef hurdi'
eg sinna, hún krapt sinn á mér tjer, í
neyd lét fögnud finna, frid mæddu
hjarta lér; í vist himins heimkynna,
hann sælu geymir mér.

2. Alvaldur ást lét róma, og endur-
lausn oss frambaud hann; sem fadir
alla fróma, í fridar sáttmál taka vann;
hann firrist hefndar dóma, hirta sem
fadir kann; sér lætur miskun sóma,
sekum vidreisnar ann; himneskri nád
baud hljóma, hvar sem sinn ótta fann,
hans ást umhverfis ljómar, hvörn einn
rádvandann mann.

3. Blídur Fadir án brædi, bresti med
vorkun lítur á; eins vægja Guds hug-
gædi, grandvörum, sem hans ótti' er
hjá; veikt erum, veit hann, fædi, vorri
módur, jörd frá, mót daudans megna
ædi, minna enn visid strá; sem fisi sveifli
um svædi, svo lífi fyrirbrá; menn hverfa
í moldar nædi, margir seint ad því gá.

4. Drottins óumbreytt eina, um ei-
lífd standa mun þó nád; þad fá hans
þjónar reyna, þeir, sem vel hafa' hans
boda gád, ástunda ætíd hreina, eblíng' í
vitsku' og dád. Komid! lof Gudi' ad

greina! gladir hans prísid rád! hann børnum líkn vill beina, þó búi' í dupti' smád; bót fær þeim mildur meina, medur sæld himna tjád.

5. Prís skal fagnandi færa, Fødur Syni og Anda nú; heidrist þín hátign skjæra, á himni' og jørdu, Gud! í trú; þeim var og er, sé æra, æ hljómi lofgjørd sú! af þeim, er anda hræra, um eilífd gøfgist þú! englanna lofsaung læra, í lífi' oss undirbú, þig sjá, þér sýngja kjæra, þøck, heillum til vor snú!

## No. 17.

Lagid: Svo elskadi Gud aumann heim.

O Gud! þér hrós og heidur ber, mitt hjarta lofgjørd færir þér, þú stjornar, Herra! høgum mín, hønd var yfir mér jafnan þín.

2. Neyd þá mitt hreysi nálgadist, vid neydar-qvein' ei daufheyrdist, Guds mér aflétti gædskan þín, glatast lét ecki' í eymdum mín.

3. J sótt og verkjum lágt eg lá, líkna mér, Gud! kallad' eg þa, alvaldur Fadir áleit mig, aptur minn styrkur grædði sig.

4. Ovina heipt þá hug minn skar, harm þann ángurvær Gudi' eg bar,

mín svo ei hefndi hjálpadi' hann, hug minn þolgædi styrkja vann.

5. Viltur þá réttum vegi frá, vafinn mig synda neti sá, um Fødur-nád eg hrópadi' hans, hans nád vard styrktur aumíngjans.

6. Huggun sárþreydi hjartad mitt, því huldi Dróttinn andlit sitt; hvad lengi Gud! eg hrópa' á þig? hann yfirgaf ei veikann mig.

7. Hans miskun enn mun hjálpa mér, Herrann trúr og líknsamur er, frá illu hann mig frelsar vel, fúst mitt til dygdar gjørir þel.

8. Raunir og neyd eg þacka þér, þá sem, ástríkur! sendir mér; gøfga fyrir þá gledi þig, er gædskan þín vyrdtist sæma mig.

9. Heims fyrir lán eg þacka þér, þinnar trygdar, sem ástgjøf er; þér þacka' ad sköpst oss allt í hag, er þín gædska ný sérhvørn dag.

10. Fyrir þá gædsku' eg gøfga þig, ad gafst þinn Son út fyrir mig; af øllum mætti, øllum hug', og allri sál' eg prísa þig.

11. Guds verk um eilífd gøfgi' hann øll, Guds er af miskun jørdin full, þér

sé vegsemdin, heidur, hrós, hjálpar þú fús og líknar oss.

12. Þó sé hjá oss ad qvøldi qvein, kjæti' er ad morgni og unan hrein, þá reynslu-tíminn úti er, oss leidir hann í dýrd hjá sér.

13. Aldrei, mín sála! Gudi gleym, gjald lof mildasta Fødur þeim, med ást, trú, hlýdni, heidra hann, Herra nádugann tilbid þann!

## No. 18.

Lagid: Nú bid eg, Gud! þú nádir mig.

O hvad stór gudleg gædska er! góda manns-art sá ecki ber, hvørs svo er forherdt hjarta' og ged, hana ei fann né þacka réd. Guds elsku prófa' og una vid, ætíd veri mitt skyldu mid; ei gleyma vann hans miskun mér, minnast hennar því skyldugt er.

2. Meistara hønd hvør mig tilbjó? míns Guds, sem mín ei þurfti þó; hvørr med láng-gædri hlífdi nád, hann, þess eg opt forsmádi rád. Hvørr gaf mér sinnis hvíld og frid? hvørr andans krapta rétti vid? hvørr gaf mér þúsund gædi' ávalt? Guds neina hønd, sem skapti allt.

3. Lít upp, mín sál! og sjádu hert, þad sæla líf, til hvers skøpud ert, hvar þú í dýrd um eilífd sjer, einn Gud í veru, sem hann er, til æru' og gledi áttu rétt, af mildi Guds er þad tilsett; inngángur lífs svo opnist þér, í daudann genginn Jesús er.

4. Skyldi' eg þann Gud ei heidra hér, hans gædsku ei láta skiljast mér? skal hann hrópa, eg heyra ei, hann leidrétta, eg segja nei? hans vilji og ord innskrifad er, í mitt hjarta, sem styrk því ljer, allramest Gudi unna ber, en náúnga likt sjálfum mér.

5. Þacklæti kýs hann þetta' af mér, þad í gódgirni' eg líkist sér, fús ef eg skyldu fylli þá, fogur sjest mer hans líkíng á. Hans elska' ef lifir í mér gód, ørfar hún mig á skyldu slód; síst gét eg fundist saklaus hér, synd þó ei drottni yfir mér.

6. O Gud! sé føst fyrir augum mín, ætíd kjærleiksfull gædska þín; alúd dygdanna hún ørfi mér, ad mitt líferni helgist þér; í hørmúng sé hún huggun mín, hún leidi mig í sæld til þín, og endur-hressi' á efstu stund, andláts gefi mér værann blund.

## No. 19.

Lagid: Jesú Kristi! þig kalla' eg á.

Þú ert réttvís alvaldi Gud! øllum sín laun ávedur; vesæll er hvørr þín heiløg bod, hirdulaus yfirtredur; æ þess í tíma gef mér gá, Guds ad réttlætis dómar, qvídvænir koma, og hardir dára hitta þá, hans bidlund er forsóma.

2. En hinn, sem lastvar hlýddi þér, á himnum gledi mætir; þó dygd af engum þeckist hér, þrjótskur syndarinn kætist; samt mun þín gædskan gløggvast þar, guddómlegt ljós í leidast, allt myrkur eydast, og kjør réttvísrar umbunar, eins dygd, sem løstum greidast.

3. Kenn þig ad elska, minn Gud! mér, og mitt líf dygdum prýda, þín skipan speki øll því er, og gledi þér ad hlýda. Hjartad þá mun ei hrædast mitt, þitt helgasta réttlæti, þad qveikir kjæti; ad mér þú geymir hnossid hitt, hjá þér í dýrdar sæti.



# 2. Sköpunar Verkid.



## No. 20.

Lagid: J dag eitt blessad barnid er.

Hef þig, minn andi! haudrid mér, hljóm byrji med lofqvæda; vor Drottinn stór frá eilífd er, øll jørd og himnar ræda; já, yfir allt er Herrann hár, hann baud og guddóms skipan klár, ein tilbjó allt veranda; sól, stjørnur, himinhnatta hjørd, hann gaf útdreift, sem sis á jørd, og sandkorn sjáarstranda.

2. Gack hátt, mín saunglist! glød í fylgd, Guds engla raddar hljóma: Gud Skaparinn er gædska mild, gélli vid þúsund róma! Gud skaparinn er eilíf ást, vid ord hans lífid streyma sást, í lík øll, sem lifa kunna. Gud er sjálf elskán, Gud vor, já, gengur øblugur hródur sá, af mergd ótaldra munna.

3. Mín lofgjørd, hærra lypti sér, lýsi dýrd verka þinna! Gud yfir allt æ gøfgum vér, Guds krapt má hvørr einn finna; gódur, vís er vor Gud og stór, greinir himins og jardar kór, hvad

skapt er, hann baud væri; allt stód þá prýdi' og ordu í, óendanlegum Gudi því, hans øll verk heidur færi!

## No. 21.

Lagid: Gudskuriskasti grædari minn.

Hvørr má, Gud! skynja hugur þig? hvørr ædstum Gudi, líkja sig, í anda veldi vídu? þig, Drottinn yfir øllu einn, sem ert fullkominn, helgur, hreinn, hátt lofar heimsins smídi. Tign ædst, ást stærst, eilíf vísust, verd ad prísast, vér því greidum, lofgjørd, þakklæti þér og heidur.

2. Þú ert og varst eilífu frá, um aldir vera munt og sjá, ei þitt alveldi þrotna. Þú skipar, heimar skaptir stá; þú skipar, heimar undir gá, því þú einsamann drottnar, lopt há, láð, lá, gjørir prísa', og gjørvallt lýsa guddóms megni; Drottinn vor ønd því í dupti tigni!

3. Gud! þín stærd er ómælanleg, umkríngir guddóms ljósid þig, daudlegum ofskjært øllum; þó er þinn kraptur øllu nær, alheina', er skynsemd mælt ei fær, geym rædur þú gjørvøllum; eins smærst og stærst, allt ber vottinn,

um þig, Drottinn! er vér sjáum, í þínum verkum og fundið sáum.

4. O Guð! hvað værum vér án þín! vitsta þín birtir undur sín, í hæðum og á jörðu; til heilla oss, en heiðurs þér, hönd þín stjörnar og máttug ber, skepnur í skaptri orðu; eins blídt og strídt, þú áleggur, því vorn gløggvast þeckir haginn, eins í svartnætti og um hádaginn.

5. Vegsamið þá með helgum hljóm, hátíða saung og gleði-róm, hann allra Drottna Drottinn! blóm láðs, skraut himins skoðið þrátt, skoðið hans speki, gæðsku, mátt, hans guddóms veldis vottinn! skoðið! skynjið! yður gleðjið og tilbiðjið allra Fødur, Guð fyrir Krist vorn kjærsta Fødur.

## No. 22.

Lagið: J dag eitt blessað barnið er.

Hátt sýngið Drottni hærsta lof, hann prísa, maður! áttu; til engla tignar hátt þig hóf, sá himna sköp vídáttu; allt hvað hans veldi líf nam ljá, losi' hann hvað sína vísu á, í fagnaðar flocki einum; sýng, himin! dýrð, lof sýng þú jörd! sýng Skaparanum þackargjörd, hvors gæðsku gjörla reynum!

2. Gud! hvørr má samjafn heita þér? hvørr líkur nefnast skyldi? allt skapad vottinn blídu ber, allt blessar fødur-mildi. Orm og Serafim álítur, og beggja kjør, þinn vísdómur, med kjærleik réd áqvarda; eg þín mannkind, heill hvílík mér! hátignar þinnar ímind ber, já, eilíf á ad verda.

3. O Drottinn! hvílík unan gód! í alheims hríng margbrotna, um lopt, jørd, sjó er líf og hljód, Guds lýsir stjórn hvervetna! þrumu-gnýr, leyptur, eldíng er, allt þinnar nádar vottur mér, eg skal med hrærdum anda, eilísi Gud upphædanna! þér, allra lindin gæd-anna, um aldir vegsemd vanda.

## No. 23.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Géf mér skyn ad skírt eg prísi, Skap-ari minn! þitt vald og krapt, hvar med Gud, þú gódi' og vísi! gjørvallann séckst heim vorn skapt! efl og styrk minn inn-ra mann! ad yndis heilags njóti hann, verkin þín, mig vyrdstu' adstoda, veg-leg medur lotníng skoda.

2. Jord og himin hvolfid bláa, bærst-ur tilbjó kraptur þinn, í því stóra' og í því smáa, alveldis mátt sama' eg finn,

allt í fagra ordu sett, allt framgengur víst og rétt, um allt eg má med undrun ljóda, allt sé hér hid harla góda.

3. Hvad þín fram á hvørjum morgni, hátígnarleg brunar sól, ad ljómi, gledji, lífgi og orni, láds vors myrkva' og kalda ból! hvørs hønd mældi hennar skeid, hríngbogid um loptin breid? ad hennar slocknar ecki eldur, aldrei skérdist, hvørr því veldur?

4. Loptid oss med lífi gædir, lífgar vort og styrkir fjør; í regnskúrum ofan flædir, af þess brunni frjóssemd ør; stormaher þá hertýjast, hér þitt dunar þrumukast, fold sem gagnar, fold sem hrædir, og furdu hátt, hvørr Gud sé, rædir.

5. Hvørr mid setti sjóar ædi? sagdi: lindir frambrjótist! lét vøtn halla hafs ad flædi, hvar uppspretta nádu fyrst? jardar holu ydrum í, elds hvørr megni stjórnar því? þvørr í fylsnum fjalla geymir, fagrann málm til nota heimi?

6. Hvørr med laufi skóga skrýdir, skreytir grænum blóma fold? hvørr orma gledur, elur, prýdir? upp hvør lífgar dauda mold? hvørr gaf sál' og sansa mér, sem skynbragd á margt nú

ber, og til þín má þánka snúa, þú Alvaldi'! og á þig trúa?

7. Allt það skópstú, allt ber vottinn, um almátt, speki' og gæðsku þín; lífsins Fødur dýrka' og Drottinn, með dygð og trú skal øndin mín. Já, Guð, vor Guð víst er stór, það vottar himin, jørð og sjór, lopt, vøtn, eldur, allt til samans, øll verøldin segi: Amen!

## No. 24.

Lagið: Kom Skapari heilagi Andi!

Upp! upp! allt hvað Guð hefir gjørt, høfund vegsamið, prísið hann! það minnsta' er sköp hann mjøg er stórt, mátt hans og gæðsku birta kann.

2. Þó kjæmi saman Kóngur hverr, klæddur í skrúð með vøldin há, eitt grasstrá skapað gætu' ei hér, Guðs bendíng ein kann fella þá.

3 Engla herskarinn eins hér fann, ofveikann þeirra himin-krapt, af engu því að aldrei kann, eitt duptkorn minnst' að géta skapt.

4. Æ øll vanmáttar augljós spor, hjá øllum skepnum birta sig; ó hvar má finna orð, Guð vor! er verðuglega prísi þig?

5. Hvad fæ eg sagt, nær fjølbreytt lít, fold ad umvefja blómstur skart? og allann gróda' um engi', er nýt, eins nær og fjærri þúsund margt?

6. Hvad fæ eg sagt, nær fugla-krans, fagrann samstilla heyri róm? ótal hljódfæra umfram dans, øndin kjætist þann vidur hljóm.

7. Hvad fæ eg sagt, umhverfis mig, nær her af qvikum skepnum sje? hvad Guds frá himni', er sýnir sig, sólin upprunnin geislande?

8. Hvad fæ eg sagt, mér furdu fær, fagurt blikandi stjarna her, blídt sje eg hvør ein brosir skjær, sem bendi upp til himins mér?

9. Hvad, samsaung anda' ef heyrdi eg, hátign míns Guds, sem vegsama? Gud er stór! tign hans guddómleg, gøfgist og nafn! Hallelújah!

10. Undirtaki med anda kór, allar kynqvíslir veralda, Guds nafn vegsamist, Gud er stór! Gudi sé dýrd! Hallelújah!

## No. 25.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Gladvær jafnan gøfgi, prísi, Gud minn! þig einn øndin mín; hvørr er, sem þú, sá hinn vísi; sannast rád og

speki þín. O! ad mætti andi minn, í øllum þínum verkum þinn, vísdóm þeckja, þecktum lýsa, þecktann hvørr, sem æ má prísa!

2. Í bjørtum fiarska hátt upphengdi, høg þín speki sunnu-hvel, med stjarnahnøttum haglega tengdi, hnøtt vorn, ljóss svo nytum vel; sól þar hángir engu á, einn þú stydur, falla ei' má, vermir, ljómar, lífgar, hressir, ljóss þíns døpur ímind þessi.

3. Ærnum þúnga, hvørt svo heldur, himin-kroppa, jafnvigt í? lopt þú skópst, hvørr veit hvad veldur, verøld lídur fram í því? mid hvørr sólu setja réd, svo vísdómi' og dásemd med, ad il og birtu senda sinni, sól verøldu' og frjófgun kynni.

4. Hvørr fram loptid heimti', umvefur, hér sem oss, allt bera má? allt af því líf, hræríng hefir, hitt, sem líss er andi hjá; dampa saman dregst þar megn, døgg í snýst og frjóssamt regn; frjóssemd blessun flytur heppna, fram til mín og allra skepna.

5. Hvørr nam lopt svo laga' ad géti, leyptur fædt og þrumu gný? vinda strik ad fljótt umseti, fuglinn léttfær

sveymi' í því? ad það beri ad eyrum hljóm, ad til dýrdar þér vorn róm, lífgi þad og fleyti fimum, fiskum hægt í afgrunns kymum?

6. Hvørr vann svo ad hátt uppgnæfi, hefja jørd úr djúpum sjó? vøtn skamtadi hvørr í hæfi, henni svo ad yrdi frjó? hvørr vøtn þekur? hvørr þau nam, hepta, qveikt þá velta fram? hafs vid øldur háfar segir: híngad æsist, lengra eigi?

7. Grundir hvørr í grasi vefur, græddi skóg' á eydi=lóð? korns og víns hvørr gnóttir gefur, græna' um dali fjøllum hlóð? marmara hvørr og málma fjøld, midt í jardar ydur køld, lagdi? eldum gjár hvørr grefur? gjørvallt skrauti hvørr umvefur?

8. Gud! þín vitska bjargar, blessar, býtir nægtum, prýdi lér, stydur, verndar, hýrgar, hressir, heimi líf og farsæld tjer. Guds hátign eg gladur sýng, og guddóms vottinn allt um kríng; Guds, minn andi laungum lýsi, og lofi speki, þacki, prísi!

No. 26.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín!

Frá hreysi því, sem eg bý í, augum eg til þíns hástóls sný, ó þú ósýnilegi!

hvad stór þú ert, það miklast mér, margföld því alheims dásemd er; allt verdur, er þú segir.

2. Vid bod þitt heimur hvørr uppris, hvad ertu máttkur, gódur, vís! sonn orda sú því lýsir, óröskud, hvørri áfram í, allt sveymar, sem fyrst gafstu því, allt hátign helga prísi!

3. Gud! hvørr kann sjarska furdu geim, sá mælt, og takmørk sjed um heim, hvar ótal hnettir sveyma? vanmegni hyggju manns ad slær, megin dýptir ad horfa' í þær, og ómælandi geima.

4. O Gud! hvar birja? hvar þrot fá? hvørt þíns alveldis takmørk ná? ord, mæling', þánka þrýtur; þrotlausann undra þann geim má, þar sólir sólum hærra stá, ei veit hvar enda hlýtur.

5. Obecktir hnettir útleidast, ótal þúsundum sjølbyggjast, ótal alveldis sæti, þau verda sérhvør þá fyrir þig, þér, mikli Gud! øll hnegja sig, þér audmjúk þjóna ætíd.

6. Þér hnegir allt hvad þenkja kann, vid þig, øll fagnar náttúran; þér afgrunns hylur hlýdir; þín bending lægir bylja þrá, bifast grundvøllur heimsins má, og bresta nær þú býdur.

7. Sjá, Guds tign! játa gløggt eg finn, gjorvallann anda vanmátt minn; alveldis hønd eg eygi, einn sem verk hefir algjört sitt, á ordu, tíma' og krapt fécé hitt, hverju sem haga megi.

8. Hønd þín fullkomleik hagqvæmann, hvørri sképnu medskapa vann, ætla fjør, edlis krapta; allt vard ad því, sem vera skal; vísdóms hér sjest hid mikla val, ædsta féck ordu skapta.

9. O! guddóms verka undrin há! ó túngur! sem ei telja má, ein er ydvart lofqvædi, Algædskan; prís svo sýngur sinn, sérhvørr lifs kraptur: Skaparinn, er einskjær elska' og gædi!



## 3. Guds Forsjón.

No. 27.

Lagid: O Drottinn allsvaldandi!

Lofid Drottinn lifanda, ljúfur, sterkur og vís sem er! kyn, honum keypt til handa, komum! med saung hann prísum vér! hvørr mun jafn, honum vera, heilagt nafn veldis bera? allt lífs safn, æ dýrki hann Herra!

2. Lofid Drottinn lifanda, er lét oss skína dásemd á, býr oss heilsu til handa,

og hvað sem farsæld ebla má; enn þótt neyd, á oss strídi, øld þó deyd, fyrir gvídi, Herrans greid, hjástod verndar lýdi.

3. Lofid Drottinn lifanda, ljúf drýpur blessan himnum af, hjá oss vid størf réd standa, og styrk í allri mædu gaf, augu manns, øll sem kjósa, æ sjá hans, forsjón ljósa, borg og lands, bygdum á sér hrósa.

4. Lofid Drottinn lifanda, sem leidir, stýrir, hagar til, og lætur einnig standa, af íllu gott oss þrátt í vil. Himna kór, haudrin svara: hátign stór, er Skapara; gjørvallt sór, Guds lof ei ad spara.

5. Lofid Drottinn lifanda, lád-bygg-endur med eitt samtak! hans lofgjørd himnar vanda, hann þyggur og vort auma qvak. Gud vor er, Gud alvaldi; gøfgum vér, hann um aldir; hvad lífs fer, honum vegsemd gjaldi.

## No. 28.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi.

O! þó eg hefdi þúsund munna, þig ad vegsama, Drottinn minn! mín veika lofgjörd mundi' ei kunna, mikla nóg fødur-kjærleik þinn, af því þín medferd øll á mér, undrunarfull og dásøm er.

2. Þó fengi raust mín fagur=róm=
ud, flogid svo vídt, sem alheims=ból;
og lypt sér upp minn lofsaungs hljóm=
ur, léttfær ad Drottins tignar stól;
hvar engla røddin ofdauf er, øllu mid=
ur þar farnast mér.

3. Sem barn þó fái' eg, Fadir! qvak=
ad, furdu léttvæg er þockin mín, þú vilt
mitt offur þó medtaka, þócknun medur
af gædsku þín, þú veitst mín orka' er
veik og smá, viljann þú einann lítur á.

4. Um mig þú Födur=forsjón vefur,
í fadmi þínum ugglaus bý; til þarfra
ydna þrótt mér gefur, því nýt eg brauds
af hørmum frí; Fadir! øll gledi' og far=
sæld mín, flýtur af brunni gædsku þín.

5. Frá minnar æsku fyrstu stundum,
forsjá þín náqvæm leiddi mig, þín hønd
mig dró frá hættum syndum, hvatti: ad
elska dygd og þig; þá fótur skeika mátti
minn, mér jók dug og hug andi þinn.

6. Svo lengi tungan sig má hræra,
saungrødd mín glød skal prísa þig. hjart=
ad skal þackar=fórn þér færa, fær medan
hreift í brjósti sig; þig, er eg hníg í daud=
ans dal, dýrka sídasta andvarp skal.

7. Mín glada ønd þá upp sér lyptir,
ódaudleg frjáls í himininn, og englum
jafn eg eymdum svíptist, enn fegur

hljómar saungur minn; ædrá med
himna hird eg þá, ó Herra! lof þér
syngja má!

## No. 29.

Lagid: O! þú gofuglega þrenníng!

Himna Gud og hjartans Fadir!
Heidur þinn vér syngjum gladir!
Þúsundfaldt þøckum vér þitt hjálprædi,
Líf, heilsu, føt og fædi.
Vort skyn allt, vor raust þér vegsemd
færi,
Er skepnur allar nærir.
Þín voldug hønd, Drottinn! verndi'
oss hér!
Veit lands gróda,
Veit oss heill og hagsæld góda.
Lát oss vel læra ad lifa þér,
Lída og þreya,
Loks í trú þér líka deya.
Og útvalda,
Um aldir alda, ædst lof segja!

## No. 30.

Lagid: O Drottinn allsvaldandi!

Ottast, mín sál! aldreji, eg þó vina-
laus standi' um sinn, og þó eg hitta
egi, ørbirgd og sótt, því hugur minn,
traust Gud á, sífeldt setur, særa má,

hvad sem gétur, ørt mun fá, enda brigdar vetur.

2. Eg hrædist ei þó sjái, allrar veraldar fjørbrot hørd, eda þó æda nái, ógn og skélfing um lopt, haf, jørd; Gud mig leidt, gétur tryggur, grandi eydt, best þá hyggur, hjálp tilreidt, hann fær, nær áliggur.

3. Eg er almættis handa, ágæt sképna, mitt hjartad í, sitt gaf hann ord og anda, af nád frelstum ei gleymir því, hann best sjer, hvad mig bætir, hann mig ver, neyd þá grætir, rádi mér, rád hans, hvad sem mætir.

4. Hér mitt reynslu-stand heitir, himininn er mitt fødurland, til hans sér hugur fleytir, hvar, eptir skammvinnt mein og grand, gledi fá, gésst mér bestu, gædsku þá, dásemd mestu, set eg á, sanna traustst stadfestu.

5. Øll lidnu lífdaganna, lídan um eilífd gleymist þá, í flock' útvaldra manna, eg nær helgadur birtast má, sigur-krans, senn í ljóma, sælu lands, ber med sóma, Frelsarans fæ eg vegsemd róma.

6. Fyrir þær gnóttir gæda, Guds Son er oss tilbúa fór, eg lofa Gud uppbæda, engla hans medur saungva-kór, alls nægd þá, er þar gledur, enginn má,

túngu medur, greina, sá, glansi er ó=
sjedur.

7. Mín sál hér medan þreyir, mæn=
andi horfir, Jesú minn! eptir þeim
yndis degi, ad sjá hátignar ljómann
þinn, eilíf þá, audnast kjæti, er eg má,
Herrann mæti! frelstur stá, fyrir þínu'
hásæti.

8. Hjá þér øll heimsins mæda, hlýtur
í gledi snúast mér, þar kann mig hrigd
ei hræda, harma grátur afþerrdur er;
gladur því, grøf ad vendi, Guds dýrd í,
hug minn sendi; hress og frí, hlaup mitt
svo eg endi.

## No. 31.

Lagid: Gædsku Guds vér prísum.

Einn Gud þér allir prísid, og lofid
Drottins nád, allt skér til góds, aug=
lýsid, øllum hans stjórnar=ráð; frá
vorri fæding hann, fram oss sem fadir
leiddi, føðurlega tilreiddi, þad sérhvørr
þurfa vann.

2. Eins vid oss ørlát breyti, eilíf
Guds ríkdóms hønd; frid, heilsu, heill
enn veiti, hún fyrir líf og ønd! þó fram=
ar þessu ad, hér sína hegdun vandi, í
hlýdni trúr vel standi, hvørr einn,
Gud gefi þad!

3. Þér Fadir! eilíf æra, ædst lof og þøck sé tjed, og þínum Syni' ástkjæra, Anda guddómsins med. Gud, sem varst, verdur, ert! blessa vort land, gef blída, bót þeim, er raunir lída, heill vor og hjástod sért!

## No. 32.

Lagid: A Gud alleina.

Lof, eilíf æra, alheims stýrir! sé þér! um ást einskjæra, allt skapad vitni ber; ó Gud alvísi! allt þitt framleiddi bod; þig alls auglýsi, orda, líf, fegurd, rød, og þig einann prísi, øll skepnan sæl og glød!

2. Þín gædska gledur, gæfu' og blessun tjer, svalar og sedur, sífeldt vidheldur mér; eg má eins nefna, ó Gud! þig fødur minn; fødur-ást efna, æ reyndist þú hvørt sinn; af þér alla géfna, andarkrapta eg finn.

3. Þú hýrgar, hressir, hugsvalar, styrkir mig, þó lífs kjør þessi, mér þyki ervidlig, aldrei eymd hrjádann, mig yfirgéfur þú, en þrautum þjádann, þín gledur mildin trú, ad til æru' og náda eilífra búir nú.

4. Hvar hrekjast næ eg, hjá mér þú jafnan ert, hvørgi horft fæ eg, hvar þig ei sjái bert; í hug hvarflandi, þú

hulda þánka sjer, ádur minn andi, út-
klikur þeim í mér, æ mitt allt ástandið,
allstaðar ljóst er þér.

5. Hvort gætinn geymi, gædskurík
boðin þín, eða' gálaus gleymi, því gæfa'
og heill er mín, þú grant aðgjætir; guð-
dóms vísdómur þinn, mitt athvarf
ætíð, er og trúr leiðtoginn; best þinn
kraptur bæti, blessaður veikleik minn!

6. Ef grandvar geymi, Guð! jafnan
boðin þín, hérvist í heimi, heillasøm
verður mín, hættulaust héðan, heim til
þín glaður fer, lífs frest þá ljeðann,
minn lætur þrjóta hér, fæ þig, Faðir!
sjeðann, hvar farsæld eilíf er.

## No. 33.

Lagið: Guði lof skal ond mín inna.

Hvar birjar, Herrann blíði! hvar end-
ar þín grunnlausa náð? hvað er, sem
ei útþýði, augna mið þitt og vísdóms
ráð? sérhvørs, er líf þú ljenar, líkn
þín minnist ávallt, og hvað hans þørf-
um þénar, þú sjer og géfur allt, vort
traust er á þér einum, ó Faðir himn-
um á! hlífð þín nema hamli meinum,
hvað kann að standast þá?

## No. 34.

Lagid: Heidrum vér Gud af hug' og sál'.

Gud Drottinn! stór þín gædskan er, gloggt vitni jord og himin ber; henni alls eckért mann-vit má, maklegann prís og lofgjørd tjá; þín ofanstreymir miskun mest, og mildi hvørn dag til vor best, sem um eilífd fær enganu brest.

2. Braud fyrir daglegt þøck sé þér, og þad gott allt, hvørs nutum vér; þøck fyrir lands vors frid og fró, frjófsemd jardar og abla' úr sjó. Gódi Fadir! þig gøfgum vér, þig gøfga jørd' og himni ber, sem øllum bjørg og blessun tjer.

## No. 35.

Lagid: A Gud alleina.

Ønd mín ósk sína, ó Fadir! sendir þér, þú veitst þørf mína, því lífid gafstú mér, í augsýn þinni, opinbert gjørvallt er, þad mædu minni, má valda' og gagni hér, hvad mig hitta kynni, til heilla verdur mér.

2. Líf med líkama, leikur í hendi þér, allann lífs ama, eg reyni gæfu mér; þó mig þraut beygi, þolleysis flý eg sid, órór eg eigi, um alls nægt heldur bid, þinn vid skamt eg þegi, þeim tek ánægdur vid.

3. Eg spyr ei hreldur, um minna daga tal, ángrast ei heldur, eg nær burt fara skal; þú einn afmælir, æfitíd mína hér, og einn farsælir, minn afgáng, heim þá fer; hel þá holdid kjælir, hjálp og traust ertú mér.

No. 36.

Lagið: Til þín heilagi Herra Gud!

Hátt prísi Drottinn hvørr einn mann, hans lofsaung allir vandi! frjófgun jordunni færir hann, frid géfur voru landi, ó Gud, vor Gud! vér þøckum þér, þín miskun, vor Gud! eilíf er, oss fordi' hún øllu grandi.

No. 15.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Eilífi ástar Fadir! er alvaldur stjórnar himni' og jord; allt sem þitt ord skapadi, allt heidrar þig med þackargjørd; forsjón vídfrægir þína, fagnandi prísar þig; skyldi' eg þá einn ei sýna, ást Skaparans vid mig? ó nei! ønd minni' og huga, upplypti' eg, Gud! til þín, þína miskun máttuga, mikli raust þacklát mín.

2. Nærgætna náð mér tjádir, nafn fyrr enn lærdi' eg hjala þitt; gagn mitt trúr ebla gádir, geymdir opt líf frá slisum mitt; skammsýnn eg gjørdi' ei grilla,

hvad gagnlegast mér var, til andar og lífs heilla, alskygna forsjónar, augad þitt æ vakandi, øll hepti meinin vønd, mín geymdi vel vid grandi, guddómleg fødur-hønd.

3. Eg þína, ástar Fadir! ánægdur blessun dag hvørn sá; á mér ávallt sannadir, ad engann, sem þig treystir á, og þér sig allann hefir, afhent, þú skiljir vid, uppheldi gott því géfur, gladværdir, heilsu, frid, ástir einlægra vina, opt føgnud saklausann, mér Drottins milda þjenar, miskunar uppsprettan.

4. Pad má ei reiknast reidi, þó reyni bøl og eymd vort géd; oss Fadir ljúfur leidir, líkn sendir jafnan þrautum med, alls gjørir gódann enda, guddóms vísdómur þinn; ef þúngbær hrigd réd henda, og hrelldi anda minn, þolgædi þitt ord kénndi, þinn andi jók mér dug, hjálpar von sálu sendi, sem minn vid-rétti hug.

5. Lífs á vedhlaupi hálu, heims þá ginníngar tældu mig, og vidnæm syndin sálu, svikid hafdi á lasta stig, svo sálar gagni' ei sætti, sjálfum mér gleymdi' og þér; ó Gud! þú enn mín gættir, ei vildir gleyma mér, andar gagn mitt dýrt

mattir, mína samvitsku því, føður-raust fræddi, hvatti, frelsadist eg á ný.

6. Þackar eg hef upp hljóminn, hjartanu til þín lypti' og önd; æ! gef eg ávallt rómi, þér æru og lof, ad mér þín hönd, føðurlig gott allt gjørdi, Gud! eg vegsama þig! æ eg audmjúkur virdi, umsjá þína vid mig; allt, sem þitt alvald stjórnar, eins um himna sem láð, sagnadar lofsaung fórnar, føður-ást þinni' og náð!

No. 38.

Lagid: Konúng Davíð, sém kénndi.

Þér, Gud! eg þackir segi, þín náð er furdanlig, er frá fæðíngar-degi, forsorgad hefir mig, og annast eins og nú; mig skorti føt og fódur, þá fæddist af lífi módur, allt bættir þetta þú.

2. Eg lifi, er og hræristi, eilífi Gud! af þér, án þín víst eg fortærist, allur minn kraptur þver, loptid er eignin þín, af hvørju eg dreg anda, orka hann frá mér senda; annars mín æfin dvín.

3. Þú átt og alla daga, eins er og nóttin þín, og allt hvad hér kann haga, heillum sérhvørs og mín, himin, vøtn, haf og jørd, allt sem lífs anda hrærir, allt vel forsorgar, nærir, því ber þér þackargjørd.

4. O! hvad ørlátur Herra, ertú vid sérhvørn mann, orda hlutanna hverra, hentug vard fyrir hann, er sú óraskanleg, sumt hagar, sumt má græda, sumt agar, allt kann fræda, og stoda einhvørn veg.

5. Enginn rétt enn veit skíra, øllum tegundum frá, grænna grasa og dýra, sem gagnast mønnum fá, lof sé þér, Drottinn dýr! er þad skópst oss til handa, og létst í skordum standa, úr hvørjum eckért snýr.

6. Nyti' eg ei nádar þinnar, náqvæmu, Fadir minn! yrdi rás æfi minnar, endud, sem draumurinn; líf mitt lifir af þér; láttú mig lof þér gjalda, og lífinu hjá þér halda, medan eilífdin er!

No. 39.

Lagid: J dag eitt blésad barnid er.

Skyld' eg míns Guds ei gøfga nafn, gædsku hans prísa mesta; allt vottar hluta allra safn, ad hann vill mér hid besta; sannlega nád hans einskjær er, sem alla tíd vidheldur mér, vid øllum háska hlífir, og mig forsorgar fødurlig; forgengur allt og tælir mig, ást Guds ein ætíd blífur.

2. Þegar frá eilífd þeckti hann, þad minni velferd hagar; ljós, krapt, gædsku

og líf eg fann, af líkn hans alla daga; hans fødur-ást annadist mig, ádur enn lífs eg komst á stig, á minni vegferd veitir, allt sem hér vidþarf velferd mín; veltur, forgengur allt og dvín, ást Guds ein aldrei breytist.

3. Vid elskad barn sitt breytist géd, blídlundads fødurs eigi, þó gjálíft fái gánga sied, gæfu þad út af vegi; eins fæ eg reynt þitt fødur-þel, fara í øllu med mig vel, elska, þá aga sendir, ei hirta' í reidi og hatur tjá; hverfult er allt og bregdast má, ást Guds ein stød-ug stendur.

4. Þó tárin væti hvarma heit, hørmúngar þegar mæda, aga þinn ást eg vera veit, von sú má huggun glæda; frá þrældómsfullum synda síd, sem eg gjálífur undi vid, med þrautum mig vilt hrífa, aptur til þinna ásta' á ný; allt bregdst og þrýtur heimi í, ást Guds þó ein mun blífa.

5. Engin heims þjáníng, eilífd nær, afskomtud lífs er mæda; af þeirri vissu ønd mín fær, eblíng og styrk þolgæda, þá vetrar hretid þrýtur strídt, þar eptir kémur sumar blídt, hverfur eins hrigdin senda; í føgnud sorg øll sídar

snýst, svipult er allt og þrýtur víst, ást Guds varir án enda.

6. Af gædsku einni géfur mér, Gud ómbreytanlegi! eins sorg og gledi, eg fyrir þér, mig audmjúkt nidurbeygi; ó Fadir! géf mér Anda þinn, ad ástundi eg kostgæfinn, þér ad þócknast og hlýda, uns reynslu tímann út hefi' strídt, og andlit þitt fæ skoda blídt, og allt bregdist annad sídast.

## No. 40.

Lagid: Jesú! þínar opnu undir.

Eptir þessum nótum.









2. Lífs áhyggju, minn Guð! mína, og mig eg fel í hendur þér, öruggur við umsjá þína, er eg farsæll þar og hér. Eilíf speki' er allt þitt ráð, öll þín breytni gæðska' og náð; eg ei þekki hvað best hagar, hönd þín allt til góðs mér lagar.

3. Vörn um mig nær veit eg þína, vel fyrir öllu borgið er; óró skal mig engin pína, örugg forsjón þín sem ver. Ovild, hætta ecki nein, orkar mér að vinna mein, sjálfur dauðinn síst mér grandar, sællra Guðs á milli handa.

No. 41.

Lagið: Til þín, heilagi Herra Guð!

Því spyr hugsýkin: hvar mér sé, hönd, er atvinnu tæri? veiti brauð, klæði, hús og hlé? hér sem eg gjördur væri, volæðis einn að þola þrá, þvílíkt sem Guð, mér vikinn frá, Föðurs ei forsjón bæri!

2. Vallanna blómstur virð fyrir þér, vinna þau ei né spinna; þó týnir Kónga sóminn sér, samlíktur skrauti hinna; hvörr óf þeim föt og lénti lít, hvörn laungum undrast mannlegt vit, sem orkar mikiu minna?

3. Ef Guð skrýðir svo eitt gras-strá, er fáir virða' og nyta, það í dag blómgast

engi á, á morgun færdu' ei líta; hvørt mun hann sídur sinni mind, sjá fyrir og ei þér, mannkind! naudstaddri bjørg útbýta?

4. Svo viss sem minni øndu er, eilífur sæluſtadur, og minn líkami einninn hér, uppríſi forkláradur, eins víst framfæri eg skal þá, af Gudi medan lifi fá; hann er og hér minn Fadir.

5. Svo skal þá hrædslu og efa eg, aldrei láta mig pína; mér um næringar mældann veg, minn Gud vill nád audsýna, þad góda, sem eg girnist fá, géfur, því vill mér hjálpa sá, og velferd efla mína.

6. Oss auma, Drottinn! álít nú, aumka þig, Jesú Fadir! vorn qvída og ángist þeckir þú, þá verdum burtskúfadir, af veroldinni, veit mér þá, vald þitt, forsjón og gædsku sjá, í trú svo gjørumst gladir!

## No. 42.

Lagid: Hvørr sem ad reisir hæga bygd.

Mín gjæfa bygd á Guds nád er, gétur því brugdist eigi, í míns Skapara umsjón mér, af øllum hug því fleygi, hans eru jord og himininn, hann mun sem Gud og Fadir minn, mér hjálpa' á hvørjum degi.

2. Hann sá frá eilífð hvørsu stór, heppni mér duga skyldi, líf mitt, armæða' og lucka fór, líkt sem hann skamta vildi; hvað syrgir þú þá, sál mín kjær! sigur í øllu trúin fær, mér sem Guds sendir mildi.

3. Hann veit þørf mína' og hefir ráð, úr henni líka að bæta, fyrr enn eg beiddi fann eg náð, og fékk hans vísdóms gæta! forsorgar mig så Faðir hér, framvegis hulin Guds á mér, velþóknan verði mæta!

4. Hvørt mun sú stóra heppni manns, hérvistar jøfn á døgum, betri enn mæðu hlutdeild hans, hvørri þó yfir kløgum? andlát Guds barna endar neyð, eptir þessum vegsemdin beið, með allskyns heilla høgum.

5. Hvað oss farsælir heimi í, og helst má gæfu kalla, géfa mun Drottinn gnægð af því, glis heims og sæld gjørvalla, sálunni gæfa engin er, en góð samvitska léttir þér, ok hvørt, sem á vill falla.

6. Hvað er veraldar heiður stór, hennar skammvinnur sonum? hvað er andstreymis ólgu-sjór, opt lægður fyrr enn vonum? fulltreystið Drottni

allir enn, annast guðhrædda vill hann menn, likn veitir ljúfum þjónum.

## No. 43.

Lagið: Mitt hjarta hvar til hriggist þú.

Sál mín! hvað gengur svo að þér? sút og qvíða því vekja ser, ørbirgð er ama kann? minnstu Guð þér ætíð ann, orð hans stunda, reið þig á hann.

2. Mikill hann æ og alvís er, allt hvað hann skóp ljóst vitni ber, um fødur forsjón þá, er mannskepnum likn vill ljá, líta vorar þarfirnar á.

3. Hvørs við andvørpun hann qvað nei? hvørr af þeim góða leiddist ei, sem fadir barn sitt ber? af honum þyggjum ójafnt vér, allir þó hvað gagnlegast er.

4. Ríki, máttur og mildin þín, minn Guð! sem heyrir andvorp mín, er sem og áður, því, hún kynslóð frá kyni ný, krøptug skín øllum heiminum í.

5. Ríkur þó treysti ríkdóm á, í ríki daudra gista má, ríki Guðs kaupa' ei kann. Elska mig, Fadir! fátækann, fadmi gullið hvørr, sem því ann.

6. Því sá þú elskar ædri er, enn gull og eigur metast hér, þín blessan þess er manns, yndi heill og audur hans, einnig von til sælunnar ranns.

7. Fyrir þitt guddóms eilíft orð, er þessa huggun gaf á jörð, þér, Jesú! þöckum ver, ebli það oss ætíð hér, umsjón Guðs að treysta, sem ber.

## No. 44.

Lagið: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

Hvað viltu svo qveina' og klaga, kjör útskipt þér, sála mín! því með sorgum svo þig naga? sjá, þinn Guð vill heillir þín; eg í Guði glaður er, Guð! mín sál fulltreystir þér, öllu' er reyni' eg viltu venda, til vegsamlegs og farsæls enda.

2. Hann mig aldrei yfirgéfur, á hörmúnga vondu tíð; allt því, Faðir! athvarf hefir, önd mín til þín fyrr og síð; hvör ógn sem að höndum ber, hugur skal ei fallast mér. Guðs forsjónar fæ eg skoða, frelsi' og líkn í öllum voða.

3. Hvörja neyð, sem hlýt eg líða, hann vill aldrei gleyma mér, af því mun eg engu qvíða, ef misskiptir luckan sér; stund þá reynslu úti er, aptur líkn hann sendir mér; heims því orkar ecki' að farga, oflsi' og slægð, þá Guð vill bjarga.

4. Ovina her ef að mér drífur, örugg er þó Guð mín borg, umsjá hans mér ætíð hlífir, allri frelsar mig af

sorg, já, þó gjorvøll móti mér, makt og vøldin fylki sér, eckért gégn mér orku nýtur, allt Guds vilja lúta hlýtur.

5. Í Jesú nafni eg læt mér lynda, lán, sem Drottinn skiptir mér, blídt hvørt edur bágt vill senda, til blessunar þad ávallt er, í sorg og gledi sýnir hann, sig ástvininn trúfastann; enginn vard sá enn til smánar, á hans hjálp er stødugt vonar.

6. Vil eg, Gud! á vald þitt géfa, veikann mig og gjørvallt rad; lát mig heldur aldrei efa, ást margreynda þína' og nád; hvad sem Gud minn! þóknast þér, þad er víst allt heilnæmt mér; Forsjón vís, eg vid þad kannast, vill mig fødurlega annast.

## No. 45.

Lagid: Jesús Kristur ad Jórdan kom.

Aldrei, mín sál! ørvæntú hér, þó yfirdynji þrautir, Guds forsjón mild ei gleymir mér, þó gángi' eg þyrnibrautir. Þér greidist vegsemd ætt frá ætt, alheims Verndarinn gódi! alla líkn fyrir, æ ágætt, øll jørdin lof þér bjódi; ansi því himnar hljódi.

---

# 4. Endurlausn vegna Jesú.

## No. 46.

Lagid: J dag eitt blessad barnid er.

Upp! ad samsýngja engla róm: æra sé Gudi á hædum! frelsud jørd, med fagnadar hljóm, færir prís í lofqvædum, hví Jesús líf, sem lét á kross, líf og sáluhjálp færdi oss, heims føllnu ættum øllum; flýi sorg, ótti, flýi þrá, því fékk hans vegna þóknun á, Gud vor þjódum gjørvøllum.

2. Dómarinn vard vor vinur, því, vor ótti' í gledi breytist; ó hvílík heill, nær himni í, honum prís af oss veitist! þú, hvørs fæding oss blessun bar, og blessadur daudi einninn var, hátignar himins vída, ásamt Fødurnum átt nú rád, æ minnstu vor í líkn og nád, Jesú! Lausnarinn lýda!

## No. 47.

Lagid: Kom Skapari heilagi andi.

Gud leit allt hvad hann gjørdi, sjá!
gott hann þad allt og veglegt fann,
Guds þad dásemdum greindi frá,
gædsku, makt, speki ísa vann.

2. Almættis gaf hann orði með, öllu sköpuðu fjör og líf, styrk, fögnuð', nægtum fylla réð, forsjón vís, máttug, góð, eilíf.

3. Um alla himna hvellur kór, hátt þá englanna lofgjörð qvað: vald Drottins mildi' og vitska' er stór, verkið sköpunar birtir það.

4. Á manninum hér mátti sjá, mest af öllu Guðs dásemd þó, hans egin mind var sjálfur sá, í sál' heilagri vitska bjó!

5. En þessi skepna', er allt fékk gott, í reynslu veik þó falla vann; synd, eymd og dauða sjáum vott, sorglegann um breiskleika þann.

6. Lof sé þér, Guð! sem líknsemd í, leitst til veraldar ofan þá, með Jesú blaut hún heill á ný, hann þegar birtist jörðu á.

7. Hann, ljós veraldar, heill og ráð, híngað kom Guðs að boða frið, leið svo þolgóður hrigð og háð, hlýðinn til dauða Föðurinn við.

8. Nú sýngur engla helgur her, hátt lof, vor Guð er stór og vís! já, allir frelstir játum vér: Jesú! um eilífð sé þér prís!

## No. 48.

Lagid: J dag eitt blessad barnid er.

Jnafni Jesú athøfn má, øll vor stofnast á jördu; gagn og heidur ef ebla á, ei tjóni' ad valda hordu. Allt, sem þanninn uppbyrjad er, allt til góds horfa reynum ver, og heilla takmark hljóta: Gud einn ad prísi verk øll vor, velferdar til hvørt gaungum spor, á øndu og lífi ad njóta.

2. J nafni Jesú, eins og baud, oss Jesús, vér ákøllum, vonhraustir Drottins nafn í naud, nád prísum Guds á øllum. Hvad hann skipadi strax svo stód, sterkur, vís, mildur vor er Gud, honum jørd, himnar hlýda. Allt vel því heppnast mønnum má, miskunsemd hans, sem treysta á, og fødur forsjón blída.

3. J nafni Jesú øndumst vér, í nafni hans hér þreyjum, hans ord í lífi ljós vort er, lind huggunar þá deyjum. Af grøf oss vekja vill med raust, voldugri, þar á setjum traust, hjá sér til lífs innleida. Med engla røddu þér skal þá, þinn, Jesú! lýdur himnum á, lof endurleystur greida.

## No. 49.

Lagid: Þann heilaga kross vor Herra bar.

Einum Gudi sé æra' og dýrd, er sinn Son sendi híngad á jørd; hann stýri' og stjórni' oss øllum saman, svo vér hann óttumst og elskum, Amen!

## No. 50.

Lagid: A þig alleina Jesu Krist.

A þig, ó Herra Jesú Krist'! eg set von mína' í heimi; þú elskar mig, þad á eg víst, ord þín veit mér eg geymi. Af himni til vor ofan stést, og kéundir, leidst, huggadir best, blíd trygd þín eymda bætti kíf, blessadri hlíf, þinni því fel eg ønd og líf.

2. Mín synd er þúng, eg af því finn, ángist og hugar pínu, voladra þú ert vinurinn, veit svølun hjarta mínu! mín sála traust þig setur á, mig synda leystir bøli frá, en heimsins slægdum varar vid, mér veitir lid, í freistni' og géfur andar-frid.

3. Ebl mig, Lausnari! ætíd þér, til æru lífid vanda, ástverk þad muna' og mikla hér, ad mig leistir þér til handa; fúslega, Jesú! feta þinn, feril, náúngann elska minn, uns skipun fæ eg skil-

jast vid, skamtad lífs mid, eilífa sælu erfi' og frid.

4. Heidrum því Gud á himna-trón, hærstann Fødur alls góda, og Jesúm Krist hans sæla Son, sem leiddi oss úr voda; helgann Anda, sem huggar ønd, hvørd villumyrkra leysir bønd, en trúar gladt upptendrar ljós, til þess ad oss, audnast á himnum ædra hnoss.

## No. 51.

Lagid: Margt er manna bolid.

Oss géf, Jesú! øllum, ad frá þér ei føllum, frid svo fáum vér; þú gafst frelsid þýda, heim frá dróma stríða, synd í setti oss hér. Holdsins makt, heimsins prakt, ei skal blinda, oss í syndum, allir þér tilheyrum.

## No. 52.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín!

Allt á, sá Jesúm ástvin á, audveldlega kann skilja sá, vid heim og heimsins gædi; hvørr Jesúm ástvin á, þess géd, ánægt síns Guds rádstøfun med, hugg-un fann, hrigd þó mædi.

2. Hvørr Jesúm ástvin á, sá kann, óhult lifa, ei hrædist hann, fors heims né flærdar snørur; ef syndin skelfir sálu

mín, og synda straff, mig, Jesú! þín, vernd trúføst ver óførum.

3. Þegar eg hefi þig ad eins, þá er eg bættur sérhvørs meins, í neyd, og deyd ei efast, øruggur stend í allri neyd, og geng fagnandi móti deyd; allt bøl þú einn fær sefad.

## No. 53.

Lagid: Gædsturikasti grædari minn.

O Gud! þá heimar hrapa' í grunn, hefur upp qvøl og dóms ógnun, frek óbygd fer veinandi. Hug-gladur eg vid heima fall, þig, Herra Jesú! skoda skal, Lausnara minn lifandi. Æ hér, unn mér, þér ad hlýda, þá ei qvída, þarf vid dómi, fagnandi sýng eg: sæll hann komi!

## No. 54.

Lagid: Nú kom heidinna hjálpar ráð.

Jeg gledst af því eg Jesúm á, hvad jafnast má vid gledi þá? hún í raunum hugsvalar hér, hagsæld velgengnis eykur mér.

2. Jeg gledst af því eg Jesúm á, eg veit hann píndist krossi á, mín vegna hans ef held eg bod, hlíf er Gud mín og ørugg stod.

3. Jeg gledst af því eg Jesúm á, jeg stendst því heimsins svikráð flá, fors heims ei unnið fær mér svig, fullhuga gjörir Jesús mig.

4. Jeg gledst af því eg Jesúm á, jeg vil sál' mína hvetja þá, að þreyta fús hinn þraunga stig, því hann ei yfirgéfur mig.

5. Jeg gledst af því eg Jesúm á, jafnvel ei dauðann skélfist sjá, hann því viðbúinn hittir mig; heimför mín verður friðsamlig.

6. Jeg gledst af því eg Jesúm á, jeg mun til hans í hæðir ná, þar hann er, vera honum með, í himna sælu fá hann sjeð.

7. Já, eg gledst í þér, Jesú minn! jeg vil trúr geyma lærdóm þinn; mín gleði, lífgjöf góð ertú; gøfgan mín hljómi um eilífð sú!

No 55.

Lagið: Koning Davíð, sem kénndi.

Son Guðs ertú með sanni, sonur Guðs Jesú minn! Son Guðs syndugum manni, sonar arf skenktir þinn, Son Guðs einn eingétinn. Syni Guðs syngi glaður, sérhvørr lifandi maður, heiður í hvørt eitt sinn!

# 5. Jesú Fæding.

## No. 56.

Lagid: J dag eitt blessad barnid er.

Med gledi-raust og helgum hljóm, þig, Herra Jesú Kristi! heidri fagnandi og hvellum róm, hópur þinn endurleysti! úr himna dýrd þú ofan stést, á jørd til vor, því súnginn best, sé þínu nafni sóminn! þad von og føgnud gódann gaf, gjørvallt mannkynid syndum af, ad frelsa ertú kominn.

2. Sannleikssins Gud þig sendi oss; í svørtum mirkra ranni, vitskunnar gladt geislandi ljós, þú gjørdir follnum manni, blídur kénna, ad þeckja þann, þig er oss sendi Frelsarann, heiminn vid hann forlíka; dygd heiløg kénníng heimtar þín, heidur því sýngi túngan mín, þér fyrir nád þvílíka.

3. Einskjærust dygd var allt þitt líf, en þínu, Jesú! gédi, oss ad bjarga og eymda kíf, ad aumka sønn var gledi; óhuggadann þú engann létst, øllum því líkna vanstú best, fótsporum fylgdu þínum, sorga léttir og nádar nægd,

nú skjótt vantrúin hvarf, en hægd, veittir þú veikra þínum.

4. Þíns Fødurs vilja framqvæmd med, fullnustu gjørdir hlýdinn; bót og frelsi er fyrir skéd, fráhorfna Adams lýdinn; syndanna þúngu sektum frá, eg sídan qvittun vænta má, ad sigradir daþrann dauda; þátignar því á himnum er, hnoss eilíft geymt og búid mér, frelstum af fári nauda.

5. Med gledi-raust og helgum hljóm, þig, Herra Jesú Kristi! heidri fagnandi' og hvellum róm, hópur þinn endurleysti! í himna dýrd upp aptur stést, af jørd, en oss þín nádin best, yfirgéfur aldreji; honum, sem vald og heidur ber, Hallelúja! lofsýngjum vér! øll kné sig audmjúk hnegi!

## No. 57.

Med sínu lagi.

Mildi Jesú! sem manndóm tókst, í María Jómfrúr qvidi, þar med heill og hjálprædi jókst, hvørjum sem á þig trydi; þú sást vora' eymd og andartjón, øllum var búin skømm og smán, ángistar qvøl og qvídi.

2. Yfir oss virdtist aumka þig, ei kunnir það umlíða, að villu gengjum áfram stig, ei vildum Gudi hlýða; af himnum komst í heim til vor, hófst oss því lausn og fridur stór, fyrir þinn dýrstann dauða.

3. Og þú hefir oss øllum sagt, á þig skyldum vér treysta; offur þitt, hlýdni, ást og makt, af syndum hefir oss leysta, eflaust því setjum á þig trú, allt það, gott sem oss lofadir þú, aldrei kann oss að bresta.

4. Vor bródir kjær þú ordinn ert, ætíð vilt hjá oss byggja, vernd og adstod oss veitir bert, vér viljum hjálp þína þyggja. Það er oss gagn og gledi stór, Guds Son ordinn er bródir vor; hvad má oss sídan hriggja.

5. Heidrum og lofum Herrann vorn, hann einn oss endurleysti; vér erum med þér blessud børn, bródir vor Jesú Kristi! gledji oss jafnan gáfa sú, Gudi þóckum yans ást og trú, líknsamann sig auglýsti.

## No. 56.

Lagid: J dag eitt blessad barnid er.

Frá synd og deyd svo frelstumst vér, fagnadar syngjum hljómi: Frelsarinn í heim fæddur er, þann føgnud verøld

rómi! jörd syndug himins fékk nú frid, fullsæla eilífd gledst því vid, Jesús þá von oss veitir; vort líf nú reiknast reynslustand, rétta himininn födurland; upp þángad allir leiti!

## No. 59.

Lagid: Rís upp, mín sál! ad nýu nú.

Upp! upp! á Herrans hátíd nú, og hátídlega þig tilbú, ást Guds auðmjúkur lýsa! kjærleika med, kann þacklátt géd, kjærleikans Gud ad prísa.

2. Segdú med blíúgu sinni fyrst: svo elskadi mannkynid víst, Gud vor, ad Son útsendi. O! gædsku hnoss! Gud elskar oss, geymir med födur hendi.

3. Vor elskulegi vinur sá, vort hold og mind sig tók uppá, stoddum í stórum voda, Guds vitsku, rád, gædsku og nád, gaf oss þar med ad skoda.

4. Hann er þín heill! tak hlutdeild þú, hennar med sannri bæn og trú, í hans nafni' á hvörjum degi, ei dýrkar hann, sá hrópa vann: Herra! en betrast eigi.

5. Eg vil þacklátur ydka mig, ad sýna rétta trú á þig, hughreysta, hjálpa, sedja, hjörtu gudhrædd, af ángri mædd, í þínu nafni gledja.

6. Ráð! kraptur! hetja! allt af þér, er það himin og jørdin ber, það allt þér þackir segi, øll kristin þjóð, þig prísi glød; þér øll kné þacklát hnegi!

7. Vegsamið Guð! hann hjálpar fús; huggun náðþyrstum er Jesús, allir hans endurleystir, hátt prísið hann, vorn hjálpar-mann, hans miskun gladir treystið!

## No. 60.

Lagið: Guðs Son kallar: komið til mín!

Upp! gledjist allir, gledjist nú! gledi uppfylli brjóst vor sú, Guðs ást vorn føgnuð glædi! því Jesús, heill vor, hann er nær, hans ást á oss hún er frábær, hann voru holdi klædist.

2. Burt sorg! ei meir vor hjørtu hrell, himnesk kjæti þau upp nú fyll, að Jesú fagnað fáum, með auðmýkt, bæn, þøck, ást og trú, eilíf huggunin vor er sú, sem af hans náð vér náum.

3. Þinn friður, Guð! sem ædri er, enn allt hvað þeckjum, skynjum vér, vor hjørtu' og hugskot geymi, í Jesú þeck-íng', uns hjá þér, eilífrar gledi høldum vér, hátíð í betra heimi!

## No. 61.

Lagid: Jesú! þínar opnu undir.

(sjá No. 40. bls. 50.)

Dýrd sé Gudi' í hærstum hædum! himin syngur føgrum hljóm, mannkyn hrært í innstu ædum, undir tak med lofsaungs róm! allt Guds speki, miskun, mátt, mikli, gøfgi, prísi hátt! dýrd sé Gudi' í hærstum hædum! hrósi jørd hans ástar gædum.

2. Ef þú ecki undrast, madur! og ástar Drottins vermist il, né audmjúkur gjørist gladur, Guds svo elsku finnur til, hvorsu máttu' hans mildi þá, maklegt þackar offur tjá, og med engla lofsaung lýsa, líkn vors Drottins, þacka, prísa?

3. Dýrd, allsherjar Drottinn! þína, í dupti flatur eg tilbid; ást þína og eymdir mínar, audmjúkur eg kannast vid; hvad var eg? þú miskun mér, minn Gud! gafst, fráhorfnum þér, eigi Syni þyrmdir þínum, ad þrífir mig frá andar pínum.

4. Allt mitt dagfar yfirlýsi, ad eg sé þeim hrærdur af, undrum nádar, allt þá prísi, ást, er Son þinn heimi gaf, sú í hlýdni helgi mig, hans svo feti' eg

dygda stig! lof, tilbeidsla' og þøckin þýda, þessi sé mín hér og sidar!

5. Dýrd sé Gudi' í hærstum hædum, hvørr sinn Son gaf føllnum mér? mannkyn hrært í innstu ædum, aldrei gleym því veitti' hann þér! almátt, speki' og elsku þá, allt mitt líf vídfrægja má, uns eg Gudi' á himna hædum, hef upp lof med engla qvædum.

## No. 62.

Lagid: Ofan af himnum hér kom eg.

Allir samsýngi engla-hird, í uppbædum sé Gudi dýrd, sem nú lét jordu fallna fá, frid, hefir mønnum þóknun á.

## No. 63.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Gledji sig gjørvøll jørd, í Gudi sínum! fagna, Guds fridkeypt hjørd, Frelsara þínum! hvørs fæding þér, full nád himneskri bodast; þygg, tilbid, þacka í trú, þessa Guds ástgjøf nú, skyldu þín skoda.

2. Sem fánginn frelsi gledst, þann fjøtur reira, leystur til lífs þá qvedst, lausn fær ad heyra; eins fagna þú, frelsi og lífgjøf dýrri! Gud synd upp-

géfur þér, Guð þig umvefur hér, náð
joðurs nýrri.

3. Sá fæddist, fús sem leið, for-
smán, bønd, pínu, fráſnúið fólk með
deyð, frelsaði sínum, honum lofgjørð,
hans kristni vanda ætti; hann færði'
oss frið við Guð, frið við vor hjørtu
með, því brot vor bætti.

4. Sýng, leik með hjarta' og hug,
hans prís og fagna, um hans stór,
alvoldug, ástverk ei þagna, þín hegð-
an øll, hans þjón þig æ auglýsi; síst
heimur, hold og blóð, þér haldi' á
glæpa slóð, helg hlýdni' hann prísi.

5. Hvørt gagn þræl þrjótskum telst,
að þyggja frelsi, óðæll ef aptur selst,
ánauðar helsi? hvað notar þér, náð
fyrir Krist að þyggur, ef faungnum
enn nú blind, yfir þér drottnar synd,
og í løstum liggur.

6. Fulltreyst hans friðargjørð, en
fjøtrum lasta, fyrir hans eiðdur orð,
øllum burtkasta, sá ok hans ber, ok
sinna synda brýtur, harmar og hatar
brot, helgaður eilíf not, hans frelsis
hlýtur.

## No. 64.

Lagid: Hvørr sem ljúfann Gud lætur ráda,
og: Hvørr veit hvad fjærri' er æfi endi.
(Eptir þessum nótum.)



Kristnir menn! umfram all=ar tídir, er
Hverf=i áng=ist=ar qvein og qvídi! hvørr



þess=i tíd oss gledi=lig.
Kristum elskar gledji sig. Hann best sem mann=



a bætti ráð, bor=inn er nú af fødurs náð.

2. Vort hjálpráð Guds Son vera fýsti, til vor ofan af himnum sté, med hegdun oss og lærdóm lýsti, leid píslar=vættis dauda' á tré; hann uppreis og til himna sté, himna vegur svo greiddur sé.

3. Frelsari'! ástverkum frægstu þín=um, med fegins rómi lýsum vér; en veit oss styrk, svo alúd sýnum, í dygd og trú til heidurs þér; í útvaldra flocki' um ei=lífd þá, ædst lof þér sýngjum himnum á.

## No 65.

Lagid: Frelsarinn er oss fæddur nú.

Follum nú til fóta Krists, sem fæddist oss til lausnar víst; féck oss á himnum frid og víst; syngi hans hjörd, honum lof og dýrd, og þackargjörd!

## No. 66.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi.

Iheim til vor Frelsarinn fæddist! fagni hans endurleysta hjörd! straff hins alvalda', er hold allt hræddist, horfid er, fridi lýst á jörd; Guds Sonar frelsi gledjumst í, Gud er vor Fadir uppá ný.

2. Oss, sem ad réttinn barna brutum, brast adgáng ad hans ást og nád; en sekta gjöldin óttast hlutum, eilíf, því bod Guds höfdum smád; oss nú Frelsarinn fæddur er, frid, lausn og sælu hrepptum vér.

3. Upp! upp! mín sál! þygg ástgjöf þessa, audmjúk, fagnandi tilbid hann; Ordid vard hold, ad bjarga' og blessa, barn sitt lét Gud oss fædast mann; vikna mitt hjarta vid þá nád, voldugur Gud þér hefir tjád.

4. Frá allri synd, hann fólk sitt hefir, frelsad og keypt til eignar sér; hann lýst

og krapt til góðs því gefur, gjæt vel! finnur þú slíkt hja þér? blómga með dygðum breytni þín, blessað hans dæmi af þeim skín!

5. Af því fagna að er nú fæddur, Endurlausnarinn syndarans; þó veikur sért, samt vert' óhræddur, vel mun þig styrkja kraptur hans! Guðs Sonar frelsi gleð þig í, Guð er þinn Faðir uppá ný.

## No. 67.

Lagið: Guð miskuni nú öllum oss.

Í trú undrandi' eg tilbið þá, trúfesti' og speki þína, er fær, ó Guð! mín sál að sjá, Sonar þíns holdgun skína; þín loforð hafa eiðs krapt öll, engin hindran þau tefur, ó! hvað þín speki furðufull, og forsjón allt umvefur, takmarkað hvað eitt hefir!

2. Jeg má viknaður játa það: jeg hef reynt forsjá þína, Guð! þitt auga mér gjætti að, um gjörvalla æfi mína. Hvörr leiddi mig í lífið inn? lét viss kjör opin standa, hvar ótal gæða gnótt eg finn? hvörr greiddi mér til handa, veg gégnum margann vanda?

3. Faðir! trúfesti' og forsjá þín, framar eg við það kannast; fyrr' enn eg til

var minntist mín, mig hefir síðan annast; mér valdi bæði stund og stað, og stand, er hentast væri; mín gleði sé ígrunda það, Guð! svo þér þackir færi, af allri önd, sem bæri.

4. Þín trygð og speki' er skjært mér skín, þá skoða' eg kjör þíns Sonar, sé einka hlífð og aðstoð mín, atkéri minnar vonar; þín forsjón vís, er héldt sín heit, hann gaf til frelsis manna, mér til hjálpráðs æ međöl veit, mína nauðsyn vill annast, bjerg þá af veröld bannast.

## No. 68.

Lagið: J dag eitt blessað barnið er.

O vor Herra Jesú Krist! oss í manndóm borinn, þú hefir allann lýð þinn leyst, til líssins áður kjörinn; opna vor hjörtu, að vér nú, orð þín geymum með réttri trú, hvar með hér á jörðu, endurfæddir eignumst vér, arf himna með sjálfum þér, og blessuð börn þín verðum.

# 6. Jesú Pína og Daudi.

## No. 69.

Lagid: Adams barn! synd þín svo var stór.

Neyn hjarta mitt, ransaka mig, réttláti Gud! eg kém fyrir þig, sjá hvørt eg heils er hugar! nær hugsa' um Jesú hjartans qvøl, heita elsku og písla bøl, sút kløckva sálu bugar; hans þjáníng øll mín heilsa er; hvílíka nádar dásemd hér, virdtist þú verøld sýna! hvenær hef eg nóg hugleidt þad? hvenær best, sem gat vegsamad, af allri sál' elsku þína!

2. Fridar=høfdíngi, hetja, rád, hins Hæsta kraptur af Guds nád, hér klæddist holdi' og blódi; fórn synda, Jesú! verda vannst, værd á saklausri sál' ei fannst, af qvala feikna flódi; þinn vinur svikrád veita fer, vopnadann skara senn ad ber, hørmúnga hefst upp tími, qvalanna ofbod þreyngdi' ad þér, þú hrópar: „Gud! ef mögulegt er, bikar sá burtu rými."

3. Líkt dropum blóds af dundi þinn, dýr sveiti, Jesú! máttfarinn, til jardar þér flotum fleygir; þú Son hins

Hærsta bljúgur berst, bæn þinni við, þá qvøl þú skérst, opt gjørdri þinn Gud þegir, jafnvel í stríði styrktann þig, stórkostleg qvøl og skélfilig, ógn þó og éngist mædir; sekt manna hlóðst þig sjálfur á, í syndugra hendur gafst þig þá, gédhraustu med þolgædi.

4. Þú, Guds réttláti, og sanni Son! sjálfur barst íllvirkjanna laun, saklaus og sannheilagur; svo var því fyrri fyrir spád, framkom nú Drottins hjálpar rád, vor fridar og frelsis dagur! íllþýdid þyrsti í þitt blód, offann þín hógværd af sér stód, svo frelsast sálir kynnu; jeg þinn leysíngja játa mig, Jesú! því allra synd á þig, hlód Gud, svo frid vér finnum.

5. Ad þræls mind þú audvirdist hér, en ædstu dygda skart þó ber, ætíd þitt ástar-hjarta, þolir svo hatur, hád og smán, hørmúngum, eymdum fullur, rán, matst ecki mind Guds bjarta; þig, sem Gud hét oss, sáum vér, en samt eckért oss þeckt á þér, ei mind né fegurd fríða, fyrir þér, eilíft athvarf mitt! andlit þeir jafnvel byrgja sitt; sáttmáls børn sjálf þig níða.

6. Offur varst, sem Guds eilíft rád, ályktad hafdi, en af nád, vildir þú

vægd oſs ſýna; fyrir misgjørdir fólks-
ins þíns, fyrir ſekt brotlegs manna
kyns, þín var þjáníng og pína; ákjærd-
ur ſaklaus engu hér, anſar, en ſjálfur
kroſs þinn ber, ſem lamb er bana bíd-
ur; fús eins og hugprúd hetja bar, hels
neyd, ſem oſs makleguſt var; áſt hans
fyrir auma lídur.

7. „Eg mátti telja mín øll bein,
„mínar hendur þeir hafa' med flein, og
„fætur gégnum grafid; feitir um-
„kríngdu uxar mig; ómildra hópur
„gladdi ſig, ſína vild ſjed ad hafi; eg
„hrópa, en mín hjálp er fjær; þeir
„hæda mig: ſé hann Gudi kjær, hann
„klagi, hjálp mun kanna! madkur eg,
„ecki madur, er nú, mig í daudans
„dupt leggur þú, ſpott lýdſins, ſpé
„mannanna.

8. „Bråd qvalarans eg ordinn er,
„eg hrópa, þú ei ſvarar mér, mig yfir-
„géfa allir, þjakadann, ſár þá þorſtinn
„ſkar, þeirra veitt ſvølun eintóm var,
„beiſkt edik blandad galli, ſem var mitt
„hjarta' er ſundur ſmelt, ſvo ſem vatni
„er mér úthellt, mín ángiſt er þeim
„gledi; því yfirgafſtu þjóninn þinn,
„þrautmæddann, ó Gud minn! Gud
„minn! af andar þúngu' erfidi?

9. Þú hnegir nidur höfdi þín, hrópar fullkomna, borgun mín! þú deyr, jörd döpur titrar; erjidi hefi' eg aukid þér, ó! Drottinn! hrædda sál' þad skér, um písl þína' eg þenki bitra; hvad er eg, frelsi' ad sékjtú mér? æ fengi' eg allur þackad þér, sjá, Drottinn! vægd mér sekum! ájýsa skal þín ástin mig, ad unna þér, svo aldrei þig, særi med syndum frekum.

10. Örvænting sælu' um eilifd má, alla sárlega hrella þá, er forsmá forþénun þína; þeim ecki stunda' í ást og trú, ástgjöf þvílíka' ad vyrda nú, til þýngra dóms þín er pína, synda þjónum er sífeldt þig, med syndum smána', en játa sig, forþénun þinni treysta, hvörr ord þín smáir elskar síst, hvörr ei þig elskar dæmist víst, qvöl þín hann kann ei hreysta.

11. Þú hefir heitid hjástod mér, ad hlýdnast æ og fylgja þér, ótta Guds eg svo læri! þín heilög písl mig huggar ein, hvenær sem synda banvænt mein, samvitsku hrædda særir; gjör mig brennandi í bæn og trú, bind mig í elsku vid þig nú, þitt dæmi géf eg geymi. Veri þín qvöl mín vörn í neyd, velgengnis styrkur, hlífd í deyd, og huggun effta' í heimi.

## No. 70.

Lagid : Sæti Jesú! sjá oss hér.

(Eptir þessum nótum).



Daudans þúngu kraminn qvøl, á krossi
Frelsi - arinn svo brædra bøl, bætti



hángir Jesús blíd - ur. / þjakast písla hríd - um. Eilíf gædskan



út hann géfur, ansa qveinstaf Sonar tekur.

2. Æ! hans hjarta sáru sorg! sér-hvørs vinar huggun sneyddur, leid hann fyrir allra ørg, afbrot,, smádur vard og deyddur. Harma skál hann hlaut af-drecka, hann svo fengi' oss Gudi hecka.

3. Hvørr fær qvøl íhugad þá, svo hjarta vikna þess ei mætti, og þó lída sekann sjá, synda þúngu refsíng ætti; en, hár lídur heilagleiki; hjartad kløckni, raustin veikist!

4. Hann leid fyrir heimsins synd, hádúng, undir, bønd, qvalrædi. Hann, sann-nefndur lífsins lind, létst á tré vid daudans mædi. Fús hann dó og fól sinn anda, Fødurs, hlýdinn, geymslu handa.

5. Gódi Jesú! géf ad mér, gleymist síst sú elskan megna, er saklausum þrýsti þér, þetta' ad líða minna vegna! minníng krossins qvalar þinnar, kostnad votti lausnar minnar!

6. Géf eg mína gráti synd, géf eg medur varúd fagni, fridi' og sæld; þín sorgarmind, sí-áminni best hvad gagni! eg vard keyptur; æru' og sóma, allt skal mannkyn Jesú róma!

7. Virdstu' af nád mér lidsemd ljá, ad líkjast þér og fylgja hradur, þér, sem létst mig lífi ná, lifa trúr og deya gladur! þátt þig prísa' um heiminn vídann, heidra nær eg dey og sídan!

8. Það, Frelsari! vonar víst, vonar æ þinn endurleysti. Þú óvirdir veika síst, von, sem styrkja þér eg treysti; þegar fjør í dauda dvínar, Drottinn! medtak sálu mína!

## No. 71.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Hjálpa mér, Jesú! Herra minn! ad hugsa' um pínu' og dauda þinn; hjálp mér íhuga elsku þá, er lét þig deya krossi á; hjálp mér ad þeckja og þacka þér, þá miskun sem þú veittir mér.

2. Máttug guddóms ímind þó sért, madur á jørd oss líkur ert, hlýdinn allt framm í ytstu neyd, já! allt ad krossins bitrum deyd, sleginn og píndur í vorn stad, alls heims þá barstu misverknad.

3. O! hvørsu verk þad háleitt er, heilagt og blessad fyrir mér; þá eg vil meta þetta' eg finn, þar vid ørmagnast huga minn, titrandi hjartad sekktir sjá, syndanna' og ángist finna má.

4. Gud af réttlæti ríkur er, ránga því straffar breytni hér, fullt af kjærleika Guds er géd, gjarnan líkn sendir hegning med; á Jesú krossi eg þess ma, med ótta og furdu vottinn sjá.

5. O Herra Jesú! Jesú minn! jeg reidi mig á dauda þinn, og er framkropinn fyrir þér, Frelsari minn! í dupti hér, þín ástin fyllir undrun mig, ønd mín þacklát því prísar þig.

6. Þín gædska yfirgengur manns, gjorvalla þánka' og skilníng hans,

skyldi' eg þessvegna vera nú, valtur og laus í minni trú! eg madur, þarf ei ætla mér, útgrundad fá, hvørr Drottinn er.

7. Guds mikilleiki er mestur sá, mønnunum nád og elsku tjá; audmýktarfullum anda í, egum vér hann ad prísa því, hans nád og mildi mikil er, oss mønnum sem hann veitir hér.

8. O minn Frelsari! anda þinn, andann lát jafnan fræda minn, svo hørmúng þína hér á jørd, heidri' eg í trú og þackargjørd, og ad trúlyndur ydki eg, ástsemd og stundi dygda veg.

## No. 72.

Med sínu lagi.

Jesús, sem ad oss frelsadi, einn var hann saklaus fundinn; um midnátt sem einn illvirki, er fánginn og svo bundinn, og færdur ógudlegum lýd, sem á hann lýgi bera, hæda og smána hrákum med, hvad gudspjøllin kunngjøra.

2. A føstudagsins fyrstu stund, þó findist søkin engin, í Pílatí hins heidna hønd, hafdur var sem mordíngi, frómann Kristum og fridhelgann, fann og svo vidurkénndi, því frá sér í haldi hann, Heródi Kóngi sendi.

3. Um þridju stund ad strýktur var, og stód, sem lamb beid dauda, þyrni kórónu þúnga bar, þar med purpurann rauda, reyrlegg í hønd til hádúngar, høgg og spott vard ad reyna; til krossfestíngar sjálfum sér, sinn kross hann bar alleina.

4. Nær sjøttu stund ad negldur var, nakinn á krossinn Kristur, og blód í sínu' úthellti þar, upp med krossinum reistur; vidstaddir margir hæddu hann, hæddi annar uppfesti; um land allt myrkri lysta vann, ljóma bjørt sólin misti.

5. Um níundu hann hrópar hátt: horfinn qvad Gud sér vera; en þeir gallid og edik brádt, upp ad hans munni bera; Jesús þá sína uppgaf ønd, í tvennt fortjøldin hrøckva, hardlega jardar hristust lønd, hellur í sundur støckva.

6. Hinna krossfestu' um qvøld var sagt, qvalarar bein ad brjóti, en sídast var í sídu lagt, sjálfum Kristi med spjóti, blód og vatn þar strax útaf rann, uppfyllta ritníng segir, Jóhannes, því ad þad sá hann, þeim votti trúa megid.

7. En þá dagur á enda var, ágætur, ríkur Herra, Jóseph adkom af krossi þar, Krists lídid hold ad bera, eins og sidur veglegur var, vel þad smurdi til

grafar, vardhalds menn sídan sátu þar, svo sem Matthæus skrifar.

8. Hjálp oss, ó Jesú! Herra kjær, harda qvøl þú sem reyndir, ad hlýdnir þér æ verdum vær, og vørumst allar syndir; dauda þinn og hans sanna søk, svo jafnan vér gaumgæfum, og þig, Drottinn! med ást og þøck, æfinlegana lofum.

No. 73.

Lagid: Oss lát þinn anda styrkja.

Misgjørd þá mig áklagar, mín huggun, Jesú! sert,ørvænting ei mig bagar, athvarf mitt því þú ert, æ! til ad færa frid á jørd, yfir þig døpur dundi, daudans ángistin hørd.

2. Hrærdur í hjarta mínu, hugglaður prísa eg þig, ad þú ángist og pínu, einninn leidst fyrir mig, æ! eg því gleyma aldrei vil, hvad margt þú máttir lída, mønnunum frelsis til.

3. Mín sála helst íhugar, hvad leidst til frelsis mér, af því þá yfirbugar, íll sídur girnd mig hér, og síst heimis flærd mig svíkur þá, eg þín fótsporin feta, ferli lífs þraungum á.

4. Mér gef þol mædu' ad bera, minn kross og alla neyd, og þér trúann æ vera, allt fram ad mínum deyd, en hjart=

ad fridi uppfyll þú, ad eg ánægdur lídi, eins og þú leidst, Jesú!

5. Og sem þú oss til besta, útgafst líkama þinn; hjálp, eg med alúd mesta, elski náúnga minn, og þó vanþackad verdi mér, í kiærleiks ydju réttri, eckért mig letji hér.

6. Svo vid æfinnar enda, eg dey í von og trú; um eilífd eg fæ lenda, í dýrd med þér, Jesú! þig, sem hér leidst, eg þar mun siá, á Guds hástóli' og gialda, þér gøfgun himnum á.

## No. 74.

Lagid: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

O minn Jesú! øll þín pína, alla sefar hrigd og neyd, huggast eg þá hørmúng þína, hugsa um og beiskann deyd; til lausnar allt þvi leidstú mér, lát mig aldrei gleyma þér! þér, sem synda sekt barst mína, saklausann þá létst þig pína.

2. Ef mér flýgur synd í sinni, svikult mín ef freistar hold, þú æ sért mér þá í minni, þar vid krossinn stódst á fold, hæddur, qvalinn, hatadur, huggun vina ørsneyddur, fiøtur synda' eg fæ þá slitid, og sullur viknun til þín litid.

3. Heims ef lyst mig glisleg ginnir, glæpa fram á breidann veg, gjálífis ad glaum eg sinni, gédhraustur, nei! segi

eg; heims lyst Jesúm hengdi' á tréd; hins réttláta qvaldi géd, burt holds lyst úr brjósti mínu, bjó hún Lausnaranum pínu.

4. Ef mér ógnar ótti' og mæda, eg þá, Jesú! med þér líd, mig þau ecki megna hræda, eg minnist á þitt dauda stríd, þitt mér kénndi þolugt géd, þolinmædi ad sigra med; æ eg vil þér eptir feta, efl mig bædi' ad vilja' og géta!

5. Og þó hel á fund minn fari, fullörugggur samt er eg; þú mín vernd og minn Lausnari! máttir gánga sama veg; og þú vegsemd ávannst þér, en fékst stad tilbúid mér, í þíns Födurs fridar ríki, finnst þar eckért böl né sýki.

6. Jesú! sál' áminntú mína, ad minna vegna blód þitt rann, kross þinn daudi qvöl og pína, qvittun synda' og lausn mér vann; þá skal öll mín æfistund, offrud þér, en hels vid blund, þig mitt andvarp effta prísa, upp til dýrdar holdid rísa.

## No. 75.

Lagid: Upphef eg augun mín.

Grát auga! Guds Son dó, sem gjördi þó vel allt, hjálp í neyd heimi bjó, heill útbreiddi ávallt; sannleiks kénn-

grinn klár, á krossi deyddur er, vegur er Herrans hár, hann ecki skiljum vér.

2. Jeg fagna, Jesús dó, jeg veit, sú menn feck grætt, ógn daudans eydd burtfló, Adams má gledjast ætt; lífs morgun-rodinn ljós, leyptrar heims ættum hér, vors Guds úthrópar hrós, hans gædska eilíf er.

3. Vonarfull venda mín, vætt tárum augun sér, í himin upp til þín, ó Gud! hvørs mildin er, eilíf og heidur hár, hvad er lífs söknud ró? hvad er heims freistni' og fár? fyrir mig Jesús dó.

## No. 76.

Med sínu lagi.

Minnstú, ó madur! á minn deyd, minnstú á mína sáru neyd, minnstú þad eg hefi einn fyrir þig, í daudann gefid sjálfann mig.

2. Þad láttú þér nú vera kénnt, ad þetta hafir þú ei forþént; af elsku hef' eg þér allt þad veitt, en ecki fyrir þitt verkid neitt.

3. Því láttú þad uppvekja þig, ad þú komir fram fyrir mig, med ángri og ydrun hjarta þíns, svo ad þú njótir dauda míns.

4. Að sál þín verði' af syndum hrein, og saurugl:gri lasta grein, fyrir þann dreira' í dapri pín, sem dundi útaf sárum mín.

5. En hvörju gégnir heimskan sú, að hugsa fáir um þettað nú? margur er sá maðurinn þar, um mína pínu' ei hirðir par.

6. Hvörninn hann kunni helst að fá, hjálp andar sinnar og leysast frá, hrelling í dauða' og hugar pín, og hegning' fyrir syndir sín.

7. En fagna' og gleðst mín fátæk hjörð, fyrir minn dauða hólpin gjörð, sem hefir allt þitt traust á mér, að vísu vil eg hjálpa þér.

8. Í mínum dauða er þitt líf, þín hjálp, þitt traust, þín einka hlíf, mín elska sé upphvatning þér, í dygð og trú að líkjast mér.

9. Lof og heiður sé, Lausnarinn! þér, líka fyrir þá, sem veittir mér, fyrir þinn dauða og dreira foss, ó Drottinn! hjálpa öllum oss.

## No. 77.

Lagið : Faðir vor, sem á himnum ert.

Í þínum dauða, ó Jesú! er mín lífgjöf og huggun trú; dásemdar kraptur dauða þíns, dreifist nú inn til hjarta

míns, uppá það synd og íllskan hver,
útaf deyi í brjósti mér.



## 7. Jesú Orð á Krossinum.

No. 78.

Lagið, Greinir Jesús um græna tréð.

Að Jesú krossi kom og bíð, kristin sál'!
og því góðfús hlýð, sem Frelsari þinn
sagði þar, seinast veröld' til huggunar.

2. Hann fyrst óvinum friðar bað:
Faðir! — segir hann — tilgéf það,
villtir á synda vegi hér, vita þeir
ei hvað gjöra mér.

3. Fyrir mér bið, Frelsari minn! ef
fer eg villt um lærdóm þinn, og aðvar=
anir ecki fá, aptrað mér lasta vegum frá.

4. Harmþrúnginni, sem móðir mót,
mændir augum, við krossins fót, og
þinn Jóhannes henni þar, hjálpar=
mann, vin, son, ávísar.

5. Þegar mig undir þinn kross ber,
og þrýtur vina stoðin mér, sorg, óvild,
neyð, mig hata og hrjá, hjálp, Jesú!
send mér aðstoð þá.

6. Strax er ræninginn sínar sá, syndir ydrandi' og vildi ná, farsælum dauda frelsi' og hlíf, fullvissu naut um eilíft líf.

7. Huggun af þínum munni mér, minn Jesú! géf, þá deyja fer; unn mér í tíma að mér sjá, og þér í vegsemd lifa hjá.

8. Þig qvaldi' á sál' og holdi hørd, hørmúng, það fjórða vitnar orð: „hvørs „vegna, minn Gud! minn Gud! þú, mig „hefir yfirgéfid nú?"

9. Þitt hróp og ángist, Herra! hér, huggun og von þá géfur mér, að yfirgéf-ast ei eg skal, um daudans þó eg ráfi dal.

10. "Mig þyrstir," þú vannst hrópa, þó, þér einginn svala-dryck tilbjó, lífs kraptar tóku' að tæmast þér, til þín súrt edik rétt því er.

11. Virladann sárri beiskju mér, bik-ar ef daudinn rétta fer, ó Jesú! stødugt géf mér géð, gódri ró hann afsúpa með.

12. Qvalanna mæddann kaleik hér, Kristi! hlýdinn útdrackstú hér, og lýstir hvad ályktad sé, „allt fullkomnad," á krossins tré.

13. O! hjálpráds géfna huggun þá! hédan af synd og daudi má, ecki skélfa mig aumann mann, eilífann sigur mér það vann.

14. Allrasídasta ord þitt nú, er mín lífs von þá sagdir þú; „Fadir! í þína fel „eg hønd, fram hér lídandi mína ønd".
15. Gef mér svo læra lifa hér, loks burt í fridi sofni' eg hér, fullhuga eg í Fødurs hønd, fela svo megi leysta ønd.

## No. 79.

Med sinu lagi.

Jesús Kristur á krossi var, qvaldist allur hans líkami sár, med hinni mestu pínu, sjø ord vor Drottinn sagdi þar; haf þau í hjarta þínu.

2. Fyrsta: sýnir hans sinni' og nád, sinn Fødur krøptuglega bad, um heill óvina sinna: „minn Fadir! fyrirgéf „þeim þad, þeir vita ei hvad þeir vinna."

3. Annad: merkir hans mildu trú, munadarlausri segir nú: „sjá! þar er „son þinn, qvinna! Jóhannes! módir „þín er sú; henni skalt umsjón inna."

4. Þridja: hans mikla miskun er, minnast þess jafnan skyldum vér, ræníngja svo réd svara: „án efa skaltú í „dag med mér, í mínu ríki vera."

5. Fjórda: sýnir hér synda mátt, Son Guds kallar á krossi hátt: „Gud! „hví vilt mig forláta? hardlega qvelst „allt holdid mitt, yfrid mjøg úr máta."

6. Fimta orð hans skalt festa' í hug, Frelsarinn dýrt að keypti þig, því sagði hann: „sig þyrsta," hann girntist heill mannkynsins mjøg; hold hans sárt naglar nísta.

7. Sjøtta orð kristnum sé innrætt, synduga alla fær það kjætt, hvenær í hug það kjæmi: „uppfyllt er allt," og øll synd bætt, með minni qvøl í heimi.

8. Seinasta': „Þér Faðir! fel eg í „hønd, fram nú líðandi mína ønd." Eg bið þig, minn Lausnara, heilags anda mér huggun send, þá hlýt eg af heimi fara.

9. Ljúfi Jesú! þín líffins orð, lát mig øll geyma hér á jørð, í trú og hjarta hreinu, en með þér síðan æru' og dýrð, ødlast í ríki þínu.

## No. 80.

Lagið: Skapari stjarna Herra hreinn!

O Jesú! séu orðin þín, andláts síðasta huggun mín, sál minni verði sælan vís, með sjálfum þér í Paradís!

# 8. Jesú Upprisa.

## No. 81.

Lagid: Gled þig Guds Sonar brúd.

O! hjálprád! uppreis hér, sá allt líf hafdi' í sér; upprís glød, ønd mín! líka, athuga dásemd slíka! ei gátu heljar hørdu, haldid bønd Drottni' í jørdu.

2. Hann uppreis, heyrid þér, hann, sem offóktud hér! hann þér høtudud, leiddud, harmqvæli yfir, deyddud, nú daudans allt ofbeldi, undir hans liggur veldi.

3. Hann uppreis! heyri nú, hvørra veik reynist trú! undir hans krossi eigi, efasemd nein svo beygi; uppreis af ædst-um krapti, ydur lífs von því skapti.

4. Ei hrædist eg nú þinn, ó daudi! brodd, því vinn; nær sem þú kallar, kém eg, hjá Kristi stadar nem eg; eg lít gégn-um grøf svarta, gledi-ljós himins bjarta.

5. Vissu lífs eilífs ljer, Lausnarans sigur mér, megnar ei mig ad fæla, myrk-ur grafar né kjæla; um jørd all-lítid géf eg, í Jesú lífs von hef' eg.

6. Jesús upprisinn er, alfögnuð þetta ljer, frelsis Foríngja halda, fékk ei band dauðans kalda; hann uppreis, upp skal rísa, önd mín og nafn hans prísa!

## No 82.

Lagið: O Faðir himneskr' og eilíft Guð!

Lof sýng eg Drottni, sem lífið gaf mér, lofgjörðin honum og þakklætið ber, Jesús af gröfinni frægur út fer, Frelsari minn veit eg lífs er.

2. Unun, von, huggun, þar öll byggist á, á Drottins hásæti ríkjandi' er sá, sem leysti mannkynið syndunum frá, síðar til hans koma jeg má.

3. Mína úr jörðinni mold reisir hann, mig nýu lífi sem gæða þá kann, meður þeim útvöldu mér sætis ann, minn Jesús þá eg fer héðan.

4. Grafar beð mitt lít eg glaður því á, Guði fel tímann nær leysi hér frá; eg fæ mér himininn opnaðann sjá, og vil sem fyrst heim til Guðs ná.

## No. 83.

Lagið: Túnga mín af hjarta hljóði.

Sá krossfesti Kristur lifir! kristinn engann skal því mann, dauðans falla ótti yfir, enginn gröf hann skéifa

kann, þeim sem lúinn, þreir, uppbúin, þæg er sæng ad hvílist hann.

2. Ertú, Jesú! æ lifandi, eg á deyd því sigur vinn, lífs von mín æ stedug standi, studd vid lífsins máttinn þinn, høfud lifir limum yfir; lífs þeim kraptinn gefur sinn.

3. Hold er eg, mitt hold skamm-vinna, hlýtur verda dupti ad, þegar stundir lífsins linna, til lífs þó Jesus vekur þad, sín tilfærir, sæld mig nærir, sínum upp í dýrdar stad.

4. Hér opt þjáir holds kránkleiki, heilsuna sídar allir fá, í jørd endar jardneskt veiki, jørd andlegur rís eg frá, ókreinkjandi' í ædra standi, edli mitt skal verda þá.

5. Veit hjálp, Jesú! veiki minni, von ad gledjast þessa vid, lífnadinn gef laga kynni, læri' og stundi helgann sid; sofna' eg gladur, sæll vaknadur, senn hjá þinni hægri hlid.

## No. 84.

Lagid: Heidrum vér Gud af hug' og sál'.

O Jesú, Guds eingétinn Son! álít þú vorn lofsaung og bón, hátt vert prísadur, Herra þú, hvørr ed dóst, en þó lifir nú! unn oss um glada eilífd fá, æru,

sæld, dýrd og vegsemd þá, hvørja þú bjóst oss himinum á.

## No. 85.

Lagid: Kom Skapari heilagi andi.

O Jesú! hel þú yfirvannst, ei dauðans bønd þér haldid fá, med sigri oss þú frelsi fannst, frid og líf eilíft Gudi hjá.

2. Herra upprisni! hjálp veit oss, hug svo ei bindum jørdu vid, en fúsir stundum ædra hnoss, eignast í himna sælu frid.

3. Gefdú oss nád ad þóknast þér, þann sem ad skeikar styd þú fót, sjálfur stríd med oss, svo ad vér, sigrandi gaungum dauda mót.

## No. 86.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Fram af dymmum fylsnum nætur, føgur þegar sólin skín, haudrid gledi hljóma lætur, hrædslan myrkra gjørvøll dvín; grøf svo Jesús genginn af, gledi-ljósid bjart oss gaf; vegsemd, prís og eilíf æra, upprisnum sé Jesú kjæra!

2. Þøck sé mikli þér sigrari! þú fángelsid grafar brautst, minnar hverfsur mædu' andvari, mitt skal á þér ørnggt traust; ef eg vona' ad eins á þig, enginn hlutur skélfir mig; af deyd

Jesús uppreis blídur, eilíft lífid mér frambýdur.

3. Víki'eg ei af vegi dygda, volædi þó ami' ad mér, og sjúkdómur abli hrigda, en mótlæti kremja fer, øfund, hatur ef mig hrjá, adstod vina hverfur frá, vininn Jesúm á eg eina, øruggur hans trygd fæ reyna.

4. Engin daudans ógn mig hrekur, eg hann fús og gladur finn; mitt dupt Jesús minn uppvekur, mér líf géfur annad sinn; í grøf skil eg eptir mind, eymdar, vott um neyd og synd, brodd sá daudans brotid hefir, betra líf mér sídan géfur.

5. Hættur engar hér á jørdu, hrædslu skotid inn mér fá, bøndin synda heljar hørdu, hrøckva, sæll eg lifi þá; ó Jesú upprísni minn! eg sje frelsis kraptinn þinn, eg medkénni elsku þína, ad þér taktú sálu mína.

## No. 87.

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

Lífs bodunar dag Gud nú géfur, gledjist kristnir menn Drottni í, af grøf Jesús útgengid hefir, ecki gat daudinn hamlad því, ei skyldi liggja' í henni hann, hann uppreis frægsta sigur vann.

2. Viljugur synda vorra byrdi, vor Jesús bar, dó krossi á, viss lifs upprisa oss ad yrdi, uppreis hann fyrstur dauda frá; ydrandi huggist andi hér, eptir daudann líf fáum vér.

3. O gódi Fadir! géf þinn andi, gjøri sér bústad hjá oss nú, ad hvørr á bygda stigum standi, styrki, von edll' og sanna trú, svo egum víst á himnum hnoss, heilla, sem Jesús ávann oss.

## No. 88.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Jesús lifir, eg einninn med, ei skal daudinn mitt sturla géd; hann lifir, eins mun aptur mig, uppvekja maktin guddómlig, og forklárun skrýda skjærri þá; skal þad sú von eg byggi' uppá.

2. Jesús lifir, jardríkid hér, jeg veit ad honum gefid er; hans líking eg og einninn næ, um eilífd ríkja og lifa fæ; Gud efnir þad hann oss nam tjá; þad er sú von eg byggi' uppá.

3. Jesús lifir, hvørr efast fer, æru Guds stóra nidrun tér, nád sinni lofad hefir hann, hvørjum, er synda ydrast vann; um eilífd skúfar engum frá; þad er sú von eg byggi' uppá.

4. Jesús lifir, til lucku mér, lífid mitt allt því honum ber; eg vil med hreinum hjartans sid, holds lystir mínar strída vid; þeim veiku krapta vill hann ljá; von sú er þad eg byggi' uppá.

5. Jesús lifir, þad víst eg veit, vid hann mig skilur ecki neitt, vellyst, armæda, verøld flá, véla skal mig ei honum frá, hans adstod þar til eg mun fá, er þad sú von eg treysti' uppá.

6. Jesús lifir, því ordinn er, inngángur lífsins daudinn mér; ó hvílíkt traust, þá helid slær, hér af mín sála tekid fær! ørugg í trúnni innir þá: ó! minn Jesú! þig treysti' eg á.

## No. 89.

Lagid: Heimsins Stýrir forsjóu fasta.

Jesús uppreis, ønd mín fagna, ódaudleika vissu þíns; samsyng englum, sýng, ei þagna, sigur-hrós Lausnara þíns; fyrir hans líf eg eflaust á, upp ad rísa' og vænta má, um eilífd gæda' er aldrei þrjóta, ódaudlegur fá ad njóta.

2. Jesús uppreis, gledi gnóttir, Guds Sonar líf færir mér; heljar burtu hverfur ótti, hans med dauda' eg leystur er; sjá Dómarinn sannar þad, sem sagdi: allt er fullkomnad! þessa vissu þar um géfur, þad af dauda risid hefir.

3. Jesús uppreis, vottud vissa, ad var frá Gudi fræði hans, ad heimur skyldi' ei hana missa, hann dó vottur sannleikans, ótal guddóms undrum þann, í lífinu styrkti hann; loks Gud vorn Frædara vekur, vafa allann burt svo tekur.

4. Jesús uppreis, eg má treysta, ord-um hans í lífi' og deyd, þetta skal minn huga hreysta, í hormúng, skorti, sorg og neyd; já, þó breiskur hrasi' eg hér, hann er líf og uppreisn mér, í trú hann hvørr ad sér vefur, eins þó deyi, lífid hefir.

5. Jesús uppreis, erfd ad taka, og øllum nøfnum hærra nafn; huggun sú skal hjá mér vaka, hrelldum sárt vid rauna safn, med honum ef eg ljúfur líd, líka' hans ríkis erfdar bíd; eptir kross Gud krýndi Soninn, krossber-enda er sama vonin.

6. Jesus uppreis, eg vil strída, og trúr hlaupid þreyta mitt, lær þú Drottni, hold mitt! hlýda, hann upp-vekur duptid þitt, ønd og líkham' hreinsa hér, helgudum, Jesús, farsæld þér, holds og andar hefir fundid, hann þá reis af grafar blundi.

7. Jesús uppreis, Jesús lifir, Jesú líf er lífid mitt, sigur hans lífs óvin

yfir, ønd mín! sigur-hrós er þitt; í dauda sál' mín djørf fær sagt: daudi! grøf! hvar er þín makt? undan henni er eg hrifinn; eg veit Frelsari minn lifir.

No 90.

Lagid: Kristur reis upp frá daudum.

Upprisinn er nú Kristur, af øllum qvølum leystur, af því gledjumst nú allir vér, Jesús vor hjálp og huggun er, honum prís ber!

2. Frá daudum nema' hann færi, fánýt vor trúa væri; Drottinn vor Jesús daudann vann, dýrkum og lofum því allir hann; hátt prísum hann!

No. 91.

Med sínu lagi.

Kristur reis upp frá daudum, leysti hann allann heiminn af naudum, því skulum vér allir gladir vera, lofa og dýrka vorn Lausnara, Hallelúja!

---

## 9. Jesú Uppstigníng.

No. 92.

Med sínu lagi.

I dag þá Hátíd høldum vér, til himna sté vor Herra; eilífi Gud! vér þøckum

þér, þig biðjum: virðstú' að vera, vor aumra manna verndin blíð! veraldar qvøl er mørg og stríð, hjálp oss hana að bera. Hallelúja! Hallelúja!

2. Lof sé Guði! vor lausn er gjørð; leið til farsældar búið, hefir oss Jesús, hér frá jørð, til himna síðan snúið. Hvørr, sem trúir, fær føgnuð þann, fyrir það sig tilbúa kann, hold í grøf hvíla lúið. Hallelúja! Hallelúja!

3. Þeir leita ekki Lausnarans, sem liggja' í girndum synda, því lukt er himnaríki hans, holdi og blóði blinda. Trúin á Guð sé sønn og hrein, svo mun lífið í hvørri grein, til hans á himna stunda. Hallelúja! Hallelúja!

4. Guðs børn hér jafnan búa sig, búrtu til himna ferða; holdsins girndum og heimsins síð, heilaglega sér forða; með trú og ást sjá upp í hæð, en Guð ofan með sinni náð, fram til þess fundir verða. Hallelúja! Hallelúja!

5. Við tignar degi þá tøkum fyrst, til sín lætur Guð oss koma, samlíka gjørir sjálfum Krist', í sælu dýrð og ljóma; þá hljótum føgnuð, frið og hlíf, fulla sælu og eilíft líf, Guð gefi oss þann sóma! Hallelúja! Hallelúja!

## No. 93.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Heidri Guds helgi skarinn, Herrann Jesúm, þeim veldid ber. Hann fyrst til himna' er farinn, hjálpin jardar fullkomnud er, vegsemdar ríki rædur, rétt trúud Guds børnin, sem eru' hans samlagsbrædur, sjálfur þar leidir inn; hans ord oss veginn vísa, vor stjórnari hann er, þá miskun þeckja' og prísa, þeim endurleysu ber.

2. Þótt á lífs umferd megum, eymda mørg reyna hretvidrin, samt vér í upphæd egum, inngaungu von í himininn; ofbjóda skal mér ecki, andstreymi nockurt hér, í trúnni því eg þecki, þad Drottins barn eg er; þessa lífs mjøg stutt mæda, metast sem eckért skal, mót unadsemd upphæda, í dýrdarinnar sal.

3. Heidri því Guds herskarinn, heims Frelsara hvørs valdid er! hann er til himins farinn, hann nád gjørvallri jørdu tjer; kné bædi og hjørtu hnegid, fyrir honum, er tilbjó, ydur þá víst, sem egid, í himinsælda ró; ó þann fagnadar fundinn, er Frelsarann náum sjá! sú vildi' eg sælustundin, senn kjæmi, Amen, já!

No. 94.

Lagið: Í dag eitt blessað barnið er.

Allt er fullkomnað! af því vor, á himna' er Drottinn farinn; í gledi-saung tók undir stór, engla gladur her-skarinn; sýng og með þeim, mín sæla önd; sá situr Guðs við hægri hönd, eilífur helgur Herra! öll veröld hann er undirlögð, æra sé Kristi jafnan sögð, og dýrð, er ei má þverra.

(Seinasta versið af No. 56. bls. 65.)

(Með gledi-raust og helgum hljóm).

No. 95.

Lagið: Uppá fjallið Jesús vendi.

Jesús burt frá jörðu vendi, jafnskjótt upp til himna fór, hjá Guðs settist hægri hendi, hafinn yfir Engla kór, oss sinn helga Anda sendi, ofan af hæðum Drottinn stór.

2. Fyrir Drottni fall því niður, frelst af nauðum, Adams kyn! sýng þeim dýrð oss sátta biður, sé það lof ei yfirskin, oss er, bræður! fenginn friður, Föður egum Guð og vin.

No. 96.

Lagið: Af Föðurs hjarta barn er borið.

Eldri menn og yngri lofið, ætíð Guð með hug' og raust! von inngaungu'

í himin hafið, hólpnir, qvittir efalaust, við eymd stærsta, eignist hærsta, dýrð og náð, því Gudi sé, lof, dýrð, heidur ad eilífu!

2. O! ad vér þá elsku þecktum, óverdskuldad Gud oss gaf, hans svo bod og vilja vøktum, vorum syndum látum af, í lífi' og dauda, Drottni hlýda, hann hjálpi oss og honum sé, hærst lof, heidur ad eilífu!



## 10. Jesú Stjórn sinnar Kirkju.

No. 97.

Med sínu lagi.

Ovinnanleg borg er vor Gud, oss hann best verndad getur; hann gaf oss styrk í hvørri naud, hættunum tak-mørk setur; íll girnd, óvinur vor, eblir í gégn oss þor, hennar eru' vél og vold, víst hættuleg, margføld, hún Guds veg gánga letur.

2. Vor eginn máttur veikur er, vor þróttur strax er farinn, einn oss í þrautum adstod tér, af Gudi þar til kjørinn; ef spyr þú hans heiti ad: Herrann Jesús er

það; oss frelsað hefir hann, hvorr má við jafnast þann? sá er jafnan sigrarinn.

3. Illþýðis blinda æði hér, oss þó hann vilji hrella, vér óttumst ei, vor Jesús er, vort traust og hjálpar hella; hann dramb og heimsins makt, hefir að velli lagt; hvorr, sem finnst honum trúr, háskasemd leysist úr, þann má heims flærð ei fella.

4. Vørn, huggun Jesú heilagt orð, heims er gegn villu-snørum, ofbeldi hræðumst ei né morð, allir hugstyrkir svørum: þó missa verðum vér, í verøld hvað kjærast er, auðnu, líf, allt vort hér, ávinníng dauðinn lér, til Guðs í fullsæld førum.

5. Miskunar Faðirinn, mildi Guð! mest sé hér dýrð úm heiminn! svo þú oss dýrsta sýndir náð, Son þinn er til vor kominn, er sínu orði með, oss veitti ró-samt geð, og veg þinn vita lét, víst oss á himnum bét, heill sú haldist oss, Amen!

## No. 98.

Lagið: Heiður sé Guði himnum á.

Eilífur Guð gaf Soninn sinn, svo hann vort frelsi væri; hans nafn er stórt, því heiðurinn, honum aldirnar færi, hylli þann Koníng himin og

jørd, hlýdni sýni og þackargjørd, lífs á þeim hvad helzt sig hrærir.

2. Undir hans stjórn, hvørr óttast kann, alls rikis síns hann gjætir, þó heims øll vøldin herji' á hann, med hreckjum og dramblæti; hans byggíng traust á bjargi er, burt-flúnum því ó-vina her, forsmán þúng og fjørtón mætir.

3. Rádar bodskapur og fridar fregn, færist um jørd gjørvalla; hjørtu mannanna góð og gegn, gædsku hans því á-kalla; finna og reyna fáum vér, Frelsari vor ad Jesús er, prísum hann um eilífd alla!

4. Honum, sem yfir himni er, Herra í dýrd ríkjandi, allt hvad lífs hefir anda' í sér, eilífa lofgjørd vandi; látum hug, mál og líf vort hér, lofa hann, sem svo mikill er, til hans vor trú stødug standi!

## No. 99.

Lagid: Heidrum vér Gud af huga' og sál.

Eilífri lofgjørd offrum vér, ó Drottinn Jesú Kristur! Þér, ástfús til vor komst ofan þú, í vegsemdinni ríkir nú; þinna frelsíngja athvarf er, ætíd stødugt hjá sjálfum þér, hvad helzt mótdrægt ad høndum ber.

2. Undir þitt veldi audmjúklig, øll sképna, Jesú! beygir sig; heims vøldin øll þó hverfi' á braut, Herra! þitt ríki ei enda hlaut; byggt á sannleika eitt það er, óhultir skulum hlýdnast þér, og treysta hvørju fram sem fer.

3. Kunnur er þér veikleiki vor, vor minnstú því, svo eckért spor, heims flærdir oss þér hreki frá; haf oss í miskun gætur á, styrk vora trú, þinn fær oss frid, framleid og géf vid þína hlid, eilífa sælu og andargrid!

## No. 100.

Lagid: Jesús Kristur ad Jórdan kom.

O Drottinn Jesú! útbreid þú, á medal vor þitt ríki, efi, villur og ódygd nú, vid ords þíns birtu víki! vitska, trygd, elska innilig, unun og fridinn næri, uns sjáum ríkja' um eilífd þig; øll verøld lof þér færi, Frelsarinn, Kristur kjæri!

## No. 101.

Lagid: Hvørr sem ad reisir hæga bygd.

Brodd daudans óttast ecki ber, ei sigur grafarinnar; rád Guds af Jesú uppfyllt er, og lífs von trúar minnar. Frelsaranum hvørr fylgja vann, farsældar leid æ gengur hann, ødlast heill andar sinnar.

2. Mikill, ó Jesú minn! ert þú, mikill ríkir á hædum; útbreidist sannleiks ord þitt nú, allt krýnir verk þitt gjædum; þú leidir, styrkir, ladar ad þér, lýd þann, sem dygda skartid ber, og lof þínum færir frædum.

3. Mikill, ó Jesú minn! ert þú, mitt líf þá hníg eg daudur, andlát ei framar óttast nú, eg skil gladur vid haudur; í gégnum daudans dal eg fer, Drottinn! um eilífd sæll hjá þér, lífs gotu' eg geng ótraudur.

4. Hjá þér um aldir, ó Jesú! ønd minni frid þú géfur, himneskrar sælu henni þú, hnoss eilíft búid hefir. Kalla mig heim nær þócknast þér, þann géf vegsemdar skrúda mér, útvalda sem umvefur.

## No. 102.

Lagid: Skaparinn stjarna, Herra hreinn!

Jesú þín kristni kýs þig nú, Kóngur hennar einn heitir þú, stjórn þín henni svo haldi vid, ad himneskum nái dýrdar frid!

# 11. Guds Andi og Orð.

## No. 103.

Lagið: Gjorvoll kristnin skal gledjast nú.

Hvør má í ríki Herrans naud, hjá vorum Fødur granda, svo framt trúr í því, sem hann baud, sál vor og hjørtu standa? svo stór hans fødur-alúð er, orðsins ljós tendrað fyrir oss ber; vér leidumst af hans Anda.

2. O Gud! vér þøkkum orðsins gjøf, oss það um sannleik frædi; veit, að það allt að vorri grøf, virdum, sem himnesk gjædi. Ebl þú hjá oss það andar-traust, óskélfdur hvørr og hræsnislaust, þess krapt medkénna nædi.

3. Vér ek frá dygda víkjum síð, en veljum íllsku ljóta, þitt heilagt orð oss varar við, og vekur til yfirbóta. Nær þúngbær oss þín hirtir hønd, huggun orðsins þá styrkir ønd, trú, von og traust ei brjóta.

4. Lát, Gud! þitt voldugt vísdóms-mál, vort breiska styrkja sinni, svo vafa-trú og villan hál, vidnám þar aldrei finni; Andi þinn veiti oss øblugt géð, ør-

uggum fæti gaungum með, á sannleiks þjóðbraut þinni.

5. Gefi það miskun Guðs og náð, gjørvøll uns tíð er samin, að við hans orðs og Anda ráð, øll kristin hjørð sé temin, þá egum himna vissa vist, veit oss það Guð! fyrir Jesúm Krist! heyr og bænheyr oss! Amen!

## No. 104.

Með sinu lagi.

Lofi Guð í hans helgidóm, hans kristnir menn á jørðu, segi lof, þøck, með sínum róm, svo orð hans víðfræg yrðu; þau um lønd øll, orð hljómi snjøll, hans makt og heiðri lýsi, hátign vors Guðs þeir prísi.

2. Að hjartans Son sinn Herrann Krist, hefir fyrir oss gefið, þar af fengum vér Føðurs ást, fyrir hans dauða lífið; samvitskan hrein, við synda mein, sig af Guðs elsku gleður, Abba, ó Faðir! biður.

3. Boðað er nú hans blessað orð, berlega øllum mønnum; frið og huggun það færði jørð, frjófgaði dygðum sønnum; hvað andað fær, Guðs gáfur þær, gøfgi, þacki mest leingi, og Hallelúja syngi!

4. Hátt lofið Guð á himni' og jörð, hans náð og gæðsku játið, hér sem hefir sín heilög orð, hljóma fyrir oss látið; veri þau oss, á vegum ljós, vor hlífð í freistni' og voða, og huggun helg í dauða.

## No. 105.

Lagið: Adams barn! synd þín svo var stór.

Drottinn! send oss nú Anda þinn, ást og náð í vor hjörtu inn, svo þínum sannleik trúum; géf oss þann skilníng hjarta og hug, heilög orð þín að girnumst mjög, af hjarta til þín oss snúum, ó Guð vor Faðir! géf þá náð, gjörðir, ræða og allt vort ráð, verði til lofs þér einum, alla hindrun lát hverfa frá, hvað ebla kann oss lát nú fá, að gánga á vegi þínum.

2. Drottinn! í tíma vek oss vel, ei vitum vér hvað laung er dvöl, nær linna lífsins stundir; kénn oss þinn ótta, elsku' og trú, anda þinn lát oss fræða nú, svo jafnan hötum syndir; raungum lærdómi' oss vara við, veraldar flærð og ljótum sið, að ei kunni oss blinda, sjálfur oss miskun sendtú hér, að sálar fögnuð erfum vér, og styrk oss allt til enda.

## No. 106.

Lagid: Nú bidjum vér heilagann Anda.

Þitt ord og Andi, ó Gud! veit nú, ad oss med réttri saman-tengi trú; kristid høfum heiti, helga Krists lærdóma, í hreinum hann vardveiti, hjá oss jafnan blóma. Herra! heyr þá bón!

2. O! vísdóms Andi! veit oss þad skyn, ad øll sé heill ad ega Jesúm vin; hans ad bodum hlýdum, hans í fótspor fetum, svo hreppt med helgum lýdum, himna føgnud getum. Herra! heyr þá bón!

3. O! Andi fridar! órøskud veit, vor brædra eining verdi hvørn um reit, svo í sæld og voda, samhuga framførum, hvørr annann adstoda, í øllum lífsins kjørum. Herra! heyr þá bón!

4. O! Guddóms kraptur! uppfyll vort géd, á dauda-stundu, hærstu huggun med; ad vér engu vyrdum, allann heimsins blóma, um eilífdar hyrdum, ad eins dýrd og ljóma. Herra! heyr þá bón!

## No. 107.

Lagid: Gud miskuni nú øllum oss.

Oss sýna, Jesú! ord þín blíd, allann þinn kjærleik heita; þinn Anda lát um

æfi-tíd, oss sálar føgnud veita! þetta hin sanna unan er, oss þínum kristnu monnum, uun hennar leitum ætíd hér, á dygda vegi sønnum, ad hjá þér umbun kønnum!

## No. 108.

Lagid: Heidur sé Gudi himnum á.

Lofgjørd sé þér, Gud gjædsku hár! sem gløggt þeckir vora veiki, einn er þinn vísdóms Andi klár, er ljós í myrkrum qveikir, vorum anda þú veitir dug, vísdóms leidir og dygda veg, ad oss fótur ecki skeiki.

2. Frí og laus øllum ótta frá, áfram lífs-veg hvørr keppir, myrkrid er villu valda má, vér øruggt strídum heppnir; þinn Andi, Jesú! æ og nú, oss þar um gefur vissa trú, ad sannkristinn sælu hreppir.

## No. 109.

Med sínu lagi.

Gud miskunni nú øllum oss, og gefi blessun sína, og láti sinna orda ljós, til eilífs lífs oss skína, svo vilja hans og verkin øll, í verøld þeckja kynnum, og Jesú Kristí kroptug heill, kunnug se øllum monnum, ad gjarnan hlýdi honum.

2. Þér, Gudi! lof og þackargjørd, þinn lýdur jafnan játi, og fagni sérhvørt fólk á jørd, fagrann saung heyra láti, ad þú Dómari ert á jørd, ílliska lídur því eigi; verndar og leidir oss þitt ord; allt fólk styrkir svo megi, gánga á réttum vegi.

3. Þacki þér, Gud! og lofi þig, þitt fólk lotníngu medur; ad dygdum mannkyn audgi sig, ord þitt oss frædir, gledur. Gud Fadir, Son og Andi hreinn, oss blessi alla saman, vegsami hann og óttist einn, allt mannkynid um heiminn; segjum af hjarta: Amen!

## No. 110.

Med sínu lagi.

Anda þinn, Gud! mér géf þú víst, grátandi eg þess beidi; ad villi mig, hid vonda síst, veg minn allann þú greidir; medan eg lifi hér, og ljær þú tímann mér, lát mig vel læra' ad deya!

# 12. Fullsæla eptir Daudann.

## No. 111.

Lagid: Um daudann géf þú, Drottinn! mér.

Sídasti dagur máské minn, mér sé kominn allnærri; ótta þó hjá mér eg ei finn, er Drottins nádin stærri, er lætur stríd mitt enda fá, og mér kórónu himnum á, af gædsku géfur skjærri.

2. Arftöku sælu' á ædra stad, útvegad Jesús hefir; elska vil eg hann æ fyrir þad, í deyd hann frid mér géfur; í grøf eg hvíla óttast síst, úr henni því minn Drottinn víst, mig til himins upphefur.

3. Haldi því grøfin medan má, mínu holdi þúngbæra, ønd mín lyptir sér upp þar frá, áhlaup daudans kann næra, ydrunarlausum ótta hér, ávarp hans gledilegt er mér, mig til Guds mun hann færa.

4. Frá heimsins styrjøld, hættu' og neyd, til himins sál mín leitar, í hjálparvon eg hleyp mitt skeid, med hópum Engla sveitar, samhljóda háa sýng lofgjørd, Syni Guds birtum hér á jørd, sem heill mér hét ad veita.

5. Frá himninum mig féck ásjed, Fadir med elsku heita, barna-rétt Syni sínum med, af sannri náð réd veita; þegar stríð mitt á enda er, í sigur-laun hann géfur mér, hnoss það, eg hér að leita.

6. Réttlátra hold sáð segjast má, sett í mold grafarinnar! Gud það deginum efsta á, med ordi maktar sinnar, lífgar, krapt sama þeckí' eg þar, og þá verøld fyrst skøpud var, í undrum uppris-unnar.

7. Gud! eg legg hønd á munninn minn, en mikla stjórnun þína; veit mér ad skilja vilja þinn! vil eg þér hlýdni sýna; eg býst øruggur burt frá heim, bíd gladur eptir dauda þeim, sem endar ánaud mína.

8. Nær eg, ó Gud! þig hefi' mér hjá, hef' eg nóg eptirlæti; dauda og grafar deysir þrá, dýrd, er eg sídar mæti; and-láts nálægd mér ógnar síst, í lofsaung harma-raustin snýst, vid himna Guds hásæti.

## No. 112.

Lagid: Heidrum vér Gud af hyga' og sál'.

O Gud! lífs-tídin ódum þver, er til betrunar gafstú mér; hvad margra daga hef' eg tøf, hér, þángad til eg leggst

í grof? sælann og hólpinn segi' eg þann, sem náð hjá þér, minn Drottinn! fann, daudans nálægd ei hrædir hann.

2. Angrudu hjarta eg sæ med, opt minna vina legstad sjed, þá hugsun samt eg huggast vid: hér blundid, vinir! sætt í frid; sælann og hólpinn segi' eg þann, sem náð hjá þér, minn Drottinn! fann, daudans nálægd ei hrædir hann.

3. Vid þessi leidi samt eg sje, ad sæmdir, metord, lán og fé, er dupt einbert, því æsku' eg sá, ellinni visna likt sem strá; sælann og hólpinn segi' eg þann, sem náð hjá þér, minn Drottinn! fann, daudans nálægd ei hrædir hann.

4. Veiti mér náð þín væg og blíð, víslega' ad brúka mína tíd, til lofs þá jafnan lifi' eg þér, líka fulltreysti', er deya fer, og reyni sjálfur sannleik þann: ad sæll er hvørr, sem náð Guds fann, daudans nálægd ei hrædir hann.

5. O Jesú! fyrir aumann mig, í daudann gafstú sjálfann þig, uppreist og uppstéist, af því mér, er búin vist í dýrd hjá þér; þín vegna náð og frid eg fann, fagnandi því eg gánga kann, mót dauda, eg ei hrædist hann.

## No. 113.

Lagid; A Gud alleina.

Eilíf ánægja! eg þér senn fagna má, eg framgeng fræga, fullkomnun loks ad fá, krapt og gnótt gæda, gésur eilífdin mér, hérvistar mæda, heiti æskunnar ber, en lífid upphæda, aldur fullordins er.

2. Þú gánginn greidir, Gud minn! og kénnir mér; mig ladar, leidir, til lífs eilífs hjá þér; bak vid dymmt dauda, dags myrkur sje eg því, nýtt ljós, sem nauda, nemur burt gjørvøll ský, og mér trú ótrauda, tendrar hjartanu í.

3. Hátt lífs ord hljóma, heyri' eg rødd Jesú hér, von vid þá róma, vidréttist glød í mér; hvad kann mig hryggja? heyri' eg Guds Sonar raust, ei vil þá yggja, en alla von og traust, eg hans á skal byggja, ordunum qvídalaust.

4. Sál mín og sinni, sér hradar nú og flýr, í hærst heimkynni, hvar eilíf gledi býr, sú bygd Guds blída, brosir þegar vid mér, þar sýng eg sídar, samsaung med engla her; til þess fagnadar frída, Fadir! mig tilreid hér!

## No. 114.

Lagið: Guðskuriskasti græðari minn.

Hvað sæll er eg nær himnum á, helgum Guðs Englum ásamt má, lof og dýrð Guði gjalda, og mæla: Jesús mér allt var, mín vernd í hrapi veraldar, mín gleði' um aldir alda, hann er, heill mér! þeirrar stundar, fagna' eg fundi, að fæ þar prísa, nafn Jesú blessað og lausn hans lýsa.

## No. 115.

Lagið: Jesús Kristur að Jórdan kom.

Lífsins Herra! eg þakka þér, þú eilífð mér tilreiðir, og að þíns Sonar orðið mér, útvegar frið og leiðir, ljós inn í myrkri; líf í deyð, líkn í sút, ró í pínum, finn eg hjá Jesú, flýr því neyð, flýr burt úr þánka mínum, ótti með efa sínum.

2. Lof sé þér manna leiðtoginn! lof sé þér dýrð og æra, fyrir orðið bæði' og Anda þinn, æ láttu brjóst mitt næra, þá sönnu huggun, þá eg frór, þeinki á eilífð mína, uns þú von, sem er viss og stór, vyrðist sjálfur að krýna, nær eg dýrð nálgast þína.

## No. 116.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Skapari mildi minn, minn Drottinn kæri! til lífs mig leiddir inn, lof þér eg færi; á enda lífs, eg skal þér prís frammæla; um dauða dalinn hér, djarft geng, því ertú mér, mitt ljós, mín sæla.

2. Hví skal grøfhræda mig, og heljar kífid! Jesús gaf sjálfann sig, svo hefd' eg lífid; sjá! hann uppreis, þá sigurvinníng vísa, fæ eg og feril þann, feta, því eins og hann, eg skal upprísa.

3. Loks þegar hef' eg hér, hlaupid trúr endad, til betra lífs fram eg fer, fæ sæll ad lenda, í føgnud, dýrd; fyrir hástóli þínum, og syng: Gud sanni! þér, sé prís, eg leystur er, af øllum pínum.

## No. 117.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Gud minn! eg þacka þér, þú af nád hefir, eilíft líf ætlad mér, engin því vefur, efasemd ønd, ei skal mig grøfin hræda, armæda lífs er leid, liggur mitt æfi-skeid, hédan til hæda.

2. Hvørt munu vegsemd, vøld, veita lán stærra, heims audur, heill marg-

føld? hnoss er mér kjærra, gledi eilíft, Guð! þig sjá og útvalda, það sýndir sjálfur mér, sú von fyllist hjá þér, um aldir alda!

3. Engin heims eymd mig hér, í výl nú leidir, eg veit hvað mætir mér, minn veg framgreidir, í himna dýrd; hvað er, það má hér líða? Guð upp í gledi stað, gjørvallt umbunar það; ei skal eg qvída.

## No. 118.

Lagið: Um dauðann géf þú, Drottinn mér.

Þú gafst oss, Faðir góði! hér, þá gledi-von að finna, að gégnum deyð og graf-ir vér, gaungum til dýrðar þinnar; sú von í hvørri sorg og neyð, og síðast oss í vorum deyð, lífgar, þá dagar linna.

## No. 119.

Lagið: Heiður og háleit æra.

O Jesú! von míns anda, upplyptir sér til þín, til kraptarins hægri handar, hjá þér er unan mín, og vonin á þér einum, en æ míns líkhams bønd, þvínga mig þúngum meinum, því styrk þú mína ønd, nær eg vil þenkja' um þig, minn þróttur veikann sig, vottar og vékar mig.

2. Hvad sælar þóktu þjódir, þig litu hér á jørd? hvad sælir hjarta-gódir, heyrdu þitt lífsins ord, þad ord, sem qvittun kjæra, kyni syndugu vann, og himna fridinn færa, frelsti heim gjørvallann, en von oss øllum ljer, um sælu-vist hjá þér, þegar hérvistin þver.

3. Eg sje þig ei né heyri, upphafdi Jesú minn! madur af moldar leiri, ei megna nú um sinn, annad enn undrun mína, auglýsa hrærdur, þér, og prísa elsku þína, ofdauft þó lof mitt er, á medan enn eg bý, adsetri daudans í, all-litlu orka því.

4. Eitthvørt sinn holdsins hnígur, hreissi, en sálin mín, í betra líf uppstígur, úr grøfum raustin þín, kalla mun fólk þitt frelsta, føgnudur gefst þá mér; lífs eilífs hnossid helsta, á hæd sameinast þér; þú ert sá arf oss bjó, ósýnilegur þó, ert hér í heims óró.

5. Eitthvørt sinn aptur kémur, í dýrd ad krýna þú, hvørn þann, sem hér sig temur, á hlýdni, dygd og trú, mín augu, mig þann leysti, munu forklárud sjá, á hvørn eg ádur treysti, ó von og gledi þá! ó þá dýrd, er eg finn! ó þá sæld, Jesú minn! um eilífd er eg þinn!

---

## II. Bænar Sálmar.

### 1. Sannur Kristinndómur.

No. 120.

Lagid: Adams barn! synd þín svo var stór.

Sælir eru þeir allir nú, án flecks lifa í réttri trú, Guds eptir bodum gánga; vel er þeim, sem hans vitnisburd, viljugir geyma hér á jørd, af hug þar eptir lángar; því hvørjir gjarnan Guds á veg, gánga jafnan, þeir varast mjøg, misgjørd og synd margfalda. Herra! sem almáttugur ert, øllum hefir þú bodid bert, heiløg ord þín ad halda!

2. O Gud! veit mér ad ordid þitt, alvarlegana lífid mitt, af hjarta haldid gæti; nær sem eg blessud bodord þín, berlega set fyrir augun mín, ógn og smán engri mæti; af øllum hug' eg þacka þér, þú hefir kénnt og sýndir mér, dýrann rett dóma þinna; þín heiløg bod eg halda vil, Herra! medan eg lifi til, lát mig þitt fylgi finna.

3. Hvorninn veg æfi úngur mann, óstraffanlega gánga kann? ef sér við orð þín heldur. Eg leita þín af heilum hug, hjálp, svo með engu verði eg, frá þinni kénníng feldur. Í hjarta mínu hefi' eg fest, heilög orð þín, svo varist mest, móti þér grand að gjöri. Lofaður sértu, sanni Guð! sannleikann þinn og heilög boð, géf þú eg gjarnan læri!

4. Með vörum mínum eg víða skal, vitna um þinna dóma tal, sem er þíns munns aðqvæði, af þinna vitnisburða veg, verð eg glaður og feginn mjög, eins sem af allskyns auði. O! að mest ræða' og orðin mín, um heilög séu boðorð þín! ef veg þinn vel umskoða, dygð og ráðvendni æ þá ann, orðum þínum ei gleyma kann, í sælu, sorg og voða.

5. Heiður, lof, dýrð með hreinni trú, himneskum Guði Föður nú, sætlega skulum sýngja; hans einka Syni, Jesú Krist, sem oss hefir með dauða leyst, kénnt leið til lífs að gánga; heilögum Anda, er um heim, upplýsíng, huggun géfur, þeim, sé prís og lofgjörð samin! Guðs orði með og aðstoð hans, arftöku' í ríki Frelsarans, ödlumst og farsæld. Amen!

## No. 121.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín!

Sá madur gódann finnur frid, fótstig Guds boda' er héldt sér vid, holds girndum hættum strídir; hann berst og á þau lítur laun, lofar Gud eptir strídsins raun, sannri dygd hans um sídir.

2. Ad sinni gaungu gætir vel, grandvar lifir med einardt þel, ad þeckíng eykst og krapti, þó breisknr sé, nýtt fær hann fjør, og finnur hér þau yndis kjør, sem Gud fyri sál' hans skapti.

3. J hjarta' og fyrir augum réd, æ hafa Gud, sitt prófar géd, hvørn dag í hans augliti; sín harmar brot, en syndamein, samt grædir trú á Jesúm hrein, fyrir hann heill ad hlyti.

4. Sig vandar trúr í sinni stétt, sér skamtad lán Guds notar rétt, ágirnd og øfund hafnar; vid lítil efni Gud hans géd, gledur, þó audi sorgum med, hann adra sjái safna.

5. Guds hønd ef honum nægtir lér, Gudi líkjast æ temur sér, gefur gódfýsi medur, farsæld ástvinar feginn jók, forsvar dygdugra jafnan tók, aumstaddann óvin gledur.

6. Sú byrdin honum sýnist létt, vid sína brædur skyldu rétt, sífeldt ad gæta

sinnar, elskan til Guds hans eblir mátt, elsku med-brædrum sýna þrátt, allt vill med ástsemd vinna.

7. Líf þitt og æru ver hann víst, en velferd þinni spillir síst, þig sem med-bródur metur, þolgódur breiskleik þinn umber, þánkinn sa: Gud minn uppgaf mér, á hógværd sáttgjarna' hann hvetur.

8. Oug eykur þér á dygda stig, hans dæmi æ ad vanda þig, gott áform eblir, glædir; því lísid veit hann gaf oss Gud, til gódra verka' og øllum baud, eitt løgmál, eitt hjálprædi.

9. Hjálpræd þetta, sem eilíft er, einn sá gudhræddi finnur hér, heill fær þad, harma stillir, þrótt veitir, eykur þol í neyd, hann hel ei skélfir, en í deyd, føgnudi sál' hans fyllir.

## No. 122.

Lagid: Oss lát þinn anda styrkja.

Hvørr Guds ord geymir eigi, Gud segist þeckja þó, sannleikann ecki segir, sigrandi vantar trú; hinn sem trúir og hlýdir þeim, af Gudi' er endurfæddur, en ecki' af þessum heim.

2. Sá rétt-trúadi sannar, sína trú kjærleik med; ef þú veitst betur enn annar, audsýn þá betra géd; grund-

völlud Drottins ordum á, trúin manns hvetur hjarta, hjálp og ást brædrum tjá.

3. Fyrir Jesúm Gud oss géfur, guds barna rétt af nád; hvörr þá von til hans hefir, hann umflýr glæpa rád, en Krists fótsporum fylgir hann, svo sem sann-kristinn madur, sig vandar best sem kann.

4. Sá hlýdni Gudi géldur, Gudi þack-næmur er, hvörr sem hans bodord heldur, hefir Guds elsku' í sér. Trúin í verk-um hlýtur hrós, því fagrar dygdir dafna, og daglega koma' í ljós.

5. Hans er Gud heill og gledi, hrein-ann sem kjærleik ber; ást med audsveipu gedi, engla sveit Gudi tjer. Gud er kjær-leikur, enginn kann, í nád hans hlut-deild hafa, nema hafi kjærleikann.

## No. 123.

Lagid: Oss lát þinn anda styrkja.

Umfram allt Gudi unna, elska náúnga sinn, ordin þín elska' og kunna, ástríki Jesú minn! og feril þinn ad feta hér, vor er farsældar vegur, vel ef þad stund-um ver.

2. Rólega lífs þá lídur, leid gégnum þennann heim; oss Jesús eptir bídur, inn í fögnudi þeim, eilífann sigur ödl-

umst vær, hólpnir, heilir og sælir, hásæti Drottins nær.

## No. 124.

Lagid: Seidur og háleit æra.

Sífeld umbreytíng alla, æfi manns lodir vid; sælan og sorg má kalla, sveymi oss jafnt á hlid; skruggu stormar styrjalda, stugga burt fridi' af jørd, ad rádi þess Alvalda, er þó sú pláaa gjørd, Gud! kénn þú mædu mér, án møgls ad taka hér, til lofs og þóknunar þér!

2. En þín forsjónin sama, samt blessar vora jørd, med heillum, fridi' og frama, því færum þackargjørd; en þad oss þrávallt hendir, þá mæda' í gledi snýst, vareygdin frá oss vendir, vor skadi þar af hlýtst. Gud! kénn þú gledi mér, med greind ad taka hér, til lofs og þóknunar þér!

3. Allt þad, sem gott er, géfur, þín gædska, Drottinn minn! allt gaf, sem hagad hefir, hvørjum vísdómur þinn, er því skyldt ad vér minnumst: allt gjørir þú sem best, þacklátir þannig finnumst, og þitt rád prísum mest; géf þú, ó Gud! ad vér, gætum æ lifad hér, til lofs og þóknunar þér.

## No. 125.

Lagid: Heimili vort og húsin med.

Sæll er sá mann, sem hafna kann, hreckvísra manna rádi, og syndugra vegi aldrei ann, ei sat hjá skémdar hádi, heldur med vilja, hug og mátt, hreinferduglega dag og nátt, ad Guds løgmáli gádi.

2. Sá madur eins og eik sú er, uppvex hjá vatna straumi, á réttum tíma aldin ber, ei fellur lauf né blómi; allt gott, sem hann vill hafast ad, honum mun ætíd veitast þad, farsællega framkomi.

3. Þeir glæpa vegi gánga á, og Guds rádum ecki hlýda, audnu hvílíkri aldrei ná, áfelli heldur lída; líkt sem fisi á flatri jørd, feykja stormvidrin hvøss og hørd, um ýmsar álfur vída.

4. Illgjarnir kunna ecki því, uppreisn í dómi hljóta; sannra Guds vina søfnudi' í, síst ódygd lids má njóta; en gódra manna greidir veg, Guds nád og miskun æfinleg, ránglátra leid mun þrjóta.

5. Fødur, Syni og Anda sé, ædst dýrd um jørd og himin; eins sem hún var ad upphafe, án enda verdi framin; kénn oss ad halda kristinn sid, qvittast og skilja syndir vid, sá þad vill, sýngi: Amen!

## No. 126.

Lagid: J dag eitt blessad barnid er.

O Jesú! þitt er ordid oss, andleg leidar-stjarna; kristnina þína þetta ljós, æ þyggja láttu gjarnan, svo ad hún til þín snúi sér, sig med hjarta gefi þér, óvinum eigi hlýdi, ástverkin þín ad eignumst vér, og í þá dýrd, sem eilíf er, førum vér í fridi.

## No. 127.

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

O Fadir! mig þinn Andi leidi, ordugann framm um lífsins veg, ad girndir aldrei gæfu sneydi, af glisi heims né bleckist eg, kappkosta dygdir kénn þú mér, kraptana styrk þá skeika fer.

2. Æ Fadir! þú minn þróttinn veika, þeckir og alla sálu best, af sannleiks vegi ef eg skeika, ei skynja hvad mér gagnar mest; upplýsíng mína ebl, ó Gud! upplýsi mig þín heiløg bod!

3. Ást þín, Drottinn! vill audnu mína, audveldann dygda gjørir stig; eg þó vid raustu þegi þína, er þrátt til skyldu kallar mig; ónotud stund leid allmørg hjá, sem aldrei framar gagna má.

4. Lát, gódi Fadir! líkn ei þrjóta, lít þú ofan í nád til mín, þá eg veikur þín

boð kann brjóta, búin til reiðu hjálp sé þín, hvet þú til skyldu vilja' og verk, von mín sé jafnan á þér sterk!

## No. 128.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Bænheyr þú, Faðir mildi! mig, með trú oruggri' eg kalla á þig, þú yfirgéfur aldrei þann, aðstoð þinni sem treysta vann; minn vegur háll og myrkur er, miskuna því og hjálpa mér.

2. Þá dygðar vil eg þræða stig, þrávallt hindranir villa mig, miðt í háska eg einatt er, þá ætla' hann vera fjærstann mér, saklausri skémtun allopt á, ablvana dygðir rasað fá.

3. Alskygni Drottinn! auga þitt, allt sjer og þeckir hjartað mitt, gef sú umþenkíng æ sé sterk, við öll mín fyrirtæki' og verk, hugsun og gáng minn út og inn, aðgætinn vandi' eg hvört eitt sinn.

4. Þá skal minn aldrei fótur fá, ferli dygðanna skeikað á; eg skal þá bæði ár og síð, í minni reiknings hafa tíð; þá skal eg, Guð minn! þakka þér; þá sé velkominn dauðinn mér.

## No. 129.

Lagið: Adams barn! synd þín svo var stór.

Nú má ei framar nærsta blind, nauðbeygja mig og þrælka synd; einn Guð!

mér ætíd rádir, eg því tilheyri allur þér, í skírninni þau kjørin hér, Fadir! af þér eg þádi, íllgjørdum hafna hét eg þá, hédanaf vil eg lof þér tjá, og hlýda' af øllum mætti; viljann þú, Drottinn! sjálfur sjer, en synd útrýma' eg dádlaus er, nema þín nád þad bætti.

2. Eg skal því daga alla þig, ákalla Gud! sem styrkir mig, veikann og vilja' einlægann; réttu mér þína hjálparhønd, hardt þá vid syndum spornar ønd, send anda nádar nægann; þad láttu, gódi Gud! mig fá, grátbænir mínar heyr þú á, líknsemd þín lid mér veiti, og í því stránga strídi megn, ad standa sérhvørri synda gégn, eg svo þeim aldrei skeyti.

## No. 130.

Lagid: Adams barn! synd þín svo var stór.

Vér bidjum þig, ó Jesú Krist! í vor hjørtu vel innrætist, þín krøptug kénníng hreina; vér játum synd og veikleik vorn, viljum þó gjarnan vera þín børn, og þóknast þér alleina. Send oss nú nád og sanna ást, svo hjørtun megi uppfyllast, med trú og kjærleik klárum, lastvarir svo ad lifum hér, líka deyum ad erfum vér, frid med Frelsara vorum.

## No. 131.

*Lagid: A Gud alleina.*

O Gud alvaldi! øll nafn og vald þitt hátt, um allar aldir, audmjúkt veg=samar þrátt, anda fjøld ædsta; um ei=lífd svo sem nú, eins fyrir smærsta, umhyggja þín er trú, og því allra stærsta, er skópst og gjørdir þú.

2. Ljósid framleiddi, og líf þitt gud=dóms ord, ord mirkrum eyddi, ord skóp himin og jørd; ord þitt upplýsir, alla, sem trúa hér, veittu þad vísi, á veg far=sældar mér, hlýdinn hér svo prísi, Herra Gud! þig, sem ber.

3. Einn ædsti kraptur, þinn øllu heldur vid, er ádur skaptir, sitt áqvard=ada mid, vís, helgur, vægur, Vera full=komin mest, án enda frægur, ertú, þér líkt ei sjest, einn Gud øllu nægur, sem øllu stjórnar best.

4. Styrk mig ad standa, stigunum Jesú á, og verk mín vanda, verdur eg gjørist þá, imind ad bera, ó Drottinn! þína hér; lát lofgjørd vera, lífid mitt gjørvallt þér, uns þig, ædsti Herra! um eilífd prísa fer.

## No. 132.

Lagið: Í dag eitt blessað barnið er.

Vil eg, minn Guð! á valdið þitt, viljann og ráð mitt gèfa; en, æ! þú sjer vanmegnið mitt, mátt þinn eg síst þó efa; hjálpa þú mér og helga best, mitt hjarta, rót að nái' ei fest, synd né til glæpa ginni, veikur lítt standast við eg má, vinnur hún einatt sigur á, byrjaðri betrun minni.

2. Þú, Jesús! kénndir, qvaldist, dóst, qvittaðir brotin manna; að þú fyrir mig leiðst er ljóst, laungun það veki sanna, ferli þínum að fylgja hér, framferði þitt sé regla mér, eg svo lífs skeið útendi, með heill og nái marki því, mín farsæld sem er fólgin í, og hvoss mér verði í hendi.

3. Æ! þángað, sem að engin tár, augun væta, mitt sinni, og eptirlángan ætíð stár, ó! þau friðar heimkynni! hvar æ er gleðin æfinlig, eg fæ þar grant að skoða þig, Guð! hvörs eg gjarnan leita; ó þann frábæra frelsis dag! fullsælu til þá rauna hag, á síðan um skal breyta.

## No. 133.

Lagið: Ó Drottinn allsvaldandi!

Guð minn! hvörs gæðsku stóra, í gjörðum öllum líta má, heimar og

himin = kórar, henni lof um eilífd tjá; hvad sem er, og eg kénni, eda mér, hug' um renni, lýsir þér, lifandi Gud! og henni.

2. Í sannleiks ordi mæta, eg veit sælu heitna mér, trúlega' ef gjøri gjæta, Gud! þíns vilja og hlýdnast þér; kunni' eg fá, kórónu' og vinna, kjør þau há, allt er minna, ædst hvad má, í verøldu finna.

3. Hjálpa mér, Herra! ad gánga, sem heilagt ord þitt kénna vann, af réttri gotu' á ránga, ráfa og annars villtur kann; en eg þér, ætíd treysti, opt mig hér, nád þín reisti, mót syndum mér, sendi styrk og hreysti.

4. Synda=lyst allri eyda, adstod, Drottinn! veittu mér; þinn Anda lát mig leida, svo lifi' eg grandvar eins og ber, dygdar á, adal=vegi, eg ad sjá, ljós þitt mégi, og von þér hjá, vegsemdar loks eigi.

5. Mér kann máské ad vera, mín endalyktin harla nær, veit mér þá huggun Herra! helstundin géf ad komi vær, daudi minn, verdi vægur, vilji þinn, sé mér þægur, leid mig inn, lífs í farsæld nægu.

## No. 134.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Á þig, Jesú Krist'! eg kalla, krapt mér auka þig eg bid, þú mér hjálpar æfi alla, ef eg tryggdir held þig vid, Jesú! létt mér láttu falla, ad læra helgann dygda sid.

2. Eg svo hlýdi ætíd þínum, elsku bodum, Herra minn! votti trú í verkum mínum, vandlega reki feril þinn, þinni raust med sannleik sínum, sífeldt gégni varfærinn.

3. Fullkomnun, sem fyrir mig lagdir, framt ástunda géf þú mér, þá ad elska, sem þú sagdir; samt af alhug' varast hér, ad fleka neinn med følsku bragdi, fyrst ad brædur erum vér.

4. Veit, ad þad, sem heimur heldur, heill, ei dragi mig frá þér, þad sem fyrir gott hann géldur, gjarnan spott og vanþøck er, en þad sælu ædstu veldur, ef vér, Drottinn! hlýdnumst þér.

5. Þá skal trú mín, þydi Herra! þægann ávøxt bera sinn, Drottins ætíd dýrdin vera, dug og krapt er ebldi minn, fasta vørn skal fyrirbera, freistar mín ef heimurinn.

6. Heyrir þú mitt hróp, eg treysti, Herra! þér, og stendst eg þa, þó mín

sendir þrávallt freisti, þú mér aldrei víkur frá, en mér sendir sanna hreysti, sigri frægum loksins ná.

## No. 135.

Lagið: Jesús Kristur á krossi var.

Faðir ljóssanna! lát þú mér, lýsa jafnan í veröld hér, ljós þinna líffins orða. Eg fel mig, Drottinn! einum þér, íllri vantrú mér forða!

## No. 136.

Lagið: Himna rós, leið og ljós.

O! þú hár, Herra klár! hvörr æ til varst, ert og verður, allt vel gjörðir, alvís; ræður geym, himna' og heim, hverju' um sitt mið, gefur allt, gott ávallt, Guð! eg þig bið:

2. Gef þú mér, heilsu hér, hugskot upplýst, við þinn ótta, voldugi Drottinn! vant sé, heill er það, unn mér að, orð mín vandi; þar til mér, hjálpi hér, helgur Andi!

3. Að gjöra rétt, lát mér létt, og ljúfast falla, í hvörju sinni, hvað sem vinn eg, hér með, verki því, veit mér í, viðgáng hljóta, öðrum hér, eins og mér, allt til bóta.

4. Kjæta geð, kjærleik með, kenn mér hvörn við, sem míns Guðs vild, og

minni skyldu' ei mót er; henni frá, fjandskaps þrá, fæli engin, fram svo eg, frjáls minn veg, fái gengið.

5. Gégnum neyð, lífs þó leið, liggi, Guð! min, ei lát vøla, heldur hvíla, hug við, von og traust, vafalaust, veit og það mér, blindi' ei sé, en brúkað sé, best til lofs þér.

6. Þegar hrjá, hel mig á, Herra! géf mér, sætann blund við síðstu stund, en sé mín, í føðurs hønd, falin ønd, og fari glød þá, upp til þín, er þér mín, eilíf sæld hjá.

## No. 137.

Með sinu lagi.

Herra Guð í himnaríki, hann oss sinn vilja kénndi, er hann ofan á jarðríki, oss tíu boðorð sendi.

2. Fyrsta boðorð einkum átt, af øllum hug' að merkja: Hjá-guði' enga þú hafa mátt, hann einn skalt elska og dýrka.

3. Annað: minnstu með auðmjúk hót, ætíð með Guðs nafn fara, og hann biðja af hjartans rót, heiðra og þakkir gjøra.

4. Þriðja hans boð hugleiða skalt: hvíldardaginn að helga; Guðs orð heyr

þú og gjarnan haldt; girnd heimsins skalt ei fylgja.

5. Fjórda: heidra med fullri ást, födur og þína módur; vid yfirmenn skaltu aldrei sjást, óhlýdinn, þver né reidur.

6. Fimta: ei slá med heipt í hel, hold manna skallt ei meida; heldur forda og frelsa vel, frá voda hvörn mann leida.

7. Sjötta: vid hór þig vara skalt, vilja holdsins ei gjöra; hjúskap eda hreinlífi haldt; hóf lát þér þekkast vera.

8. Sjöunda: einkis áttu fé, okra, stela né ræna; heldur styrkja ad haldid sé, hjálpa, gefa og lána.

9. Áttunda bod: ei mæla mátt, meinvitni, róg né lýgi, náúnga þinn þú affaka átt, ad heidri halda megi.

10. Níunda: girnast ecki átt, annara hús med flærdum; heldur styrkja af hug' og mátt, ad haldist eign þeirra'í værdum.

11. Tíunda: hreinn í hug vert þú, hans qvinnu girnstu aldrei; heldur óska: ad ást og trú, vid eginn mann sinn haldi.

12. Gud Fadir Son og Andi hreinn, oss vyrdist nád ad senda, ad þessi bod hans hvörr og einn, haldi til lífsins enda.



## 2. Yðran, Trú og Syndafyrirgéfníng.

### No. 138.

Með sínu lagi.

Til þín, heilagi Herra Guð! hef' eg lypt sálu minni, af hug og hjarta í hvørri neyð, hjástoð treystandi þinni; láttú mig aldrei líða smán, ólucku, bríxl né sálar tjón, svo fjandmenn ei fagna kunni.

2. Ofsmánadir verda allir þeir, eptir þér hvørja lángar, en svívirdast munu meir og meir, svo margir, sem afvega gánga, og hafna þinni hjálp og náð, en hyllast lesti' og skémdar ráð, og elska' ei utan hið ránga.

3. Voldugi Herra! vísa mér, á veg og gøtu þína, við sannleik þinn mér hald þú hér, hyggju fáráða mína, með vísdóms anda uppfylltu, og orði þínu blessudu, því á þig trúi' eg alleina.

4. Minnstu á þína miklu náð, og miskun þúsundfalda, og það himneska hjálparráð, sem hugdir fyrir aldir

alda; fyrir gæðsku þína minnstu mín, og mér þitt føðurlegt hjarta sýn; hreinni trú lát mig halda.

5. Minn úngdóms brest og afbrot leið, álít ei, Herra kæri! þenktu heldur á þinn eið, og óbrygðanlegt særi; ó Herra Gud! af hjarta' eg bið, harmþrúngnum þú mér veitir lið, svo sem eg saklaus væri.

6. Góður og réttvís Gud vor er, sem gjarnan meðtekur alla, þá, sem að lífsbraut leita sér, og lætur þá til sín kalla, hughreystir skelfda' og hjálpar við, svo hafi þeir gledi' og andar frið, og ei megi frá honum falla.

7. Orð Guðs og vegir allir hans, eru miskun og sannleiki, náðar brunnur og næríng manns, náqvæmust, hvað sem veikir, þá, sem hug og hjarta mest, hafa á hans orði fest, af trúnni svo aldrei skeiki.

8. Náðugi Gud fyrir nafnið þitt, og nægð miskunar þinnar, géf að mín synd sé klár og qvitt, kénni' eg daglega hennar, hún særir bæði sál' og líf, nema sendir þú mér styrk og hlíf, samvitskan svo frið megi finna.

9. Hvørr, sem óttast og elskar Gud, skal eilífa miskun hljóta, Gud kénnir hon-

um sín heiløg boð, og lætur ei blessun
þrjóta; afqvæmi hans mun auðlegð fá,
og blómgast allvel jørðu á; guðhræddir
náðar njóta.

10. Upp til Drottins eg ávallt brá,
augunum vonar minnar, því að einúng-
is honum hjá, huggun trú' eg að finna;
synda-fjøtur af fótum mér, færa mun
hann til dýrðar sér, svo megi' eg hans
krapt meðkénna.

11. Dýrð Guði Føður og Syni sé,
súngin um aldir alda, eins sem hún var
að upphafe, ædsta lof skulum gjalda,
heiløgum Anda með hug og raust, hljóti
hann lofgjørð endalaust, fyrir blessun
margfalda.

## No. 139.

Með sínu lagi.

Sælir eru, þeim sjálfur Guð, syndir
af náð tilgéfur, og hvørra brot og
illverk með, afplánað Jesús hefir. Sæll
er sá mann, þeim Guð þess ann, um løst
engann átelur, hvørr frá synd snýr, hat-
ar, umflýr, Herrans miskun sig felur.

2. Svo lengi, sem mig samvitskan,
syndir lét ecki játa, mann-dáð og heill eg
mínka fann, mátti' eg því jafnan gráta;
um dag og nátt, eg fann þinn mátt, of-

þúngann mannkind aumri, megnið mitt þá, mér dróst svo frá, sem allt þornar á sumri.

3. Því játa eg þér öll mín brot, án fegurðar og varnar, hyl ei að syndgast hef' þér mót, holds vild fylgjandi gjarna. Sagði' eg með mér: minn Guð! vil þér, mína glæpi meðkénna, aflausn og sátt, af þér féck brádt, allra misgjörða minna.

4. Um þá qvittun á réttri tíð, allir í trú þig biðja; hvenær sem kémur hörmúng stríð, hér fyrir vilt þá styðja. Þú ert mitt skjól, í allri qvöl, við háska vilt mér hlífa; varðveit þú mig, svo viti' eg þig, fyrir vernd og náð að lofa.

5. Þú hétst vitsku að veita mér, vel fœra leið að boða; forsjá vera og fylgð mín hér, forða við öllum voða; lið veit því mér, svo læra hér, lifa og þér að hlýða, að himnum á, mér auðnist fá, þitt auglit skoða blíða.

6. Illfúsir rata eymd og tjón, ókjör þúng og hefnd marga, hvörjir á Drottni hafa von, hans miskun vill þeim bjarga, af því gleðjist, í Guði mest, af náð og trú réttlátir; hvörjir af hug, hans ræktið boð, hrósið Guðs aðstoð kátir.

7. Dýrd Gudi Fødur og Syni sé, súngin og heiløgum Anda, eins sem hún var ad upphafe, oss veiti' hann nád ad standa, vel á hans veg, en varast mjøg, ad synd verdi' sídar framin; Gud gefi þad, hans høldum nád, sýngjum því allir: Amen!

## No. 140.

Lagid: Konúng Davíd, sem kénndi.

Drottinn! lát mig ei dyljast, djarflega syndir vid, þó hér um stund megi hyljast; Herra trúr! þess eg bid: nær heimi fer eg frá, ørvænting ei mér grandi, ord þitt og sannleiks Andi, hjarta mitt huggi þá.

## No. 141.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi.

Gud! med qveinandi' og kløckum hjørtum, krjúpum vér nidur jørdu á, um vorra sálna ángist qvørtum, unn oss á ný þinn kjærleik sjá, aflát og miskun oss því tjá, ofmjøg løgmáli viknum frá.

2. Svo ástúdlega' í ordi þínu, oss þú dygdina kénnir hér, en kallar menn frá lasta línu, laun svo dygdanna fáum vér; en bodord geymdi' eg ílla þín, æ! fyrirgéf vangætslu mín!

3. Greiða hvað skyldum gæðsku þinni, gáleysi vort svo lítils mat, oss loddi jafnan synd í sinni, svo dárinn opt oss lockað gat; ángraðir finnum, ó Guð! vér, opt höfum syndgað móti þér.

4. O Drottinn! fyrir augsjón þinni, öndverðt stendur hvað gjörum vær, þú, ráð vors hjarta, þánka og sinni, þeckir og skoðar fjær og nær; ef þína náð ei þeckium vér, þá ró og von öll töpuð er.

5. En, hvörsu blídt er orð þitt kjæra, ydrandi sálum, Jesú minn! alla mædda vilt endurnæra, orðs blessar kénníng styrkur þinn; friðar upphaf þín ástin er, oss forsmeck himna gleði lér.

6. Þá von og gleði' í voru hjarta, verka og styrk, minn Drottinn! þú, að feta Jesú feril bjarta, fylgja hans kénn-íng hjálpa nú; þá má hvörr vita' og þreifa á, að þér sé náðin einum hjá.

## No. 142.

Með sínu lagi.

Af djúpri hrigð ákalla' eg þig, ó Guð! hlýð röddu minni; þín náðug eyru opni sig, að eg bænheyrast kynni; ef syndir og athæfið íllt, álíta og tilreikna vilt, hvörr stendst fyrir hegníng' þinni?

2. Ást og náð veldur ein hjá þér, að þú synd qvittar mína, ei gyldir þar hvað gjørum vér, góðverk þó kynnum sýna, hjá þér enginn sér hrósa kann, hræðast verður þig sérhvørr mann, og miskun þyggja þína.

3. Á Guð eg einann vona vil, verðleik mínum fráснúa; mitt hjarta Guð aðhyllast skal, hans náð og gæðsku trúa; hvað heiløg orð hans hétu mér, heill mín og blessan það eflaust er, að þeirri von vil eg búa.

4. Þó mørg og stór sé mannleg synd, miklu stærri er náðin, endalaus er Guðs hjálpar hønd, hvørsu stór, sem er neyðin, hann vill í líkn afleysa vel, lýð, sem ýðrandi vottar þel, honum tér hlýðnis eiðinn.

5. Føður, Syni og Anda sé, æðst dýrð um jørð og himin! eins sem hún var að upphafe, án enda verði framin; kénn oss að halda kristinn sið, qvittast og skilja syndir við, sá það vill, sýngi: Amen!

No. 143.

Lagið: Mitt hjarta hvar til hryggist þú.

Allt það eg hefi ílla gjørt, allt, Jesú! bæta, kominn ert, um allt því eg qvittur er, allt mitt líf skal þjóna þér, þar til, bið eg, hjálpa þú mér!

## No. 144.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín!

Pér einum braut eg móti mest, minn Gud! hjartad mitt sjer þú best, og alla athøfn ránga; bølvun þúnga, sem boda fer, bid eg þín miskun líkni mér, hlífi vid straffi stránga.

2. Bænar-qvak mitt og andvørp øll, eru þér kunn, mín tára føll, allt eins þér eru' ódulin; æ! hvad lengi mig ángur skér; ó Gud! hvad lengi ertu mér, samvitsku-hrelldum hulinn?

3. Alít ei svo mín afbrot ljót, ad refsíng komi þeim á mót, eptir stærd íllsku minnar; eg flý á þínar nádir nú, nádugi Gud! mitt hjarta þú, huggun og frid lát finna.

4. Vísa mér aptur veg þinn á, vel innræt mér þinn ótta hjá, ad heiløg bod þín haldi; géf eg æ betur þókníst þér, þér, minn Drottinn! hvørs þjón eg er, heidur og hlýdni gjaldi.

5. O Herra Gud, mín hlífd! eg bid, hjálp lát mig ætíd kannast vid, og miskun þacka þína, ad enn vilt géfa afbrot qvitt, álíta bænar hrópid mitt, ønd hrellda annast mína.

## No. 145.

Lagid: Kongúng Davíd sem kénndi.

Minn Gud! eg má þad játa: mikil er syndin mín, þó er í allann máta, enn meiri nádin þín; øll mín von á þér stár, géf þú eg glatist eigi; géf ad þig lofa megi, hér og um eilíf ár.

## No. 146.

Lagid: Avíl Avíl mig aumann mann.

Heyr mín hljód, himna Gud! hjartad mitt, hrópar ódt, af harmi módt, á hjálprád þitt! vid brot og syndir brjóst gjør qvitt, svo barni þínu verdi fridt, fyrir Herrann Jesúm :,: hrelling stytt :,:

2. Neydin mín, og nádin þín, nú mig knýr, ad bidja þig, þú bænheyr mig, géf blessun hýr! ei tapast neinn, er til þín flýr, med trú og ángri, Fadir dýr! mér virdist ecki :,: von sú rír :,:

3. O minn Gud! ó minn Gud! eg þig bid, ángrid skér, unn þú mér, andar frid; eg fæ ei stadist freistni vid, Fadir gódur! veittu lid; heyr þú barnsins :,: qvein og klid! :,:

4. Hugann synd, hrellir blind, Herra minn! eg hrædist neyd, dauprann deyd; og dóminn þinn; bót og likn mér, Fadir! finn, í freistni enga leid mig inn, heldur frelsa :,: þjóninn þinn :,:

5. Leið þú mig, svo lofi' eg þig, í lífi hér, af hjartans grunn', með huga' og munn', sem hæfir og ber; dandur enginn, Drottinn! þér, dýrð í þessum heimi tér, heldur sá, sem :,:lif þú lér:,:

6. Veika trú, viðrétt þú, og veg minn greið; eg flý til þín, forða vín', fári' og neyð; géf mér, Herra! góðann deyð, í gleði himna síðan leið, nær linnir þetta :,:lífsins skeið!:,:

## No. 147.

Lagið: Hærsti Guð Herra mildi.

Vaknið upp, kristnir allir! og sjáið syndum við; af hjartans rót ákallið, eilífann Føður Guð! hans svo ei hegning mætum, hverfi oss náð hans frá; utan syndum aflátum, ydrumst og lifnað bætum, vesælir verðum þá.

2. Náðleggja ydur látið, løstu að skilja við, af hreinni ydrun grátið, íll verk og vondann sið; heilagri umbót heitið, hyllist Guð hér í frá, mest að hans orði leitið, eptir því gjarnan breytið; hann vill oss vera hjá.

3. Heill og náð hann oss géfur, hlýðna ef fær oss sjeð, í eilíft líf oss upphefur, øllum Guðs børnum með; því er skyldt til vor tækjum, trygð Guðs og miskun hans, þá náð aldrei

órækjum, eptir henni helst sækjum, fetum spor Frelsarans.

4. Jesúm Krist Son sinn blída, sendi Guð øllum oss; lét hann fyrir oss líða, last, heipt og qvøl á kross, svo náð oss øllum fýndist, sitt líf í dauða gaf, fyrir oss auma píndist, án þess mannkyn allt týndist; hann hjálpi' oss eymdum af.

5. Allt gott svo ødlast megið, ákallið Jesúm Krist, hans náð þér erfa egið, eptir veraldar vist; lánga mædu hér líðið, leitið því Drottni að, øruggir ætíð stríðið, øllum hans vilja hlýðið; Guðs náð oss gefi það!

## No. 148.

Lagið: Sá frjáls við løgmál fæddur er.

Syndugi maður! sjá að þér, sál þín svo hólpin verði; eilíft líf byrjar hvørr sá hér, hreina yðrun sem gjørði.

2. Hvar sú þín hreina yðran er, er þar og qvittan synda, en sú qvittan hún ablar sér, elsku Guðs til mannkinda.

3. Því fá þeir allir eilíft líf, sem yfirbót synda vinna, en andar tjón og eymda kíf, yðrunarlausir finna.

4. Drottinn vor Jesús dó á kross, að deya syndin mætti, látum því ecki lifa í oss, lesti með vondum hætti.

5. Géf mér, Herra! í hjartað mitt, hreinann yðrunar anda, svo að mín sál' af syndum qvitt, sýngi þér lof án enda.

## No. 149.

Lagið: Má eg ólukk' ei móti stá.

Géf þú oss, Herra! heims um hríð, heja gott stríð, og trú heilagri halda; samvitskan hrein þar sé við fest, sem kunni best, sigursæld vorri valda, svo børn þín ein, hér hjarta hrein, megi þig fá, í sælu sjá, og lofa' um aldir alda.

## No. 150.

Lagið: Dauðans þúngu framin qvøl.

Eg er breiskur, misgjørð mér, mildur Guð þó fyrirgéfur, sú umþenkíng þróttinn lér, þegar ótti hugann vefur; nú þarf framar enginn efast, aðstoð Guðs mun breiskum géfast.

2. Sannleiks ljós hans orði í, ei formyrkvast, heilla nýtur, hvørr, sem orði hlýðir því, hjálp og krapt til dygða hlýtur; nú þarf framar enginn efast, aðstoð Guðs mun breiskum géfast.

3. Mildi Faðir! mikli Guð! mér æ syndin leið skal vera; jeg vil heyra Jesú boð, jeg vil trúr hans okið bera; Herra! styrk mitt hjartað veika, hvønær sem í efa reikar.

### No. 151.

Lagid: O Fadir minn! eg þrællinn þinn.

O minn Jesú! mér inngéf þú, andlegt ljós trúarinnar; lýsi þad mér, svo læri' eg gjør, leid sáluhjálpar minnar, svo eilíft líf, eptir heims kíf, eg mætti fá ad reyna; lof sé, Gud! þér, þú léntir mér, lífid og trúna hreina.

---

## 3. Elska og Traust til Guds.

### No. 152.

Lagid: Um daudann géf þú, Drottinn! mér.

Hvad íllt og bágt, sem mætir mér, mín von til Guds sig hefur, minn sem ad Fadir mildur er, manna hjálp øll þá tefur, og einka reynast vinir vest, veita óvinir hatur mest, Gud mig ei yfirgéfur.

2. Þó athøfn besta megi mín, manna álasid bída, Gud! allt er bert fyrir augum þín, eg vil þolgódur lída; þú sjer míns hjarta hulda rád, ef halda mætti' eg þinni nád, þá engu þarf ad qvída.

3. Þó sorg og ánaud sífeldlig, samferdist lífsins døgum; eg gladur er, því Gud! veit þig, gløggt sjá hvad mínum

høgum, er fyrir bestu, mædu med, mitt þú reynir og venur geð, í þínum ad þreya' áløgum.

4. Þó samtøk gjørdu himin, haf, og haudur mér til ama, hættum stædi' eg umspenntur af, og ógn hels í bili sama, en heimur allur hvirsi mér, Herra Gud! samt eg treysti þér, óttast fár ekkért framar.

5. Þú leidir mig um daudans dal, dásamri Fødur hendi, hún minn æ vera skjøldur skal, eg skélsist ei hvar lendi; þrái himin, þó þrevi hér, þú svo kórónu dýrdar mér, í ædstu gledi' afhendir.

## No. 153.

Lagid: Mitt hjarta! hvar til hriggist þú.

O! hvad stór sæla' og yndislig, er mér jafnan ad méga' á þig, minn Gud! traust setja mitt; allur vid lifnar andi minn, er eg íhuga kjærleika þinn.

2. Alls-þurfa mig eg aumann fann, adstoda mig þín mildin vann, ad ebla mín egin not, mér, ó Gud! þín gædsku atlot, gáfu styrk vid kraptanna þrot.

3. Hvørsu ætti þá inndælt mér, ætíd vera ad treysta þér, Gud! máttkur, gódur, vís, sem veitst þørf mína' og vilt mér best, veitir allt til hagsælda mest.

4. Innræt þá djúpt þad edli' í mér, einum fyrir mér trúi' eg þér, eilífi ástvin minn! fyrir mér í sérhvørt sinn, sjái, Drottinn! vísdómur þinn.

5. Já, þú, Fadir! sem alvís ert, allt fær lángt betur vid mig gért, enn óska' eg edur skil; gégn og hlydinn gjarna' eg vil, gánga fram eins og segir þú til.

6. Ástríkur Fadir ertú minn, almátt, gædsku og vísdóm þinn, allt brúkar oss til góds; mitt einka traust í allri neyd, og athvarf skaltú' í lífi og deyd.

## No. 154.

Lagid: Géf þinni Kristni gódann frid.

Hvad sefa lífsins harma kann? hvad þann synduga stoda, þjáda, hrellda og mædda mann, mót daudans edla voda? vér þad gætnir viljum skoda!

2. O! hvad skyldi oss ædra nú, á himni' eda jördu géfast, enn vel grundvøllud vissa sú, vid hvørja mein øll sefast; Guds um nád þarf ei ad efast!

3. Þessi vissa af Gudi gjørd, er grundvøllur trúar þinnar, hvørt sem þú bídur feigd eda fjør, feginn skal þig til minna; hún ein allt kann yfirvinna.

4. Hafir þú Gudi elsku á, einlæga, vissa, heita, hans þecking' girnist hollri

ná, hans velþóknunar leitar; hann þá ei um náð þér neitar.

5. Leitist þú við, sem mest að mátt, með öllu hugar-fari, að líkjast Guði á allann hátt, æ verða fullkomnari, góður, vitur, Guði' líkari.

6. Þettað allt er þér vottur víss, að vísa náð hans egir; en öll skin-helgin útvortis, enga þér huggun segir; varast hún þig véla megi!

7. Ástunda, víss að æ þú sért, um Guðs náð hvörju sinni, lát þá viðleitni leynt og bert, lífa í sálu þinni; ást hans ertú æ í minni.

8. Á gleði stund, sé yndi þitt, að náð Guðs megir halda; sú von í öllum sorgum miðt, sælu umbunar gjalda, hér og síðar víst mun valda.

9. Og þegar dauðans ábli mót, áttú loks stríð að heja, hvörsu lífs-kröptug böls er bót, brygðulaust kunna segja: víss um Guðs náð vil eg deya!

## No. 155.

Lagið: Gléð þig, Guðs Sonar brúð.

Því skal mér veiklast von! veit eg Guðs mildi Son, er með oss allar stundir, ockar senn verða fundir; óskélfð mín augu mæna, á hann í qvaki bæna.

2. Um heimsins gledi og glis, gédjast mér eins og fis; skjótt missi' eg skemt-un slíka; skimp met eg hans vidlíka; þad má létt hýsmi heita, hjá því eg eptir leita.

3. Leggi Gud ok mig á, og harda rauna þrá; ó! eg vil eckért kjæra; eins má þad heill mér færa; skal mér ei líka' ad lída, ljúft, nær hann vill, hid strída?

4. Sál og hold fjør og fé, fjarlægt er mitt ad sé; þú, Gud! átt þad, sem lédir, og þótt snarlega rédir, líkamann lífi sneyda, lof þitt eg vil útbreida.

5. Daudinn ei deydir oss, dýrdar ei-lífrar hnoss, hann gjørir hrjádum færa, og hvíld í grøfum væra, and-streymi, eymd og mæda, engann þar megna hræda.

6. Nær endast tímans tóm, med tign og hvellum róm, vor Jesús Krist-ur kémur, kjær minn Frelsari nemur, mig í dýrd, þá ei þrotnar, þar hann um eilífd drottnar.

7. O! skyldi' eg orvýlnast? ó nei, eg trúi fast, míns Jesú øllum ordum, er jafnan standa' í skordum! þú ert minn, þér eg treysti, þinn er eg end-urleysti.

## No. 156.

Lagid: Heimili vort og húsin med.

Hvad er sem letur hjartad mitt, til himins veg þann keppa, ó minn Drottinn! sem ordid þitt, á leidir mig, svo hreppa, sái þar líf og fulla nægd, frí vid óvina makt og slægd; hvørr vill því hnossi sleppa?

2. Er Jesú ok svo ysrid hardt, og ofþúngt kroptum mínum? heimtar þá Gud svo mikid og margt, mildum í bodum sínum? ó nei! minn best þú kénnir krapt, kjærsti Fadir! sem mig hefir skapt, og krapti audgad þínum.

3. Í holdi, Jesú! holdir þú, þá sjálfur freistni alla, er huga minn vill hindra nú, og honum þúngbær falla; þú vorkénnir því veikum mér, vilja þá fúsann hjá mér sjer, þó framqvæmd finnir halla.

4. Elskan þín trúføst eblir mig, og útbýr krapti neytum, hvad sterkur verd eg þá fyrir þig, þeim il gjæddur svo heitum! ó! hvørsu var sú ást þín sterk, er þreif mig burt úr daudans qverk, med písl og þúngri þreytu!

5. Æ! skyldi' ei þinnar ástar glód, uppverma sálu kalda, ad hyllast bod þín holl og góð? hvad kann eg annad

gjalda, verdugra lof enn feta fús, feril þann, semgéckst, minn Jesús! og baudst mér eptir halda?

6. Þessvegna gégnum þreyngi sér, þín elska sálu mína! uppmálud standi æ fyri mér, ást þín, harmqvæli' og pína! ó hvörsu finnst þá inndælt mér, ef elska' eg þig, ad hlýda þér, þá gjørvöll þýngsli dvína.

7. Mót allri heims og holdsins lyst, hér af verd eg øbiugur, sú trú, ad feckst mér fridar víst, sót minn styrdur; þinn dugur, í mér breiskum sig øblgann tér, allt megna eg, nær hlýdi þér; þar vid minn hressist hugur.

8. Allt hvad mig brestur, baudstú mér, med bæn, ó Gud! ad sækja; þín Fødurmildin opin er, ef eg þín bod vil rækja; andvarpan fer þá engin mín, án bænheyrslu frá stóli þín, hvad kann þá hug minn flækja?

9. Eptir þad stríd, sem eg skal hér, í þínum krapti heja, á eg í vonum þar hjá þér, þegar eg trúr næ deya, eilífa unun, eilíft hnoss, inndæll sé mér þvi sérhvørr kross; hvad létt er því ad þreya?

10. Já! breiskt er hold mitt, heimur flár, hætt skeidid, tæp mín gata; en, Gud! þíns anda kraptur klár, kann

mér aldrei að glata; æ svo lengi eg elska þig, ødlgari vill hann gjøra mig, lætur veg réttann rata.

11. Allir samhuga einum þér, auðmjúka lofgjørð segjum, af fúsu hjarta allir vér, undir þín boð oss hnegjum, sem holl og létt eru hvør um sig, hjástoðar, Drottinn! beiðum þig, og þolinmóðir þreyjum.

## No. 157.

Lagið: Gæðskurskasti græðari minn.

Svo skal ei framar nockur neyð, né heldur þessa líkhams deyð, mér frá þér megna' að venda; ó Drottinn! eg er ástkjær þér, elska vil eg þig stødugt hér, en annars heims án enda; send mér, sem þér, þóknast gleði, þjáníng meður, þig alvísann, eg vil þó jafnan í øllu prísa.

## No. 158.

Lagið: Guðs Son kallar: komið til mín!

Allt mitt ráð til Guðs eg set, á mér sinn vilja verða lét, mér bið eg hans miskun hlífi, heilsa, vit, líf, sál, heiður, fé, hans vernd jafnan befalað sé, nú og í eilífu lífi.

2. Minn auðnu hag svo opt og þrátt, ástin þín, Guð! viðrétti brádt, er and-

varp eg þér senda, verdi því á mér vilji þinn, vel muntú, hjartans Fadir minn! leida mig allt til enda.

3. Hér ad auk bid eg, Herra Gud! hjálp mér ad geyma vel þín bod, og þeim eptir ad breyta, þolinmædi eg byggja vil, og þeim vægja, sem gjøra mér til, virdst' mér nád þar til veita.

4. Hvad verdur mér ad meini þá, máttugur Gud mér stendur hjá? hvad kann mig þá ad þrjóta, er sá hjálpar úr allri naud, øllum sem géfur daglegt braud, og sælu med sér ad njóta?

5. O Herra Krist! mín hærsta von, hvørki luckunnar gjøf né tjón, láttu mig frá þér leida, nád þín ávaxti vora trú, vid synd og qvølum forda þú, og géf oss útfør góda.

## No. 159.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor Gud.

Þú ert minn Gud, ei óttast eg, og ei skal heyrast qveina, þótt eg færist um byrna veg, þína stjórn sje eg eina; vísslega veit eg nú, vid mig ad breytir þú, æ huggar mjúkast mig, miskun þín foburlig, er eg svo opt fæ reyna.

2. Þér og nád þinni mig og mitt, minn Gud! eg fel á hendur; allt hvad eg hefi, þad er þitt, þínu í valdi stend-

ur; þín stjórn mér þægust er, það bezta viltu mér; ó Herra gjæðsku-gjarn! til góðs fyri þitt barn, meðlæti og mæðu sendir.

3. Guð fær ei sínum gleymt, í hrygð, géð mitt sá þánki nærir, von, sem á orð þín er uppbygð, aldrei kinnroða færir. Burt ángist øll og sorg! ørugg er Guð mín borg; vel eru gjørð hans verk, ver mig hans geymsla sterk, og til farsældar færir.

## No. 160.

Lagið: Guðs Son kallar: komið til mín.

Mitt traust á Guði glaðvært er, Guðs náð býðst fyrir Jesúm mér, eg von lífs eilífs hefi, oss í náð taka aptur vann, og arf hefir í sælu-rann, með sínum Syni géfið.

2. O Herra! hvílík heill það er, hlutfall ega með sjálfum þér, náð þína' og himin hljóta, með trú af hreinu hjarta þig, heitt að elska og vita sig, alls góðs af þér að njóta.

3. Orð þitt eg glaður uni við, innvortis styrk og sálar frið, hvørt sanntrúuðum heitir; það huggar lífsins hørmúng í, heill í meðlæti vex af því, hugprýði í háska veitir.

4. Viðhaldt mér, Drottinn! hjálpráð mitt! í hreinni trú á orðið þitt, nafns þíns og náðar vegna; lát það upplýsa veg minn vel, væga gjøra þá dregst að hel, andlátsins mæðu megna.

## No. 161.

Með sínu lagi.

Mitt hjarta! því svo hryggist þú, í harmi' og trega velkist nú, fyrir valtann veraldar auð; set þína trú á sannann Guð, sem øllum géfur daglegt brauð.

2. Yfirgéfa þig ei vill né kann, alla þørf þína þeckir hann; hans er himin og jørð. Minn ljúfi Faðir og mildi Guð! mér sendtú hjálp í allri nauð.

3. Þú ert minn Guð og Faðir kjær, þitt barn ei yfirgéfið fær; ást þín er mjúk og mild; annað, þá mæðir tymdin hørð, eckért hefi' eg traustið á jørð.

4. Ríkur af gótzi gledur sig; Guð minn! við þig eg hugga mig, eg þó óvirdtur sé; það er mín trú og eflaus von, að stoð veitir þínum þjón.

5. Þitt ríki, Drottinn! þrýtur síst, þitt vald er stødugt jafnan víst, á þér er allt mitt traust; eilíft gótz hefir eckért tál, auðga með því mína sál!

6. Stundlegann heidur eg hugsa' ei á, himneskann vildi' eg gjarnan fá, hvørn Jesûs hefir keypt, med sínum dauda' og dapri pín; Drottinn! bid eg, heyrdú til mín!

7. Allt þad verøldin er af full, eignir, góts, silfur eda gull, stundlegt skraut og skart, lítinn tíma þad lanad var, líknar ecki sálunni þar.

8. Jesú, Guds Son! eg þacka þér, þessa vitsku þú kénndir mér, og Guds ad gánga' á veg. Veit mér stødugа von og trú, vænst er sálu huggunin sú.

9. Løf og heidur á hvørri stund, hærsti Gud! sé þér á alla lund, þig Fadir! þess eg bid, eilífann géfur oss andar frid, og arf himins, þá skiljumst hér vid!

## No. 162.

Med sínu lagi.

Hvørr sém ljúfann Gud lætur ráda, líka vonar á hann ætíd, vill þann Drottinn vernda og náda, víst þó ad dynji neyd og stríd. Hvørr sem vid Gud sér heldur tryggt, hús þess er ei á sandi byggt.

2. Hvad stodar oss med hrygd ad klaga? hvad stodar oss vort óp og vein? hvad hjálpar oss þó alla daga, ángra látum oss sorgar-qvein? skál

vors mótgángs, sem afmældr er, aukum með harmi sjálfir vér.

3. Bíð, kristin sál! um stund í stilli, stöðva þitt geð, svo lyndi þér, að Guðs náðar vild á þér fylli, alvitsku hans hvað þekkast er; Guð, sem hefir útvalið oss, opt til farsældar sendir kross.

4. Fulltreyst, og Guðs þíns gack á vegi, gjör öll þín verk með dygð og trú; um blessun Drottins efast eigi, aldrei mun þér þá bregðast sú; hvörr sitt traust á hann setja vann, á sanni ecki bygði hann!

## No. 163.

Lagið: A Guð alleina.

A Guð eg einann, alla set von og traust, vil með hug hreinann, hann dýrka endalaust, í geymslu' og gjætur, Guðs eg önd mína fel; frá hrösun fætur, frelsar hann mína vel, og í ljósi lætur, sitt ljúfa ástar þel.

2. Sekt synda þúnga, Son Guðs fyrir mig galdt, hann hjarta' og túnga, heiðri og líf mitt allt, ef eg hans boði, ætíð trúr hlýdnast vil, alls enginn voði, önd minni' er skjæður til. Hans mig hjálp adstodi, við heiminn þegar eg skil.

3. Þér lát mig þjóna, þú mildi Herra og Guð! vel við að una, veg

þinn og stunda boð; að mig ei ginni, illrar veraldar slægð, né vondt eg vinni, svo verði náð frá-bægð; haf þá mig í minni, um mildi' er bið og vægð.

4. Þú mig hughreystir, í hvorskyns sorg og neyð, sem svo dýrt leystir, með Sonar þíns pínu' og deyð. Hvað má við meta, það mæti? allt eg á; hvað mig hrellt geta, sem himina frið vann ná? þinn Son varð sigur-hetja, og sigur gafst mér þá.

5. O Jesú! eina, athvarf og vonin mín! lát mig lífs beina, leið þræða' í dýrð til þín; ei óttast nái, í gröf síst staðar nem, þig dauði' eg þrái, þú vel mig leiðir heim, svo Guðs eg sjái, sælu í dýrð þá kem.

6. O æðstu gleði, er eg þá Jesúm finn! með gæðsku geði, Græðari talar minn: kom, maður mæti! hjá mér um eilífð tef, í sóma sæti, sem eg þér búið hef! æðsta eptirlæti, ó Jesú! það mér gef.

## No. 164.

Lagið: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

Burt með heimsins ónýtt yndi! ei er veröld mér svo kjær: aldrei fannst þar leika' í lyndi, lángvinn tign, né ró glaðvær; allur í hæð-er hugurinn, hefur sig þángað andi minn; helzt til létt

er heims ágjæti, himin=sælu þýngd ad mæti.

2. Gjørvallt vil eg gladur affegja, Gud minn! þad sem stundlegt er; minn skal enginn hlutur hnegja, hug, frá skyldu, dygd og þér; þó ad heiminn ætti eg, en útibyrgd frá dýrdar veg, sál mín gengi villt í voda, vildi lítid þitt mig stoda.

3. Gud af øllu gódu ríkur! gnótt eg á, nær hef eg þig, eg veit frá mér ei þú víkur, alvøld hønd þín leidir mig; ef þá kann ad mæta mér, mein, sem þúngt og biturt er; þó eg í hljódi þykist lída, þitt er ad bjóda, mitt ad hlýda.

4. Gégnum lífsins eymd og ama, ánægdur eg þreyti gáng; augad horfir trúartama, til þess lífs, er veit í fáng; sønn hvar gledi' og sælu hnoss, Sonar þíns gjøf er búin oss, sigur, frid og sæld um aldir, í sitt hlutskipti fá útvaldir.

## No. 165.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi.

Alvaldi Fadir allra þjóda! á þig treystir mín frelsud ønd; eg fel mitt líf og allann góda, í þína mildu verndar hønd; alvísi Gud! best allt þú sjer, er til velferdar gagnar mér.

2. Auga mitt sljó-skygnt er mjøg tíd-
um, um skammt hugur og dugur þver,
en þú, sem stjórnar øllum lýdum, aptur
hug og dug gefur mér; best hagar øllu,
best þú sjer, børnum þínum hvad gagn-
legt er.
3. Opt, þá mitt hjarta ángist reirdi,
óttafullur var naudum í, mína and-
vørpun minn Gud heyrdi, mér qveikti
gledi-ljós á ný; svo vís og gódur enn
hann er, ætíd gætir hann vel ad mér.
4. Eg fel, minn Gud! í umsjá þína,
allann velferdar minnar hag; mér vann
Jesús þinn Sonur sýna, sannrar
manndygdar háttalag; ó! ad eg þyldi
eins og hann, andstreymi hvørt, sem
mæta kann.
5. Omegi daudans ei skal qvída, eg
þó ad bleikum verdi ná, af því Frels-
arinn allra lýda, er vinur, sem mig dæma
á; svo sem hann mína eg fel ønd, ó Fad-
ir kjær! í þína hønd!

## No. 166.

Med sínu lagi.

Hvørr sem ad reisir hæga bygd, hærsta
Guds skjóli undir, í geymslu Drottins,
og gleymir hrygd, gefur sig allar
stundir; sá talar vid Gud: þú tókst vid

mér, treysta vil eg því gjarnan þér, og unna' á allar lundir!

2. Vel mun og Drottinn vernda þig, fyrir vélum alira handa, þó skadleg hætta sýni sig, síst mun þér kunna' ad granda, hans vernd og skjól svo hlífir hér, í hvørri neyd hann sendir þér, sinn styrk og hjálp til handa.

3. Svo mun'og líka sjálfur Gud, vel sjá til þín og leida, á vegum þínum þér veita stod, og vernda øllu til greida; frá þér burthrínda háska' og pín, ad hvørgi nái þú fætur þín, á minnsta steini meida.

4. Hvørn sem ad lángar mjøg til mín, (mildur Drottinn svo kénndi), hann skal eg leysa' af skada' og pín, og skýla med verndar-hendi, bænheyra hann og hjálpa' í neyd, honum loks géfa varann deyd, og líf, þó æfi endi.

5. Lífdaga hans eg lengja skal, og láta þá ei bradt þrjóta, en hjá mér upp í himna sal, hann mun fullsælu njóta; þar sýni' eg honum mitt hjálpar-rád, hjartans unun og fulla nád, svo umbun fái' hann fljóta.

## No. 167.

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

Fyrir þig, Gud, sem veldi vídu, vís stýrir Alheims! fram eg ber, af klöcku hjarta þackir þýdar, þygg gladur kjör, sem léntir mér; ástríka Födur-þelid þitt, þecki' eg vid sérhvört sporid mitt.

2. Sinndælt skart þú ár hvört klædir, ótolu blómstra', er haudrid ber, frjóssamri döggu grundu grædir, gleymist ei minnsta stráid þér; skyldir þú géta gleymt mér þá, gædsku þína, sem treysti á?

3. Nei, hjartad gleyma má fyrr módur, mót edlis bodi, fóstri sín', enn þér, líknsami Gud minn gódur! gleymst fái velferd sanna mín; þolgódur lífs eg þreyti veg; þú ert mín hlíf, ei óttast eg.

4. Eg óttast ei þá eymd og pína, á heims-vedhlaupi varpast mót, sorga ör djúpt þó sálu mína, særi, veit eg minn leiddir fót, þess vegna fram á þrauta stig, ad þú, minn Gud! leidréttir mig.

5. Vongódur svo minn veg eg feti, veikann upplífgar huga þú, ad traust á Jesú ord eg setji, um dýrd med þér, þó lídi eg nú, minn Gud! á himnum þar hjá þér, þar eg fullsæll um eilífd er.

6. Líknsami Fadir! Gud minn gódi! géf þessi orugg von til þín, hvad sem kann mæta heims um slódir, hverfi' aldrei úr brjósti mín; þá gefur, sviptir, Gud minn! þér, gjörir þú allt til besta mér.

No. 168.

Lagid: Rís upp, mín sál! ad nýu nú.

Á þér, Herra! hef' eg nú von, hjálp, svo eg eigi verdi' ad smán, hér eda' í þinu lífi, frelsa þú mig, þess beidi eg þig, þín ást mér ætíd hlífi.

2. Bænheyr þú mig af mildi nú, miskun og nád enn til mín snú, flýt þér fulltýngi' ad veita; þá stend og bíd, í stórri neyd, styrks hjá þér einum leita.

3. Hjálp ert þú mín og hlífdin trú, heilagt ord þitt er verja sú, er øllum eydir vanda; þá Herrann Gud, er hjá í naud, hvørr kann þá móti' ad standa?

4. Eilífi Gud! ei vík frá mér, anda minn befala eg þér, medtak hann þér til handa, ó Herra trúr! eymd allri úr, leys mig þá lífid endar.

5. Herra eg flý í þraut til þín, þú einsamann ert adstod mín, huggun og hjálp mér sendir, mín tíd og stund, eign, líf og ønd, allt er í þinni hendi.

6. Heidur og lof sé, Herra! þér, sem hefir óverdugum mér, hjálpad í hørdu

kífi, og hétst af náð, óhultum stað, í því komanda lífi.

7. Allir trúaðir elskið Guð, oss vill hann frelsa' úr hvørri nauð, einkum þá honum hlýða; hof-móðugt geð, vanheiður með, hegníngu' án efa bíða.

8. Þar fyrir hafið gladvært geð, Guð prísið huga' og raustu með, allir sem eptir honum, bíðið um stund, því ydar ond, úr þúngum leysist raunum.

9. Føður, Syni og Anda nú, æðst lof og dýrð af hug' og trú, sýngjum vér allir saman; veit þú oss, Guð! fylgi og frið, fyrir Jesúm Kristum, Amen!

## No. 169.

Lagið: Náttúran oll og eðli manns.

Verði ætíð hvað vill minn Guð, vild hans er æ hið besta, vís er þeim jafnan vernd og stoð, við hann er sína trú festa; hann hjálpar trúr, eymd allri úr, agar verøld í máta; þann á honum traust, hefir efalaust, ei vill né kann forláta.

2. Herra Guð traust og heill mín er, hjálp, von, líf, eilíf sæla; hvad sem hann vill, það verði mér, vil eg því ei mótmæla; hans mildi klár, mín høfudhár, hefir øll talið án efa; hvad hann

mér fá, best henta sá, hann vill af náð mér gefa.

3. Þar fyrir auma veröld við, vil eg fúslega skilja, til míns Drottins í fullann frið, fara eptir hans vilja; fel mína önd, í föður-hönd, hvört farsæld bíð eður voða; hans ástar hel, mig verndar vel, og vill í dauða stoða.

4. Súngin sé þökk, heiður, sæmd og lof, sé Föður allrar mildi, sem út fyrir oss Soninn gaf, synd heims að bæta skyldi, og á hann hlóð, æ, mannleg þjóð! átt það í minni festa; því hugsa tíðt, og þacka blíðt, þá náð og elsku mesta.

No. 170.

Lagið: Herra Guð í himnaríki.

Vertú, Guð Faðir! faðir minn, í Frelsarans Jesú nafni; hönd þín leiði mig út og inn, svo allri synd eg hafni.

## 4. Elska til sjálfra vor og Náúngans.

No. 171.

Lagið: Kom Skapari heilagi Andi.

Nösöm samvitska' ef er að eins, eign mín, hvað kann þá blöskra mér?

hvad fær þá ordid mér til meins, megn þegar qvídi adra skér?

2. Flecklaus samvitska' og falslaus trú, farsælust hlutdeild mín er þá, þeim fridi', er gefur sæla sú, svipta kann enginn mér í frá.

3. O hvílík gledi! sagt vid sig, med sanni géta': eg í mér fann, girnd til hins ílla, geymdi' eg mig, Gudi sé lof! eg yfirvann.

4. Æ! hvörsu þúngt um sjálfann sig, ad segja hljóta þar á mót: á lasta vondann villu=stig, viljandi minn eg setti fót!

5. Upp til Drottins med hjarta hreint, ad horfa' og segja: Gud minn! þú, ert æ mitt athvarf ljóst og leynt; hvør lucka veitist stærri' enn sú?

6. Sjá! allt hverfur, þig helid burt, hédan senn flytur, daudans flein, hvad sljófgar? hann fær hægann gjørt, hugar rósemd hjá Gudi hrein.

7. Sæll, kristni madur! sem ad hér, sálar ró þessa finnur hjá; því sjálfur daudinn hana hér, hrakid fær ecki burt þér frá.

8. Sá hinn gudhræddi segi því: sjór, himin, lønd og sképna hver, sambland

þó fyrsta falli í, føður-hønd Drottins líknar mér.

No. 172.

Lagið: Til þín heilagi Herra Guð!

Guð! mig skóp ást þín mildilig, að mætti eg sælu njóta, ef eg trúfastur óttast þig, óttast þín lög að brjóta; vandi eg hjarta' og verk mín hér, vottar samvitskan þetta mér; hún kann afsaka' og bóta.

2. Inndæla jafnan andar-fró, eg finn mitt hjarta kjæta, nær vilja Guðs í veikleik þó, viðleitast hlýðinn sæta; samvitska unun sanna hér, sífeldlega því géfur mér, ef skyldu gjöri' eg gæta.

3. Og þessa gleði, yndi' og fró, eckért kann frá mér taka, hreinskilni mín er hulin, þó, hugsun þá læt eg vaka, að Guð, minn Guð, allt gjörla sjer, Guð mín umbun og Faðir er; hún lífgar, hún afsakar.

4. Æ! góði Faðir! einatt þig, eg styggði margvíslega; samvitskan þá ásakar mig, sál fylliſt blygðun, trega; óró, nagandi ángist mér, eptirfylgir hvar helzt eg er, og offækir alla vega.

5. Já, þó eg hjartans freisti' að fá, fordæming niðurkafið, heims úti glaum mér gjöri slá, að gleymsku brot sé vafið;

sú værd er engin sálar fró, svipula huggun von sú bjó; síst fékk hún hug minn hafid.

6. Þann fögnud veitt, er vara má, víst ei heimurinn getur, nær endalokin eptir á, íhugar sál mín betur, eg fæ þess þá med undrun gád, ad girnda leid er blómi strád, en í óheill mig fletur.

7. Æ! lát þá þetta, gódi Gud! mitt gjörvallt hjarta hræra, ad þín eg stundi ástrík bod, med alúd geyma' og læra; Fadir! sú ein mín farsæld er, nær fús kappkosta' ad þóknast þér, dygd ydka' og dád þér kjæra.

## No. 173.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín!

Dygda veg leid mig, Drottinn! á, og dygda settu marki ná, styrk mig þess gá og gjæta! hversi mér nád þín, Herra kjær! heims þessa gledi engin nær, mér þann missir ad bæta.

2. Æ! þegar glæpa ann eg lyst, úr mínu hjarta burtu mist, sönn gledi fer á flótta; og þá rennur í þánka minn, þad eg skal fyrir dómstól þinn, ángradur skélf af ótta.

3. Kénn mér, ó Gud! sem gjætir mín, gánga fram eptir bodum þín, ord-

ugar lífsins leidir, samvitskunnar þá frid eg finn, og fögnud eilífann, Drottinn minn! er þú útvøldum greidir.

No. 174.

Lagid: Hvar mundi vera hjartad mitt.

Lífs reglur hollar heyri menn, er himna sæld girnast ná; dauda eilífd og dóminn enn, daglega þenkid á, nærsta mjøg þetta nálgumst senn, naum er lífs stund ad fá; lagi því hvørr svo lifnad sinn, ad lendi hann Gudi hjá!

2. Ovíst er þad hvørt úngur mann, elli-døgunum nær; ydrun sendi því úndan hann, ádur enn daudinn slær; margur hastari helstund fann, heldur enn meintum vær; lík í dag máské kallast kann, sá Kóngur lifdi' í gjær.

3. Voga þú ei fyrir vinskap manns, ad vinna hvad órétt er, því Guds er eins, en ecki hans, yfir ad dæma þér; þeim hylli Drottins Dómarans, daglega ebla sér, þá reikning heimtar lýds og lands, linkind í málum ter.

4. Ottastú Gud og unn, sem ber; annast náúnga þinn; óvin, þolugur, íllt ei gjør, øllum vert gódvikinn, lát ætíd nockud ágengt þér, áfram dygda vegiun; Drottni lifir, þá deya fer, sá deydir vilja sinn.

5. Umgengni þína' og athøfn best, allskonar dygdum prýd; þolinmódur þá veitir verst, vidmóts hegdan sé blíd; allt sem þér dag hvørn yfirsjest, ydranin bæti þýd; en þad þú margt gott ógjørt létst, ángri þig fyrr og síd.

6. Stunda þú svo ad vera víst, sem villt ad haldin sért, annars heims fylgir oss þá síst, utan hvad høfum gjørt, í Herrans augsýn hvørn dag fyrst, hér svo rádvandur vert, ad þú ei skelfist þó af Krist, þá dæmist eins og ert.

7. Set þér lifnadar leidrétting, lífs medan audid er; sá heimsins varast vélin slíng, vel-þócknast Gudi fer, þacklætis er þad áminníng, ef sæld hann gefur þér, en hitt ydrunar uppvakníng, ef þú mótlæti ber.

8. O Drottinn kjær! sem sjálfur sjer, þá sælu er girnumst fá; vertu oss nær, svo vinnum vér, vilja þíns jafnan gá; þín dýrd einskjæra heidrist hér, en himnum sídar á, sjáum þig vær og sýngjum þér, sigur-vers englum hjá.

## No. 175.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín.

O Gud! hvad reikna manninn má, mót þér almættis tignin há, er sképnu

alla nærir; ó hvørsu mikil er mín rírd, er eg hugleidi þína dýrd, sem leyptrar ljósi skjæru!

2. Af her Guds engla himnum á, hinn allra mesti' er lítill hjá, Skapara sjálfum sínum; en eg hjá þeim? nær eckért er, ágjætid mitt, þad fyrir ber, skjótt líkast skugga mínum.

3. Géf, Herra! ad eg æ hvørt sinn, allann vidkanniſt breiſtleik minn, og stundi audmýkt læra, eins og Lausnarinn ljúfur hér, lífs og deyandi kénndi mér; þér, Gud! ber einum æra.

## No. 176.

Lagid: Kom Skapari heilagi Andi.

Þú klagar! bøl finnst þúngbært þér, þess stands, er snaudur lifir í; hnoss stundar luckn stærri' og sier, stundar forgéfins eptir því.

2. Hvad viltú syrgja, hví med grát, hjarta þitt særa' og vyli hér? mun þad æ heill, vel géf ad gát! sem girnd vors hjarta dró ad sér?

3. Neyt þess, sem skamtar Gud þér, gjør, gjarnan hins sakna', er ecki fær; sína þraut hafa sérhvør kjør, sérhvørjum hag sitt yndi grær.

4. Drottinn á allt, útbýta bjørg, best med vísdómi sønnum kann, ecki

sem ósk er óþorf mørg, en þó sem hvørjum hollast fann.

5. Viltú voga að þenkja: þér, þá hafi gleymt ástríkur hann? þó að til góðs ei vinnum vér, veitti hann heill í sérhvørn rann.

6. Syð þú lífinu ecki með, ánægjulausu výlí þá, þitt ræktu kall, haf glaðvært géð, gjør lífs-tóm nota best, sem má.

7. Drottinn! allt ástand mitt og mig, með gløðu sinni fel eg þér, ánægður feta æfi stig, aðstoð þín jafnan fylgi mér.

## No. 177.

Lagið: A Guð alleina.

Til auðs er eydist, af møl og rydi hér, géf, Guð! ei leiðist, girndir hjartans í mér; en upp í hæðir, augun mæni til þín, sem géfur gjæði, gjørvøll og forðar pín, þørfina' þvíað bæði, þú veitst og fyllir mín.

2. Agirndin arga, eitruð er lasta rót, fæðir mjøg marga, misgjørð og dæmin ljót. Sá má sæll heita, sem nægir lánið téð, og yðju neyta, í kalli byggur réð, best minn blessa sveita, blíði Guð! ánægð með.

## No. 178.

Lagið: Mitt hjarta hvar til hryggist þú.

Himneski Fadir: høndin þín, helgi og blessi verkin mín, øll svo ad þóknist þér, áhyggju mig íllri ver, øllu grandi forda þu mér.

2. Eg legg í þína líknar=hønd, líkamann bædi' og mína ønd, treystandi á þig einn, gef, ad eg sé hjarta=hreinn, hafki svó mig villi ei neinn!

## No. 179.

Lagið: Einn Herra eg best ætti.

Þig, Gud! sinn fødur þeckja, þad eitt eg gledi fann, hvørr hatur brjóst lét bleckja, barna=rétt missir þann; í dygda fótspor feta, Frelsarans, hjálp' oss vel, og innbyrdis audsýnt géta, ástúdlegt brædra=þel.

2. Einn þú, Gud upphædanna! í eitt hattst menn um heim; einn er ættar=stofn manna, einn andi býr í þeim, allir þér óst framberum, allra bæn heyrir þú, allir kalladir erum, ad einni von og trú.

3. Ætti' eg þá einkis vyrda, eindrægnis handid téd, og hróp míns hjarta myrda, en hafa tvídrægt géd? nei! þó mitt særi sinni, svik og ráng=

indi hér, allt það með aðstoð þinni, uppgef eg, sem þú mér.

4. Láttu þitt orð og Anda, upplýsa huga minn, svo efla vilji' eg vanda, velferð bræðra hvørt sinn, og styrk mig æ að géta, að dæmi Lausnarans, kjærleikans feril feta, til fyrirheitna lands!

No. 180.

Lagið: Hvar mundi vera hjartað mitt.

Guð! þín stjórnan er gjæðska' og náð, góðs hún sérhvørjum ann, falslausrar elsku edla dáð, ætíð þér gédjast vann; ófundar hreckvíst íllsku ráð, eg þér gagnstæðast fann; veit að míns hjarta gjæti' eg gáð, glæp svo eg varist þann.

2. Því skyldi' eg svipta sjálfann mig, sannri ánægju og ró? skyldi eg møgla þora við þig, þig, gjæðskan! réttvís þó? misgjørð mín ljót og margfaldlig, maklegt sér straff tilbjó, en gladdi ást þín guddómlig, er glæpa straff undan dró.

3. Skal það øfundar olla', að þér, eins fer við bræður mín? skyldi mér gremjast gjæðska' að er, Guð minn! hvørs ást mér skín? veit eg þó nockurn verri mér? varðveiti náðin þín, sál' mína, Faðir! svo ei hér, særi øfundar pín.

4. Minn Jesús hefir sjálfur sett, sína þad merki á: elskid hvørr annann utan prett, øfund burtsneydid frá! ó hvørsu inndælt, hvørsu létt, hans bodord finnast má, hvørjum hans ást í huga rétt, hans eptirdæmis gá!

5. Inngéf þú mínum anda þá, ó Drottinn! vilja þann: ad unna góds og gledja' ef má, med góðvild sérhvørn mann, afvenda skada, ángri, þrá, ástríkur hvar sem kann, en eitrada gledi aldrei fá, af sorg, er bródir fann.

6. Þó sýnast kunni' hann sælli mér, síst skal eg nafn hans þó, baktali sverta, er sárt hann skér, og sumum dauda bjó; æ Drottinn! mínar varir vér, svo varist ad spilla ró, lát mig þenkja: hvad þúnga sér, þraut opt skjæd túnga dró.

7. Géf eg þacklátur þína nád, þyggi og gjædin léd, øfundarlaust svo géti gád, góds, er fær ødrum téd; Andi þinn hafi' yfir mér rád, og elskuríkt veiti géd, svo banvæna øfund burtu mád, best géti' hans krapti med.

## No. 181.

Lagid: Nú bid eg: Gud! þú nádir mig.

Nádvanda þánka' og hjartad hreint, Herrann géfi mér ljóst og leynt, fláráduw heimsins flærdar sid, forda

mér, Drottinn! þess eg bið, innrættu mér það áform hjá, øllum góðfýsi' og kjærleik tjá; lát mig framganga falslaust hér, svo fái' eg dýrðar vist hjá þér!

## No. 182.

Lagið: Dauðans þungu framin gvøl.

Veit, ó Guð! þín gæðska mér, gjøri ei úr þánka renna, að líkjast og þóknast þér, þú mér sjálfur vyrðst að kénna! ætti' eg hatri íllu' að leyna, er þig mildann féck að reyna?

2. Blíðúr Faðir allra ert, allír børn þín nefnast megum; ef ei bræður elskum bert, er: þíns kjærleiks von ei egum. Elsku Jesús af oss krafði, ást að deyð sem til vor hafði.

3. Synd uppgéfur þú mér þrátt, þú afmáir íllgjørð ránga; hvørr er eg, sem bistur bráðt, bróður við í rétt fer gánga? synd ef viltu meta mína, eg mun ei standast hegníng þína.

## No. 183.

Lagið: Jesú Kristi! þig kalla' eg á.

Unn þú oss, Guð! að elska frið, á meðan lífa fáum, að í bróðernis sómasið, samlyndir vera náum, Anda þíns krapti út oss bú, að Jesú líkjast képpum, og ást ei sleppum, að bræðra gagn vér eflum nú, og þína blessun hreppum!

## No. 184.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Kjærleiks verk, sál mín! keppstú vid, kristnum sómir ástunda frid, þar sídar egum børn Guds blíd, búa saman um alla tíd, til eindrægni skaptir erum vér, eindrægni því oss rækja ber.

2. Eins Herra þjónar erum vær, eindrægni stundum nær og fjær, allir samhuga í ást og trú, innbyrdis skul-um lífa nú; ó Gud! tendra vorn elsku eld, med Anda þínum fyrir Kristi skuld!

## No. 185.

Lagid: Gud miskuni nú øllum oss.

Láttú mig, Gud! sem líf gafst mér, í leti aldrei falla, heldur vel ydja hvad sem ber, hvørt sem þú vilt mig kalla, ydjuleysid brátt orsøk er, til armóds, vansa' og klækja, víslega baudst því, minn Gud! mér, mitt braud af ydn ad sækja, þá skyldu rétt ad rækja.

2. Styrk, svo ørþreytist mitt ei magn, mædan af von því léttist; verk-ydinn þegar vinn eg gagn, von þeß' eg líka' ad mettist; hérvistar brúka hjálp mér tíd, haggvæmast farsæld minni, og veit þad luckist ár og síd, upplífga þol og sinni, ávalt med adstod þinni!

## 5. Jesú Eptirbreytni.

### No. 186.

Lagid: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

Lofgjörd, þackir, eilíf æra, endurleystra hjálpar von, þú sem gjørdir þig fórnfæra, þér sé Guds eingétni Son! kenn þú, Jesú mildi! mér, medan lifi fylgja þér, lífs svo réttann gáng eg gjöri, gladur jafnan þar af veri.

2. Þó eg krossi þjáist strídum, þér afneita lát ei mig; gráts á jafnt, sem glediltídum, géf mér styrk ad elska þig; elska þig til enda lífs, og í þrautum stundlegs kífs, þørmúng þína hafa í minni, huggi þad mitt dapra sinni.

### No. 187.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Oss ber kristnum orku neyta, áform hefja nýjum dug, eptir Jesú allir breyta, ástundum med lyst og hug; hlýdum bodum hans, er leid, til heilla oss í lífi' og deyd, hvørr skal ødrum elsku veita, almenníngs farsældar leita.

2. Sé oss steypt í sorg og mædu, af sjálfum þeim, er gjørdum gott; vél þó

brugga vinir nædu, og verdi launin dygda spott, eptir Jesú högværd hér, hug ad laga girnumst vér; ótraudur sá Frelsarans fetar, feril, hann mun stad=ist géta.

3. Allskjótt hédan egum skunda, eilífd þegar nálgast fer; veginn dygda vel ástunda, vors ad Jesú dæmi ber; komid bædi konur og menn! Kristi fylgjum allir senn, øruggt keppum, áfram þreytum, í Guds ótta sældar leitum.

## No. 188.

Lagid: Þock sé þér gód gjørd.

O Jesú! ønd mín, af ást og lofgjørd brenni; ord hegdan øll þín, elsku' og dygd mér kénnir; daudans þúngu þú pín, þoldir, frí vid syndir, ad frelsi mér finndir.

2. Saung=rødd mín síst ein, samt þitt lof útbreidi, heldur dagfars góds grein, Gud! þinn kraptur leidi, mig svo varist vond mein, vel mót glæpum strídi, og sigri' um sídir.

3. Ei skal mér, ei kann, í frá þér neitt venda, þinn eg er, því ann, þér til lífsins enda; hvar eg fer, um heims rann, hjarta med og túngu, þér þock skal súngin.

## No. 189.

Lagid: Ovinnanleg borg er vor Gud.

Gef mér, Jesú! um lífsins leid, lífs reglum fylgja þínum, þitt dæmi se í sorg og neyd, sífeldt í huga mínum, ef rísa móti mér, mín syndug girndin fer' unn mér þó áfram med, øruggt ad keppa géd, uns fagna' eg fundi þínum.

2. Hvílík fagnadar fylling þá, frelsi þitt er eg reyni, og sje eymd mína alla' og þrá, úti med síd' sta qveini! þú gékkst á undan, eg, eptir þann sama veg, mæddur en gladur geng, gjæfu hlyt ædstann feng, þá lokid lífs er meini.

3 Ohræddur geng eg áfram þá, um vegu þyrnum stráda, þitt heit ei bregdst, skeids enda á, eg hlýt fullsælu þráda; þá unnin þrautin er, þykir lítilsverd mér, armædan er eg beid, á æfi stuttri leid, því eymd eg finn afmáda.

## No. 190.

Lagid: Kom Skapari heilagi Andi!

Minn Jesú! bygda-dæmid þitt, draga fús vil eg heim til mín, hjálpa þú mér svo hjartad mitt, hafi í minni bod-ord þín.

2. Þú, sem gjørdir og gjørir allt, til góda fyrir brædur þín; mér vid ásetning sama haldt, sælu þá eblist vonin mín.

3. Lát mig í þessu líkjast þér, Lausnari hjarta-besti minn! kjærleiki sannur qvíkni' í mér, kénn mér ad stunda vilja þinn.

4. Gjør mig vissann ad brúka best, þau bjódast færi, til ad sá, gódgjørdum út, sem má eg mest, minnast skammvinnu lífsins á.

5. Herra! uppfylltu hjartad mitt, med helgri girnd ad líkjast þér; máttinn ad géfa, þad er þitt, þú sem best fyrir øllu sjer.

6. Þá huldu gledi' ad gjøra vel, géf eg ei burt fyrir nockurn mun; hana eg forsmeck himnar tel, himnesku, sem eg leidi' í grun.

7. Ad géta fengid gódann vin, Gudi líkann á flestann hátt, þad eru gjædi hverjum hin, himnesku vid þú líkja mátt.

8. Ohacklátum og íllum mér, ótal velgjørdir Gud réd tjá, hans vegna fús hvørjum sem er, hjálp mín skal æ til reidu stá.

9. Ást þín, Drottinn! er æfinlig, vid allar sképnur og þína menn, eg bid þú leidir ætíd mig, ástsemd og dygd ad stunda' í senn.

10. Þú birtir veldi þitt og dýrd, um þessa dásamlegu jørd, æra sé þér af øllum skírd, elska, lotníng og þackargjørd!

No. 191.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín.

Géf Jesú Kristur! géf þú mér, ad géta svo fylgt og hlýdnast þér, á allri æfi minni, ad eg í sannri ást og trú, eins og rétt-kristnum hæfir nú, þér, Gud minn! þóknast kynni'.

2. Og þá pílagríms gángan mín, Gud! svo eg nái heim til þín, enda skal einusinni; sælu eilífa sýn mér þá, svo eg fullkomnun himnum á, ødlist af elsku þinni.

No. 192.

Lagid: Allt eins og blómstrid eina.

Lífs ferlí' ad fylgja þínum, fýsir mig, Jesu kjær! vorkenntú veikleik mínum, þó verdi' eg álengdar fjær; þá trú og þol vill þrotna, þreyngir ad neydin vønd, reis þú vid reirinn brotna, og rétt mér þína hønd!

2. Í veraldar vondsku solli, velkist eg, Jesú! hér; falli þad opt mér olli, óstødugt holdid er; megnar ei móti' ad standa, mín hreysti náttúrlig, láttú þitt ljós og anda, leida og styrkja mig!

## No. 193.

Lagid: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

Sann=audmjúku, Gud! mig gjædi, gédi, helgur Andi þinn! hvørn dag vel svo húgsa nædi, um breysun, vansa' og breiskleik minn; ad eg blygdist æ fyrir þér, einn sem hjörtun manna sjer, og nád skjærri þacki þinni, þad gott allt mér hlotnast kynni.

2. Gódi Fadir! lid mér ljádu, ad lík=jast mætti' eg jafnan þér, árni góds þeim bøls mér bádu, blessi þann mig hata fer; haldt sál minni hógværd vid, hjarta mitt lát elska frid; minn ef hrasar breiskur bródir, bæta lát mig úr med gódu.

3. Géf eg hlýdni tjái trúa, til lífs enda bodum þín, ó Gud! lát mér ekkert snúa, í frá þér og skyldu mín; øll mín von á einn er þig, í ótta þínum fram=leid mig; þínum merkjum þjóni' eg undir, þar til ockar verda fundir.

## No. 194.

Lagid: Guds Son kallar: komid til mín!

Gud! hvad er líf mitt? háski, stríd; hvad er mín æfi? reynslu tíd, freistni hvørt fótmál vefur; frá þér, holdid, sem breiskt eg ber, bleckinn

heims sollur eins frá þér, mitt hlaup til markfins tefur.

2. Skyldi' eg gálaus framgánga þá, og gleyma stunda vid ad sjá, freistíngum, fári, snørum? hrokafullt, svikult, hjartad er, hvad fljótt mundi þad steypa mér, í synd og eymd óvørum.

3. O Fadir! lát þá anda þinn, upplýsa daufann skilníng minn, æ betur ad eg þecki, sjálfann mig, heiminn hættann hér, hvørjum í gégn mér strída ber, ad síst mig sigri og blecki.

4. Yfir mér, Gud! já í mér vak, aldrei hønd þína frá mér tak, um megn fram ei lát reynast, hvad íllt eg heyra hlýt og sjá, helga mér edli vareygd hjá; minn Gud! hvad má þér leynast?

5. Otal heims vélum íllum gégn, eg hef, sem styrkir hug og megn, Jesú! þitt dygda dæmi; þú ert minn vegur, líf og ljós, ad líkjast þér mitt æ skal hrós; heims venju' eg síst þá sæmi.

6. Mín trú á þig er sigur sá, sem íllra heimsins dæma má, eitradar ørvar vinna; á þig eg horfi, auk mér dug, adferd þíns stríds mér vaki' í hug, nær freistni kann eg finna.

7. Ef eg stend, Herra! er þad nád, ecki minn dugur, veit því dád, eg verjist

voda-føllum; géf engann dæmi gálaus mín, ginni frá hlýdni boda þín; uppvakníng séu þau øllum.

8. Eg vil þá strída, vaka trúr, vanda mig, bidja: Gud! minn múr, lids kanntú síst mér synja, míns Jesú æ fyrir augum mér, allt hafa dagfar og frá þér, um hjálp audmjúkur stynja.

9. Jesús til manna freistni fann, fyrir mig alla yfirvann, óvini, eg því líka, óvini sigra alla kann, allt vel eg megna fyrir hann, ef adstod hans ødlast ríka.

10. Já, þúngt er enn þó stutt mitt stríd, stutt þessi hætta reynslu-tíd; veit, Gud! eg géti varist; eilíft sigurhrós, eilíft hnoss, af þér, nær sigrum, geymt er oss; ecki er til einkis barist.

## No. 195.

Lagid! Krists er koma fyrir hondum.

Víst er eg veikur ad trúa, veitstú þad, Jesú! best, frá syndum seinn ad snúa, sem mig nú ángrar mest; þó framast þad eg megna, þínum ordum eg vil, treysta og gjarnan gégna; géf þú mér nád þar til!

# 6. Guds Ord og Bænin.

## a) Ordið.

### No. 196.

Lagið: Hjartað, þánkar, hugur, sinni.

O Guð! fyrir augsjón þína, auðmjúkir í bæn og trú, komum vér, lát ljósið skína, lífsins orða þinna nú; vyrðst' oss sjálfur vera hjá, og veita aðstoð þínum á, orðum hafa góðar gjætur, géf þau hjá oss festi rætur.

### No. 197.

Lagið: Dauðans þúngu kramin qvöl.

Guð! í þínu nafni nú, nálægir hér saman erum, hjálpa, góði Herra þú! að heiður þinn og dýrð framberum; géf það hvörr með gleði finni, Guð! að ertú hjá oss inni.

2. Vér þá sælir verðum hér, vorar allar lífsins tíðir, og leiðumst, nær æfin þver, upp í himna dýrð um síðir, hvar ásamt Guðs engla sveitum, eilífa þér dýrkun veitum.

## No. 198.

*Lagid: Guds Son kallar: komid til mín!*

Kirkju þína vér komum í, kjærasti Fadir! enn á ný, og bidjum ástsemd þína: af nád oss senda nýann dug, ad nædum stunda þig af hug, þeckja, sem þín ord sýna.

2. Ords þíns sannleiki, ædsti Gud! alla svo hræri þín ad bod, med alúd helgri heyrum, svo þau grandvarir gétum best, í gódu hjarta jafnan fest, til farsældar oss og fleirum.

3. Lát sérhvört ord, sem heyrum hér, helga vort líf og vilja þér, svo verdi dýrd þér samin; vora upplífga von og trú, virdstú oss alla blessa nú; heyr Fadir! heyr oss, Amen!

## No. 199.

*Lagid: Heidur sé Gudi himnum á.*

Styrk þú, Drottinn! vorn vilja vel, vér nær í þitt hús gaungum, svo ad hégómlegt hræsnis-þel, hér finnist med oss engum, lát med athygli' og lyst oss þar, til lærdóms, ráds og huggunar, lífsins ord þín heyra laungum.

2. Lát þeckjanlega þetta hér, þitt ord blessast oss øllum, lofgjørd vor géf ad líki þér, líkn veit nær þig ákøllum;

géf Jesú dygða gaungum spor, geymdú þitt orð á meðal vor, uns upprennur eilífð øllum.

## No. 200.

Lagið: Faðir vor, sem á himnum ert.

Þú elskar þá, ó góði Guð! sem girnast þín að stunda boð; með alúð heyra orð þín veit, oss sem í þenna søfnumst reit; hjálpa þú oss og géf vort géð, gladværri rósemd fyllist með.

2. Vyrðstú með náð að vera oss nær, veikleikann styrktú, Faðir kjær! kénn oss þig elska einann mest, oss og náúnga gagnast best. Guð! sém einsaman gjæðska er, géf þig um eilífð prísum vér!

---

# b) Bænin.

## No. 201.

Lagið: Guð miskuni nú ellum oss.

O Guð! syndarinn eg kém hér, í augsýn biðja þinni, af hástóli þínum hétstú mér, þyggja að beiðni minni; stór og háleit er hugsan sú, hjarta míns girnd þú alla, uppfyllir, Faðir! æ lát nú, anda þinn mér tilfalla, og kénna þig rétt ákalla.

2. Avallt skal því mín ydja trú, á dygda braut fram-keppa, mín ósk og stundan sífeldt sú, sáluhjálpina' ad hreppa; þessi velfarnan, ó Gud! er, ó-missandi sál' minni, öruggur því þá ósk framber, eg vona hún af þinni, adstod áheyrslu finni.

3. Hlutskipti mínu, Herra! rád, hagsæld ei þekki' eg mína; hitt kannast eg vid hvad þín nád, hefir mér vyrdst audsýna; þad er allt gjört til góda mér, Gud! þín stjórn speki skírir, hvad vid mig skédur er frá þér, allra því velferd stýrir, þú, Gud og Drottinn dýri!

4. Meir þó enn Herra minn þú ert, minn Fadir líka heitir, heyri eg ord þín herma bert, hollur oss nálægd veit-ir; ó hvad styrkir sú hugsan mig, helzt þá mitt andvarp grætur, ánægdur veit eg þad um þig, þú ad mér, Fadir mætur! í hvörri neyd gefur gjætur.

5. Hjálp, Fadir! svo í hvörri neyd, heit sé mín bænar ydja, hjálpa mér nær eg nálgast deyd, nádþyrstum svo ad bidja: bænheyr mig og heyr blídur nú, bæn þessa' af miskun þinni; bæn mína ætíd blessa þú, bænrækinn ad hvört sinni, réttkristins frid eg finni.

## No. 202.

Lagið: Sædsturskafti grædari minn.

Líknsami Guð! sem gefur allt, gott og hjálpaðir mér ávallt, þá neyð eg náði kanna; um mikinn bið eg ecki auð, en nóg afskamtað daglegt brauð, og géðþócknun góðra manna; lát mig, þá þig, blíðann finna, þegar þinnar, þreyðu náðar, leita eg eptir æfi þjáða.

## No. 203.

Lagið: Kristnir menn! umfram allar tíðir.

O Guð! í auðmýkt kénn mér qvaka; kraptarins Guð! sem himnum á, øllu ræður, virðst' að þér taka, oss, Faðir kjær! þín børnin smá, það líknar nafn vort gjørir géð, gladt, sonar ótta fyllir með.

2. Því mun eg aumur þora' að kalla, í þinni verndun læstur hér: Guð, sem von mína' uppfyllir alla, er stór og heilagt nafn hans er, það lof þá stama fram eg fer, fylkíng engla samsýngi mér.

3. Kénn mér fánýtum glansa gleyma, og gull-eign jarðar, metnað, lyst, af munni hjartans ósk lát streyma: ó Guð! þitt ríki komi víst! undir eins og eg á-vinn það, auðnast mér líka gott sérhvað.

4. Kénn mér, þá ver??ð vond mig ginnir, að vill hún draga heill mig frá,

svo þolí' og gjøri eg sérhvørt sinni, hvad sem þín forsjón gott mér sá, þinn guddóms vilji veit oss hjá, verdi jørdu sem himnum á.

5. Þig, alls ens góda, bid eg, brunninn: blessa mín störf', géf daglegt braud, en þó eg rata eymdir kunni, auktú mér þol svo léttist naud; og fyrir Jesúm unn mér fá, allt sem til góds mér bera má.

6. Eg óttast, Gud! alvitsku þína, sem innstu þeckir hjartans slód, æ! aumka þig, synd alla mína, afplána láttú Jesú blód; þá adrir gjøra á móti mér, í miskun géf eg líkist þér?

7. Og þú, sem snørur þeckir allar, þær holdid egnir minni sál, og hættur, sem eg í kann falla, opt fyrir heimsins slægd og tál, yfirgéf þú mig ecki' í neyd, útrycktú mér af synd og deyd!

8. Þér skal um aldir þackir færa, þer eilíft syngja lof og prís, því ríkid, vald þitt er og æra, einn ertú gódur, stór og vís; ó hvad fagnandi himnum á, Hallelúja! lofsyng eg þá!

## No. 204.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Hjálpa mér, Drottinn! hvar eg fer, í hvorju sem ad høndum ber; fyrir

adstod og almátt þinn, í gledi breytist harmur minn; gef ad framgvæmist gagnid mitt, Gud! svo eg prísi nafnid þitt.

2. Lífid er stutt, kénn, minn Gud! mér, mínum svo verja døgum hér, ad tækifæri aldrei neitt, ydju skyldunnar frá sé sneidt. Tíd sú eitt sinn mér fór burt frá, fást sídan ei til baka má.

3. Ef ad vellyst mín freista fer, Fadir! þinn kraptur líkni mér, og veiti rád, hug, vilja þá, vel ad strída og sigur fa; sú yfirvinníng verdur hér, vegur til himna lífs hjá þér.

4. Lán og hygginди' ef lénast mér, lát mig þá gjøf vel nota hér; blessa þú mér þad býtta allt, vid brúkun rétta þess mér haldt, mér til heilla í hvørt eitt sinn, og hjálpar vid náúnga minn.

5. Falli sorg og mótlæti' á mig, minn Gud! kalla eg strax á þig; því øruggt hæli ertú mér, alla eg byggi von á þér, neyd og andstreymi frelsa frá, Fadir! í nád mig líttú á.

6. Loksins þá jørdu eckért á, orkar mér framar ró ad fá, þegar senn fyrir sjónum mér, sortna vid grafar barminn fer, enda þá mína alla neyd, ó Fadir kjær! med sælum deyd.

## No. 205.

Lagid: Svo elskadi Gud aumann heim.

O Gud! eg kém fyrir augsjón þér, aumum best líkna vyrdstú mér; í oll géfi brot og íllverk quitt, ó Gud! nád og holgjædi þitt.

2. Hreint skapa, Fadir! hjarta' í mér, hjarta fullt ótta' og elsku' á þér, hjarta þock, audmýkt, heidrun fyllt, hjarta jafnan rósamt og stillt.

3. Verndari' í háska vertú minn! vona' eg á þig, minn fulltrúinn! skyldi' ófall nockurt skélfa mig, skýlir mér hønd þín guddómlig.

4. Þitt nafn sé æ fyrir augum mér, ønd mín svo føgnud hafi' í þér, vid mína' ad géti' eg gladt mig trú, géf í ást æ sé krøptug sú.

4. Hvad þú mér kénnir heill mín er, heill sé þad mín, ad eg, sem ber, umfram allt stundi ordin þín, alla trúr ræki skyldu mín.

6. Allt of-veikt krapta minna' er megn, mínum girndum ad strída' í gégn, þú kannt íklæda krapti mig, eg kann allt sigra fyrir þig.

7. Heims þessa' af gjædum géf þú mér, Gud! svo mikid sem líkar þér; hóf-

legann skamt géf þínum þjón, þó blessa yðju hans og von.

8. Ef hönd þín gnótt mér géfur ør, géf þau hóffsamur brúki' eg kjør, og með góðvild af gnægtum þín, gleðji fátæka bræður mín.

9. Einlægann géf mér ástvin þann, óhult hvørjum eg trúa kann; hvørr með mér stundi' að hlýðnast þér, huggun, ráð, dæmi gési mér.

10. Ef að þín gjæðska ætlar mér, æfiskeið lengra' í verøld hér; øllu, Faðir ástkjæri! ráð, aldraðann svipt ei þinni náð.

11. Og þá lífs endi loks að fer, líkn þín mig taki best að sér, minn skjøldur, hlífð og mikil laun, minn Guð! þá vert' fyrir Krist þinn son!

## No. 206.

Með sínu lagi.

O! Guð vor Faðir! sem í himnaríki ert, hátt yfir oss í anda mest, vilt því tilbeðinn verða: helgasta nafn þitt hjá oss verði opinbert, heiðrað og lofað allrabest, á himni og á jørðu; þitt náðar-ríki komi hér; kénn oss í því að lifa, og hvað sem ecki þócknast þér, þar frá vyrðst' oss að hlífa, svo

æfinlega ødlumst vér, í þínú ríki' ad blífa.

2. Voldugi Gud! þinn vilji verdi jørdu á, vel, jafnan og á allann veg, eins og í himnaríki; því þar kann enginn standast eda koma má, utan þinn vilja ydki mjøg, og lifi svo þér líki. Vort daglegt braud oss veit þú nú; vora sál endurnæra, lát þitt fridarord; frá oss snú, fals kénníng', en þad læra, hvar med þú oss á helga trú, og hjálpar-veg vilt færa.

3. Forlát oss vora miklu skuld og marga synd, módgum vér þar med jafnan þig, þær virdstú' af oss ad taka; svosem vér fyrirgéfum þeim af gódri lund, sem gjørdu oss mót og styggdu mjøg, ei viljum þá ásaka. Í freistni þú oss ecki leid, á rángann veg svo víki; heldur frels' oss af allri neyd; athøfn vor géf þér líki; upplýs og helga oss, þinn lýd, ad erfum vér þitt ríki!

# 7. Skírn og Qvöldmáltíd.

## a) Undan Skírn.

### No. 207.

Lagid: Haldt ofs, Gud! vid þitt hreina ord.

Svo elskadi Gud aumann heim, ad einka Son sinn gaf hann þeim, ad allir sem trúa á hann einn, eilíft líf hafi', ei tapist neinn.

2. Jesús Kristur, vor Herra kjær, kom í heiminn ad frelsumst vær; sínum Postulum sjálfur hann, sagdi hjálprædis lærdóm þann:

3. Endurfæddur sá ecki er, af vatni og Guds anda hér, í Guds ríki kann ecki fá, inn ad gánga og þad ad sjá.

4. Því farid út um allann heim, til allra þjóda, kénnid þeim, fridar lærdóm og føgnud þann: fullnadar lausn eg øllum vann.

5. Hvørjir sem byggja þessi rád, þeim skulud veita skírnar nád, í nafni Fødurs og Sonar, og anda Guds, sem allt helgar.

6. Eins sem eg hefi ydur sett, allt kénnid þeim ad halda rétt, í trú, kjær-

leika' og kristnum sið, qvøl og hørmúng ei skélfist við.

7. Vör Herra Jesú! vardveit þú, veika kristni í réttri trú; leys oss frá allri andar neyd, í himna frið og føgnud leið.

No. 208.

Lagið: Heiðrum vér Gud af huga' og sál'.

Vor Gud, heilagi Herra! þér, heidur og prís um eilífð ber, von sáluhjálpar veitir þú, í vorri skírn, þig bidjum nú: hjálpa oss, Fadir! fyrir þér, fram ad gánga sem skírdum ber, hólpnir allir svo verdum vér.



## b) Eptir Skírn.

No. 209.

Lagið: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

Fadir, Sonur og fridar Andi! fót minn leid þú hrøsun frá, skírnarheit svo vel eg vandi, vyrdstú nád og styrk mér ljá, ad lifa svo ad líki þér, líf á medan veitist mér, uns á himnum fæ eg finna, føgnud medal barna þinna.

No. 210.

Lagið: Haldt oss, Gud! við þitt hreina orð.

Þetta barn þér befalad sé, blídi Jesú! vor Lausnare; í þína kristni það innleid, þyrm og frelsa frá allri neyd.

2. Ætíd hlíf því med adstod þín, frá ólucku, slisum og pín; med þinni ást og mildri nád, miskuna því og blessa það.

3. Veit því med aldri vøxt og spekt, ad verdi hlýdid þér og þeckt, og lifi svo í heimi hér, ad himneska fái dýrd hjá þér.

## No. 211.

Lagid: Hvørr, sem ad reisir hæga bygd.

Allir foreldrar, ó Gud! magn, og adstod hjá þér finni, finna afqvæma sálar-gagn, svo stunda'í verøldinni, ad segja kunni sídar meir: sjá nú, Drottinn! hér em og þeir, mér gafst af mildi þinni!



## a) A undan Altaris-gaungu.

## No. 212.

Lagid: Hvørr, sem ad reisir hæga bygd.

Minn Gud! þú sjer og þeckir nú, það allt mitt hjarta bidur. Sjá! þitt, í audmýkt, ást og trú, altari krýp eg vidur; sálar helg laungun sé hér mín, sameinud nád og blessun þín, eykst þá minn andar fridur.



## b) Um Utdeilingu.

### No. 213.

Lagid: Jesú! þín minníng mjøg sæt er.

Hvad gódgjarn ertú, Kristur kjær! er kallar oss þínu bordi nær, sameinadir hér søfnumst vér, ad sækja styrk og traust hjá þér.

2. Þú vilt oss sjálfur vera hjá, vér skulum, eins og bod þín tjá, minnast á kjærleik mikla þinn, ad máltíd þessari, Drottinn minn!

3. Vér hlýdnumst þessu hvørt eitt sinn, því, Herra Jesú! Fadir þinn, verøld elskadi' og veslann mig, veraldinni því gaf hann þig.

4. Elskan þín var svo undra þá, ad daudann leidstú krossi á; dóst fyrir brædur þína þú, þínir hvørs brædur minnast nú.

5. Þitt líf og daudi þanninn bjó, þínum fridkeyptu sálar ró. Æ veittú oss med dygd og dád, dýrmæta þá ad mikla nád!

6. Blessadú, Jesú! oss þitt ord, oss blessa vid þitt nádar-bord! opinberlega allir hér, í ást og trú sameinumst þér.

7. Eins og Fadirinn eitt med þér, allir géf þú ad séum vér, og hjartan-

lega elskum hann, elskum þig, sem oss leysa vann.

8. Fyrir þig vill vor Fadir þá, føðurlega oss gjædsku tjá, og af nád, gott uppfylla þad, er hvørr einn um ad réttu bad.

9. A þig trúum og vonum vær, vert oss med líkn og huggun nær, í lífi' og dauda hlýdnum hér, hjálpa oss til ad fylgja þér!

10. Æ! þá skyldu eg illa braut, eilífann voda þar af hlaut. Son Guds! þinn dómur sannur er: syndugir standast ei hjá þér.

11. Elska vidqvæmust þrýsti þér, þjáníng og písl ad líða hér, ad þínum dygda unnum sid, allir syndirnar skiljumst vid.

12. Blessadi Drottinn besti! þú, blessa enn vora fundi nú, svo leitum alls hjá einum þér, andlega sem oss farsæld lér.

13. Vid æfi lokid stutta stig, styrk oss, Drottinn! vér bidjum þig, med vissu nádar þinnar þá, þreyttir leysumst vér hédan frá.

14. Hallelúja, vor gódi Gud! geyma viljum vér øll þín bod, þér einum kén-

ur frelsid frá, frá þér, vor Gud! Halleluja.

## No. 214.

Lagid: Jesú! þín minníng mjøg sæt er.

Audmjuk nálægir øndin mín, ó Jesú Kristur! sig til þín, og minnist skipun eptir þín, á dauda þinn og bitru pín.

2. Elska var þad, sem brýsti þér, þjáníng og písl ad lída hér, hneigdu burt dóstu høfdi med, hjálprædi fécstu mønnum téd.

3. Tapadra ecki tølu í, trúi' eg fram-ár ad verda því, Gud þinn Fadir vill fyrir þig, Frelsari, Jesú! náda mig.

4. Mín sál trúir og finnur frid, fastlega jafnan gledst þar vid, Jesú! eg med þér jardast á, jørdunni mun þó rísa frá.

5. Fyrir þinn kjærleik þacka' eg þér, þjáníng leidstu til frelsis mér. Ó! lát forgéfins aldrei mig, um þína hugsa pínu' og þig.

6. Uppá margreynda elsku þín, óhult sig reidir sálin mín, gnægd þinnar nádar géfi mér, gódfýsi til ad hlýdnast þér.

7. Aformid þad, sem eg hefi' nú, eptir ad fylgja þér, Jesú! hvørt sem mér

gengur med eda mót, mín sé laungun af hjartans rót.

8. Og þó eg villist eitthvört sinn, ysirgéf mig ei, Drottinn minn! á rétt=ann aptur stig mig styd, stødugt á sama haldt mér vid.

9. Veitstú best, Jesú! vanmátt minn, veit ad eg geymi lærdóm þinn, þegar ad høndum þjáníng ber, þolgædi þitt sé dæmid mér.

10. Med eptirlaungun øndin mín, upplyptir, Jesú! sér til þín; um þinna boda leid mig leid, lífsins á medan renn eg skeid.

## No. 215.

Lagid: J dag eitt blessad barnid er.

Eg kém, ó Herra! og eptir þér, af ángri mæddur leita; virdstú því enn af miskun mér, mildi og nád ad veita; ad þínum kropinn er eg trón, ó! þú Guds og mannsins Son! hjartad mitt nú hughreystu! syndanna ángur særir mig; sál mína frida! eg trúi á þig, einn med þeim endurleystu. :

2. J lifandi trú eg leita' ad þér, sem léttir synda byrdum; vor synda sekt af=plánud er, ad þar med Guds børn yrd=um. Um hørmúng þína hugsa eg nú,

og hjálp, er mønnum veittir þú, mín heill er af þér ordin, þá fyri mig þú fórnadir þér, fødurnum gedþeck aptur er, øll endurleysta jørdin.

3. Gled þig því hjarta mitt í mér, misverk þín bætt hann hefir, náð þér og mildi mestu hér, í máltíð sinni géfur; ef hrópar, þinni hann ansar bón: „í huga styrkur vert, minn son! qvitt skulu brot þín blífa, uppá minn reida átt þig deyd, ætíd skaltú þeim fyrir þig leid, med hreinu hjarta lifa."

4. „Þér géfst hjálprædi' og heillin nú, yfir henni í trú skalt vaka; fyrir óvarúd ei lát þú, þinn æru-krans burttaka, sjá! hér eg mig innlífa þér, eg er víntréd, blíf á mér; æ skaltú ávøxt bera; eg vil hughreysta' og efla þig, fyrir elsku þína' og trú vid mig, sigur-sæll víst skalt vera."

5. Herra! þín bod eru' heillin mín, halda þau lát mig feginn; veit fyrir dauda, og verk øll þín, sá vilji styrkjast megi, en upp frá þessu unntú mér, allt mitt hjarta géfa þér, þinn dauda þacka' og prísa; lát mig svo helgun æfast í, og endurbótar verkin ný, medan lifi auglýsa.

## No. 216.

Lagid: Jesú! þín minníng mjög sæt er.

Vid þína nádar máltíd mér, mæta býdur þú, Jesú! hér, svo ad eins og þú manst til mín, minnast skuli eg einn-inn þín.

2. Heimur mig því hindradi frá, hans glis eg framar stundad' á, hvad opt freistar mín hold og blód, ad halda af réttri gjæfu slód!

3. Æ! þá eg gleymi þinni nád, og þad til góds hef' veika dád, gjætir ei skyldu gleymskan blind, glæpugur bæti' eg synd á synd.

4. Æ! hjálpa mér rétt hyggja' ad því, hvørnin þú umgéckst verøld í; þá missir verold mitt afhald, missir þá syndin krapt og vald.

5. En þad eg braut þér ávallt mót, ángrar mig nú af hjartans rót. Æ! skyldi' eg vera vinur þinn, veikann, hvikulann mig sem finn?

6. Já, í von þori jeg og trú, Jesú þínu ad minnast nú. Skal hann ei minnast mín, sem þó, mig fyrir sekann leid og dó?

7. Komi nú þúnga-þjádur hér, og þreyttur híngad komi hverr. Þeir

ødlast frid, sem trúa traust, og trega syndir hræsnislaust.

8. Uppá þín kém eg egin ord, og mæti, Jesú! vid þitt bord; bænheyr míns hjarta harma-raust, hjá þer, á þér er allt mitt traust.

9. Géf oss ad minnast ætíd á, endurlausn, sem þér fengum hjá; géf oss, Herra! á himnum stad, hjá þér, af miskun bænheyr þad.

## No. 217.

Lagid: Kristi! vér allir þockum þér.

Frelsari gódi! fyrir þitt bord, framkrýp eg þessu sinni, þína þínu og effstu ord, audmjúkur hefi' í minni; nafn þitt vegsama vil eg hér, vera má hvørr sem treystir þér, fullviss ad miskun finni.

2. Er eg þess verdur ad þá nád, ó Jesú! reyna fái? elska eg þig af allri dád, umbót svo vinna nái? er mín trú þér svo þócknanleg, þad uppríſinn á sídan eg, dýrd þína, Son Guds! sjái?

3. Þú ransakar og þeckir mig, þú veitst af gleymsku minni; oss sjaldan minnist eg á þig, í hrigd og velgengninni. Æ! hvad dárleg mín íllskan er! eg veikur treysti, Jesú! þér, ad fyrirgefning finni.

4. Medtaktú, Drottinn! mína trú, medtak þad heit eg gjordi! helgist þér allt mitt hjarta nú, helgist þér mitt framferdi; sjálfur hér mína sálu prýd, svo eg maklegur alla tíd, Guds Son! þinn gestr verdi.

5. Þú, sem í minníng' þína hér, þessa baudst oss ad neyta, svo allir jafnan ættum vér, eptir þér, Jesú! breyta, láttú oss þanninn lifad fá, ad lærdóm þinn vér stundum á; virdstú krapt þar til veita!

Minnstú, ó madur! á minn deyd.

(Sjá No. 76) og fleiri ád framan ptentadir Sálmar um Jesú Pínu og Dauda, No. 70, 74 og 75.

## c) Eptir Utdeilingu.

### No. 218.

Lagid: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

Jesú! sem ad daudann deyddir, og daudlegum gafst lífid mér; þú ad bordi lífs mig leiddir, lausnar pantur fenginn er, ebl þú mína ást og trú, auk mér sálar rósemd nú; þig mitt lífid heidri' í heimi, hjálp veit þér eg aldrei gleymi!



# 8. Dauðinn, Upprisan, Dómurinn.

## No. 219.

Lagið: Kristnir menn! umfram allar tíðir.

Hvørr veit hvað fjærri' er æfi endi? óðfluga tíminn burtu ferz bráðlega máske beri' að hendi, burtfarar kallið dauðans mér. O Guð! þá dauðans dregst að nótt, deya géf þú mér vel og rótt!

2. Máske í nótt þú munir kalla, mína sál í eilífðar rann, og hreisið líkams fyrri falla, enn fela sólu hafið kann. O Guð! þá dauðans dregst að nótt, deya géf þú mér vel og rótt!

3. Kénn mér þá vitsku vel svo telja, vegferðar minnar daga hér, að þinn eg stundi veg að velja, vakni til sælu' og lífs hjá þér. O Guð! þá dauðans dregst að nótt, deya géf þú mér vel og rótt!

4. Við elsku heimsins unn mér vara, æ mínu hjarta taka á, þegar þú kallar, þori' eg svara, þá: mig tilbúinn, Herra! sjá. O Guð! þá dauðans dregst að nótt, deya géf þú mér vel og rótt!

5. Veit þú ad enginn hlutur hrífi, hjartad mitt þínum ótta frá; øll skal mín vera lyst í lífi, líka í dauda vón þér á. O Gud! þá daudans dregst ad nótt, deya géf þú mér vel og rótt!

6. Virdstú med Krists verdskuldun hylja, vel mínar syndir, Fadir kjær! þeim sem ydrast og vanda vilja, verk sín, miskunin æ er nær. O Gud! þá daudans dregst ad nótt, deya géf þú mér vel og rótt!

7. Komi því minnar æfi endi! eg af heiminum gladur fer, á míns Frelsara fund eg vendi, finn þig, ó Gud! nádugann mér; en þegar daudans dregst ad nótt, deya géf þú mér vel og rótt!

## No. 220.

Lagid: Allt eins og blómstrid eina.

Hvørsu mig leysast lángar, lifandi Gud! þú sjer, og frá holds fjøtrum gánga, í frelsi mitt hjá þér. Ef finn eg ángist eina, ótalfaldt bøl og vei, harm sál og hjartad reyna, hægist þeim nær eg dey.

2. Fús heli fáng eg breidi, fæla mig þad ei kann, fyrst Jesús Drottinn deydi, dyr lífs sem opna vann. Nær Gud svo vill mér vegni, viljugt eg dey med

þel; hans kalli gladur eg gégni; gott er ad deya vel,

3. Allt þó mér veita vildi, verøld ágjæti sitt, en eg hér ei vid skildi, óhapp bad væri mitt. Á himnum allt er betra, eg fagna þegar má, fara til fedra setra, fyrr komnum búa hjá.

4. Mín burtfør máské græti, mér léntra vina géd, og þeir eg vidskil, væti, veinandi minn ná-bed; ef daudinn út mig kallar, øblug sú huggun er: þá finn eg aptur alla, sem ástkjærir vóru mér.

5. Í strídi' ens stránga dauda, styrk veittú, Fadir! mér, lát bøli linna nauda, lífs neyd þá hættust er; svali, nær sídast anda, sálunni fridur þinn, þá sendri þér til handa, þæg verdur burtførin.

## No. 221.

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

AE! vøknum! daudinn ádur enn kallar, oss á óvæntri hédan stund, aldradir bædi' og úngir falla, í sótt og hraustir hels í blund. Sín afdrif fyrir enginn sjer, ætíd vidbúinn sæll því er.

## No. 222.

Lagid: Uppá fjallid Jesús vendi.

Gladur hédan vil eg venda, vært í jardar skaut á ný, neyd med lísi

ná mun enda, nærsta feginn verd eg
því, audnist mér ad lyktum lenda, líkn-
ar-höndum Drottins í.

2. Hvad má framar auka ótta? eg
med ró vil daudann sjá, sem úr lífs mig
færir flótta, til Frelsarans, hvorn ad
vin eg á; sál, vid adfør andlats nóttar,
í Guds vernd sig fela má.

3. Sá fullkomnad hér allt hefir, hann
mun annast líf mitt hér; Jesú! styrk
þín gjædska géfi, til grafar trúr eg
reyníst þér, vel vidbúinn, kjært þá
krefur, kallid daudans ønd af mér.

## No. 223.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Kristi! er létst á krossi lífid, og krapti
med þad aptur tókst, dauda míns ad
duga' í kífi, dád og krapta þú mér jókst;
hel fær grandad hvørgi mér, ef hlýdnast
eg og treysti þér; mig, í trú sem fær þín
feta, flytur þad til lífsins betra.

2. Lífsins fjør, þá magnlaust mædist,
mér grøf opnar kjøltu sín, ógnundaud-
ans hvørgi' eg hrædist, horfi' eg gladur
upp til þín, fel ógvídinn frelsta ønd,
Frelsari minn! í þína hønd, feta helstig
fúsu gédi, fullur af huggun, von og gledi.

3. Þú ert, Drottinn! ljós og lífid,
líkn og traust er ordid þitt; þú mér

hefir heit það géfið: að hold einúngis rotni mitt; í vegsemd eg upp mun stá, ávallt fremd í bygðum ná; ávallt kröptum æðri safna, engu má við sæld þá jafna.

## No. 224.

Lagið: Gjæðsku Guðs vér prísum.

Sjá, Jesú! vegferð vora, umvafða hættu' og þrá; veit oss varlega fara, vertú oss ætíð hjá, óhult um dauðans dal, vér svo braut þúnga þreytum, þér loks í gleði mætum, og fyllum frelstra tal.

## No. 225.

Með sínu lagi.

Alteins og blómstrið eina, uppvex á sléttri grund, fagurt með frjófgun hreina, fyrst um dags morgun-stund, á snøggu augabragði, afskorið verður fljótt, lit og blöð niður lagði, líf mannlegt endar skjótt.

2. Svo hleypur æskan únga, óvissa dauðans leið, sem aldur og ellin þúnga, allt rennur sama skeið. Innsigli engir fengu, uppá lífs-stunda bið, en þann kost undirgengu, allir að skiljast við.

3. Dauðinn má svo með sanni, samlíkjast þykir mér, slíngum þeim sláttumanni, er slær allt hvað fyrir er, grösin og jurtir grænar, glóandi blómstrið

frídt; reyr, stør sem rósir vænar, reikn-
ar hann jafn fánýtt.

4. Lífid manns hradt framhleypur, hefir þad enga bid, í daudans grimmar greipur, grøfin tekur þar vid; allrar veraldar vegur, víkur ad sama púnkt, fetar hann fús sem tregur, hvørt fellur létt eda þúngt.

5. Hvørki fyrir hefd né valdi, hopar daudinn eitt strik, fær síst med føgru gjaldi, frestur um augnablik, allt hann ad einu gyldir, þótt ílla líki' eda vel, bón ei né brædi mildir, hans beiska heiptar þel.

6. Menn vada' í villu og svíma, veit enginn neitt um þad, hvørninn, á hvørjum tíma, eda hvar hann kémur ad. Einn vegur øllum greidir, inngáng í heimsins rann, margbreyttar lítst mér leidir, liggi þó út þadan.

7. Ahl daudans eins nám kreinkja, alla í verold hér; skal eg þá þurfa þenkja, hann þyrmi einum mér? Adams er edli runnid, í mitt nátturlegt hold, eg hefi' og þar til unnid, aptur ad verda mold.

8. Hvørki med hefd né ráni, hér þetta líf eg fann; sálin er, svo sem ad láni, samteingd vid líkamann; í Herrans høndum stendur, ad heimta sitt af mér.

Dauðinn má segjast sendur, að sækja hvað Skaparans er.

9, Nú vel! í Herrans nafni, fyrst nauðsyn ber til slík; eg er ei þeirra jafni, sem jörðin geymir nú lík; hvernær sem kallið kémur, kaupir sig enginn frí; þar læt eg nótt, sem nemur, neitt skal ei qvíða því.

10. Eg veit minn ljúfur lifir, Lausnarinn himnum á, hann ræður øllu yfir, einn heitir Jesús sá, sigrarinn dauðans sanni, sjálfur á krossi dó, og mér svo aumum manni, eilíft líf víst tilbjó.

11. Með sínum dauða' hann deyddi, dauðann og sigur vann, makt hans og afli eyddi, ekkert mig skaða kann; þó leggist lík í jørðu, lifir mín sála frí, hún mætir aldrei hørðu, himneskri sælu í.

12. Jesú er mér í minni, mig á hans vald eg géf, hvørt eg er úti' eða inni, eins þá eg vaki' og sef, hann er mín hjálp og hreysti, hann er mitt rétta líf, honum af hjarta' eg treysti, hann mýkir dauðans kíf.

13. Jég lifi' í Jesú nafni, í Jesú nafni' eg dey, þó heilsa' og líf mér hafni, hræðist eg dauðann ei; dauði! eg óttast eigi, afl þitt né valdið gyldt, í Kristí krapti' eg segi: kom þú sæll! þegar þú vilt.

## No. 226.

Lagid: Í Jesú nafni uppstá!

O minn Herra! hjálp mér þá, lífsins skamtnr er á enda, ei vill hjólid leingur vendast, og eg spenni oki frá. Unn mér þá ad eyddum dögum, andlits þíns eg sjáidýrd; eydist synd, ángist og klögun, ásamt mínum hjúp' í jörd.

## No. 227.

Lagid: Öldúngat Júda annars dags.

Séf eg mig allann á Guds míns nád, geymi hann allt mitt efni og rád; hvad helzt mér kémur höndum ad, í hvörjum stad, hans miskun gjörvallt fel eg bad.

2. Minna lífdaga stærd og stund, stendur í Guds míns Födurs hönd; nær sem hann vill, þá vil eg strax, vera til taks, gladur bída þess góda dags.

3. Af því eg veit og eflaust finn, Endurlausnarinn lifir minn, þad er mín trú, hans qvöl á kross, keypti lausn oss, ávann farsældar ædsta hnoss.

4. En þó ad lágt mitt lidna hold, liggi, fúni og verdi' ad mold, samt finnur ecki sálin deyd, né sorgar leid, því hún er frí frá allri neyd.

5. Hvad er lík manna? mold og jörd, máttarlaus, dofin, köld og hörd. Hvörr

madur fædist híngad ber, hvørr helzt sem er, hefir eckert í burt med sér.

6. Hann kann ad vera hraustur í dag, heill og vel=fær í gledi=hag, en á morgun sjúkur og sár, svo til þad gár, líka máske framlidinn nár.

7. Allt eins og blómstrid gult og grænt, med glans' er standur fagurt og vænt, á auga= bragdi er ordid þurt, enga ber kurt, fellur, visnar og fýkur á burt.

8. Med þeim skilmála madur hverr, af módur lífi fæddur er; hann skal burtdeya hédan víst, þá varir síst, verdur hann sæll er vid því býst.

9. O madur kristinn! hygg ad hér, hugsa þig um medan tíminn er, nú er þér bodin nádin stærst, Guds elskan ædst, í þessu lífi líkn sú næst.

10. Ef ad þú ydrast efalaust, á Jesúm setur von og traust, þá er hans nád þín heill og hlíf, hjálp, vernd og líf, svo aldrei kannir eymda kíf.

11. Af augum þínum øll þín tár, ástrík hans þerrar høndin klár, inn= dælann føgnud helgum hjá, á himnum þá, endalaust muntú finna og fá.

12. Gledjumst hér vid, øll Guds børn trú! gód og fullviss er huggun

sú; heims von er kjær, því hér er allt, í heimi valt, eilífann fögnud erfa skalt.

13. Unn þú oss, Gud! ad ydrast hér, á medan nádar-tíminn er. Drottinn! gef hæga dauda tíd, frid fyrr og síd, eilíft líf med útvøldum lýd.

## No. 228.

Lagid: Um daudann gef þú, Drottinn! mér.

Mín lífstíd er á fleygi ferd, eg flýti mér til grafar, innan naums tíma nár eg verd, nakinn lagdur án tafar; daudleg manneskja! dvel ei þá, dauda þinn fljótt ad minnast á, þau rád er þorf ad hafa.

2. Eins og þú vildir óska þér, í daudans sídstu mædi, ad lifad hefdir, lifou hér, í luku' og þrautum bædi; hefd, vøld og metord held eg þá, heldur létt verdi metum á, vid himna vegin gjædi.

3. Þó ad oss sæki sótt og hel, samt megum vér því trúa, ad ef hér lifad høfum vel, heim er oss gott ad snúa, til Drottins, hvar í dýrdar víst, dýrdlegir munum fyrir Krist, vid sælu' og blessun búa.

## No. 229.

Lagid: Hvørr, sem ad reisir hæga bygd.

Líkt skugga burtu líf manns fer, leid þúng verkar mótlæti, æsku-blómid

stutt einatt er, yfrid hvikul vor kjæti; menn fædast, vara' og falla frá, fáir sjötíu árum ná, ef fleirum er fágjæti.

2. Grøfin vort hold til geymslu fær, en góds ad vænta megi, og dauda verdi' oss dúrinn vær, Drottins ord bregdast eigi, sem þad fyrst vøktun setur í, sídan líf eilíft gefur því, uppvøktu' á efsta degi.

## No. 230.

Lagid: Herra Gud í himnaríki.

Høndin þín, Drottinn! hlífi mér, þá heims eg adstod missi, en nær sem þú mig hirtir hér, hønd þína eg gladur kyssi.

2. Daudans stríd af þín heiløg hønd, hjálpi mér vel ad þreya, medtak þá, Fadir! mína ønd, mun eg svó gladur deya.

## No. 231.

Med sínu lagi.

Nú látum oss líkamann grafa, og engann efa á því hafa, á efsta degi' ad upprís hann, í dýrd, sem aldrei bregdast kann.

2. Holdid er jørd og af jørdu, ad jørdu einninn aptur verdur, af jørdu rís þad efalaust, alla þá vekur Drottins raust.

3. Í Guðs ríki øndin lifir, eilíf miskun henni hlífir, Jesú fyrir sáru krossins qvøl, qvitt vid syndir og daudans bøl.

4. Hans (hennar) mótlæti, hrigd og mæda, hefir nú øll endíng góda, ok Krists um sína æfi dró, er nú framlidinn, lifir þó.

5. Eilífann frid øndin hefir, allt til dómsdags holdid sefur, af jørd Gud þá uppreisir þad, ódaudlegt, heilt og forklárad.

6. Lúinn skildist hann (hún) vid heiminn, í himnasælu er nú kominn, lifanda Gudi lifdi í trú, lifir því víst med honum nú.

7. Sofi hann (hún) nú hér í fridi, heim vér gaungum frá þessu leidi; sem best jafnan sig sidi hverr, svo daudinn oss velkominn er.

8. Þar til hjálpi oss Herrann Kristi, hvørr oss med pínu' á krossi leysti, frá dauda, synd og hættum heim; heidur, lof, dýrd sé Kóngi þeim!

## No. 232.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Hér á jørdu ei hefir tøf, hugur minn þegar sje eg grøf; sjón þeirri glæd-

ist ávallt af, upprisu von, sem Jesús gaf; sofnar líkami' og lífid manns, lifnar sídar med dýrdar glans.

2. Mikill dagur oss mæta á, munu grafirnar opnast þá. Lifandi' og daudir, Lausnari minn! leidast skulu fyri dómstól þinn; þeir einir standast þá fyri þér, sem þér í trúnni lifdu hér.

## No. 233.

*Med sínu lagi.*

Um daudann géf þú, Drottinn! mér, eg daglega hugsa megi, og ad mín æfi á enda ser, eg víst því gleymi eigi. Upplýs mitt hjarta, Herra minn! ad hrædast kynni' eg dóminn þinn, er uppqvedst á efsta degi.

2. Eins og þverhønd er æfin breid, allfátt mig kann ad hugga; lítils er verdt mitt lífsins skeid, launsvik óvinir brugga, fánýtt er þad og fallvalt mjøg, eg sæ því ecki' á nóckurn veg, vid líkara líkt enn skugga.

3. Vort lífsins blóm er sorg og sút, og svo sem grasid vallar, líka sem ræda lídur út, eda lesnar søgur snjallar. Sem fuglar á burt fljúgum vér, fljótt eins og þá straumur fer, Gud menn úr kisi kallar.

4. Þótt margir menn í heimi hér, hégómlega sig mædi, til einkis gjøra þeir allt það sér, fyrir auð og ríkdóms gædi, og vita' ei hvørr það hljóta skal; Herra! kénn mér mitt daga tal, hjá þér svo huggun nædi.

5. O Guð! þú ert mín aðstoð best, á þig minn andi treystir; mín er sú bón og þørfin mest, mig frá óførum leysir; hjálp mér í daudans dapri pín, Drottinn! varðveittu sálu mín, og til lífs mig uppreisir.

## No. 234.

Lagið: Heimsins Stýrir forsjónfasta.

Vonin kjæra, eilífð eina, arfleifð mín þá varð eg til; glæpa næra glóð óhreina, en gjæta þín, er dára spil! hvørr vill þar um hugsa þjóð, og helgunar ei velja slóð, sem til vísta gleði greidist, gjørvøll lyst þá jarðar eydist.

2. A Guð þig! minn andi kallar, áheyrn ljá nú bænum mín, aldrei mig lát aumann falla, orði frá og boðum þín; fallinn reis mig fætur á, fljótt afleys og miskun tjá; fyrir hinna seku sauða, syndir, minn leið Jesús dauða.

3. Veit mér brúka vel í haginn, vænstu náðar géfnu tíð, svo viðljúka

sérhvørn daginn, sjáist dáða verkin fríð; að guðræktinn, aldrei eg, útaf kræki drgða veg, inn í blíða eilífð lánga, ugglaus síðan vil eg gánga.

4. Far þá stríð í friði enda, forn ánauðin kyrrð í ró; enginn qvíði' og kløgun henda, kann hvar dauðinn aldrei bjó, ummindaður, alheill þá, eg hugglaður loksins má, Frelsarann í fegurð líta, fundinn þann ei tímar slíta.

## No. 235.

Lagið: Far heimur, far sæll!

Mér, heimur! far frá, því nú þreytist sál mín að sveyma þér hjá, og glaumur þinn metandi ekki neitt er, mót unaðsemd himins, sem lofuð er mér, mig heim þángað lángar, því hér leiðast fer, :,: hégóminn einber. :,:

2. Seig mér satt: hvað er, sem heimurinn fláráði heilla nafn lér? reykandi skuggi og ský a-flug hraðt, skjótt uppþotin bóla, sem hjaðnaði' og datt; í sút vafin misshýníng sannkolluð hér, :,: hégóminn einber. :,:

3. Hvað auðurinn er? sa afguð, sem dárunum dýrmæti ljer, og tældi svo marga mjøg frómleika frá, en féck þó ei mettað þann fýsti því ná; þú, rík-

dómur! ert, eins og reynist þú mér, :,: hégóminn einber. :,:

4. Hvað gyldir heims makt, hans óskapa veldi, hans oflæti stakt? hvað opt er það øfundað, offsókt og hrjáð? hvað opt glatað, umbilt og hatað og smáð? þinn skrúður, þú dárlega dramb-semi! er, :,: hégóminn einber. :,:

5. Ábl, aldur, hvað er? hvað snilli? hvað heilbrigði' og heppileg kjør? hvað unnusta mannanna, aðstoð og ráð? hvað erfiðis ákafi, mæða, manndáð? hvað er það, nær dauðinn oss útkalla fer? :,: hégóminn einber. :,:

6. Því far þinn veg nú, þú heimur fallvalti! og hjálp þín ótrú; eg sný hug til himins og hann stunda á, til Herra míns Jesú, minn Frelsara sjá; þar hjá þeim útvøldu' hann hét og bjó mér, :,: víst sjálfum með sér. :,:

7. Þar mun eg það fá, sem hér á jørðunni' ei heyrði né sá, þann ríkdóm, þá virðíng, sem varanleg er, þá vegsemd og gleði, sem aldreji þver, þá einkis eg sakna, því ávinn gjørvallt, þar Guð er mér allt, minn Guð er mér allt.

8. Sæl verður sú stund, eg síðasta burtfarar sætann fæ blund, nær sála mín duptinu sig skilur frá, til síns Guðs

og Skapara upplíða má; sú komi sæl stundin! mér komi' á hans fund! kom dauða kjær stund! kom mér á Guðs fund.

---

## 9. Fyrirbænir.

### a) Fyrir øllum yfir høfuð.

No. 236.

Með sínu lagi.

Géf þinni kristni góðann frið, ó Guð! um allar tíðir, því eckért høfum vér annað lið, einn þú fyrir oss stríðir, sjálfur Guð vor sannur Faðir!

2. Þú einn heilagann hug og ráð, og hreint framferði veitir; gef oss það hjarta' af þinni náð, þíns orðs alleina leiti, eptir því í øllu breyti.

3. Þó vor misgjørð sé mørg og stór, með náð vyrðstú það bæta, í líkn og miskun lít til vor, lát oss ei hegníng sæta, en fyri Jesúm mildi mæta.

4. Um það biðjum vér øll þín børn, að frið viljir oss géfa, með þinni hønd og mildri vørn, móti óvinum oss hlífa, þér til lofs svo mættum lifa.

## No. 237.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Gud! þú kannt og vilt oss veita, vora
þad sem bætir þörf, um adstod þína
ecki neita, allra blessa kall og störf! auki
krapta oss þín nád, ad efla brædra heill
med dád, ad vér gögnumst æ sem flest-
um, unn oss, Gud! vér hug á festum.

2. Krónu þeim þú baudst ad bera,
byrdi létta gjördu hans, þér til heidurs
hann lát vera, heill ríkis og Íslands!
fús sérhvörjum gefi gaum, sem gjörir
rétt og sannleiks taum, dregur, efli lán
svo lýda; laungun hans sé þér ad hlýda.

3. Valdstjorn bjóda vyrdstú' á landi,
vitsku þræda rétt á mid, ad vernda
góda', en varna grandi, veit hjálprædi
þitt og lid; þeim oss dygda lýsa' á leid,
léna trygd, en forda neyd; sín embætti
veit þeim vanda, vel af mætti' og nád
þíns anda.

4. Blessa þá, sem bygdir yrkja,
blessa þeirra sveita' í frid, med vellídun
vyrdst þá styrkja, vid forsjálni, heidur,
grid, hvörn ærlegann ydju-mann, í
stétt sinni blessa hann! lát þad vera
sérhvörs sóma, sæmd vors efla lands
og blóma.

5. Gud! þitt ord og andi leidi, oss á dygda vegi hér, adstod neina oss þú greidir, eckért megnad fáum vér; þér ad þóknast unn þú oss, svo ødlast mættum dýrdar hnoss, þad trúlyndum þínum géfa, þjónum sidar munt án efa.

## No. 238.

Lagid: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

Fadir! þenk til þeirra', er gráta, þúnga mótgángs undir hér; virdstú krapt þinn vera láta, vægd og styrk þeim naudir ber; allra kjør um lá og lønd, leika, Gud! í þinni hønd, þú kannt græda, þú kannt særa, þú kannt hriggja, og endurnæra.

2. Í verndar þinnar skjóli' og skugga, skulum vér lifa sorga frí, fyrir ótta, fyrir ugga, fridi gódum jafnan í. Gud! þín miskun eilíf er; eins framvegis géf oss hér, allt hvad þurfum og til þinnar, ávalt þénar dýrdarinnar.

## No. 239.

Lagid: Heidrum vér Gud, af huga' og sál.

Vors Herra Jesú verndin blíd, veri med oss á hvørri tíd; Gud huggi þá, sem hrigdin slær, hvørt þeir eru fjær eda nær; kristnina efli og auki vid,

yfirvöldunum sendi lið, hann gefi oss öllum himna frið!

## No. 240.

Lagið: Gjörvöll kristnin skal gleðjast nú.

Þín hátign, Guð! um eilífð er, af dýrðar-stól himnanna, í náð til jarðar samt þú sjer, sendir heill bygðum manna; æ vér þig biðjum allir nú, að vort föðurland blessir þú, veitir frið, velferð sanna.

2. Gef vorum Kóngi gæfu' og ráð, gagn stunda landa sinna, að elska frið en efla dáð, og þegnum heill ávinna; kall sitt að rækja kenn svo hér, kórónu' að lífs í dýrð með þér, veitist og vegsemd finna.

3. Vors Kóngs Ráðgjöfum veittu náð, vísdóm og aðstoð sanna, og stjórna þeirra ydu óg dáð, öllum til gagnsemdanna, svo allir góðir eignist frið, og með réttvísi geymist við, árásum illra manna.

4. Faðir! lát rigna foldu á, frjófgunar krapt af hæðum, umgirð vort land og geym það frá, grimmum hernaði' og skjæðum; Guð! þú með speki gjörir allt, gef oss að treysta þér ávallt, bæði í meðlæti' og mæðum.

5. Gef þegni hvørjum gèdjist hèr, gaum skyldu sinni' ad veita, á sjó og landi brauds sem ber, og blessunar þinnar leita; ástundi svo med ást og dád, adstod, huggun og þarfleg rád, voludum jafnan veita.

6. Láttu oss, Drottinn! líkjast þèr, og líf vort dygdum prýda, gef øllu því, sem gjøra ber, góda framqvæmd, heill blída, føðurland rètt uns finnum vèr, hvar fáum betri styrk enn hèr, þèr, Fadir! þjóna' og hlýda.

## No. 241.

Lagid: Gudi lof skal ond mín inna.

Frid veittu voru landi, voldugi Fadir! fyrr og síd; Yfirmønnum øllu grandi, og undirgefnum forda lýd. Þá lídur ad lífsins enda, og linnir heimsins stund, gef oss þinn guddóms anda, sem gledji vora lund! vort athvarf allt í heimi, og adstod Drottinn er, hans hønd oss hlífi' og geymi, vid háska' og naudum hèr.

## No. 242.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Lát landid frjófgun fá, fulla og sæta; rèttinn sinn framgáng sjá, og sann=

leiks gjæta. Gud gefi mér, minn deildann verd á medan, og til þess eg vid grøf, aflegg minn ferda staf, og held burt hédan!

## No. 243.

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

Kóngsins lífdagar fjølgun fái, fyrri og síd í blessun hér; hans stjórn lucku og heillum nái, hans kyn blómgist, uns tíd øll þver! ó Gud vor Fadir! oss heyr nú, vér æskjum þess hann blessir þú!

2. Umkríng hans sæti sífeldt skíni, sannleiki og náð, réttlæti med, þín adstod hann med heidri krýni, heill og fridur hans lífgi géd; ó Gud vor Fadir! oss heyr nú, vér æskjum þess hann blessir þú.

## No. 244.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi.

Heidur, frid, lucku, lán og gædi, legg yfir þann, sem Kóngur er, landastjórn hans og hjarta bædi, himneski Kóngur! líki þér; landa búum hans legg þau ráð, ad lucku fái' og gjæfu náð.



## b) Á Stríðs-tímum.

### No. 245.

Lagið: Væri nú Guð oss ekki hjá.

Sé Guð með oss, vér engri þá, ólukku þurfum kvíða, hann má traust setja hvørr einn á, í hrigðum mæðu tíða, hann sá gæði Guð hjá oss er, hann frelsar oss, því skulum vér, hans gladir hjálpar bíða.

2. O Guð! þú hefir opt það gjørt, er menn síst vænta kunnu, já opt þá ský umkríngdu svørt, inndæluft ljós upprunnu; von þegar komin' var í þrot, vér þinnar hjálpar fengum not, mein farga oss ei unnu.

3. Vér biðjum þig, vor blíði Guð! bæn vora heyr, sem faðir! set takmark stríði, sorg og nauð, send oss frið, svo að gladir, þitt frelsi sjáum, þitt í hús, þakklátur gángi hvørr og fús, þér príss að hefja hraðir.

Géf þinni kristni góðann frið.
(Sjá No. 236).



## c) Í skjædum stór-sóttum.

### No. 246.

Lagid: Vari nú Gud oss ecki hjá.

O Gud! hvørs nád og adstod blíd, er þeim vís, sem þig bidur, þú sendir oss nú sorgar tíd, svo burt vor hverfur fridur; ángistin girdir um oss því, allmørgum daudinn kastar í, grafar nid-myrkur nidur.

2. Oss nidur-lúta, í naudum því, nýar hørmúngar græta, daudanum hljótum hardtnær í, hvørju fótspori mæta, einn vinur flýa annann má, og bródir fordast bródur sjá, síns lífs sjálfur ad gjæta.

3. En verdi, ó Gud! vilji þinn, var hann og er þad besta; vægdar þig bidjum vér hvørt sinn, von høfum á þér festa, þó ædi daudinn enn á ný, øllu til góda stýrir því, þín ødur-mildin mesta.

4. Þeirra styrki þinn andi ønd, er hédan sviptast ega, rétt þeim í dauda hjálpar hønd, ad hafi trú ódeiga; von um fullsælu vek þeim hjá, værd andar lát þeim gefast, þá, í fridi fara mega.

5. O Drottinn! minnstu mæddra vel, mildi gled alla þinni, veit oss hreintrúad hjarta-þel, hrind frá oss efa

sinni; géf ad í qvøl og kjæti vér, kappkostum ad oss daudinn hér, vidbúna vel æ finni.



## d) Í Landplágum.

### No. 247.

Lagid: Jésús Kristur er vor Frelsari.

Réttláti Gud! hvørs hegníng strída, hrædilegt er ad sjá og lída; í Þinni hendi er himin stór, hafid, jord, eldíng, vindar, snjór.

2. Hvad sem Þú býdur, hlýdir, kémur, hvad Þú vilt afmá sjest ei fremur, ársæld, hallæri, audnu, pín, almáttug stýrir forsjón Þín.

3. Æ Gud! sjá nú hvad yfir dynur, undir hørmúngum land vort stynur, Þín børnin qveina' og barma sér, bodi daudans Því geist umfer.

4. Mønnum og sképnum missist fridur, menn og sképnur Því stynja vidur, hvørttveggja Þetta, Herra! Þó, høndin almáttug Þín tilbjó.

5. Lifandi Gud! sem lífid lénar, og lífs heill vorri sjer hvad Þénar, minnst vor í nád og vægd oss sýn, vér treystum uppá gjædsku Þín.

6. Bjód þú land-plágum, hættu, hrigdum, ad hverfa burt frá vorum bygdum, födurland vort og fólk allt hér, Fadir! í miskun tak ad þér.

7. Bjód himni, jörd og hafi líka, Herra! oss færa blessun ríka, forþéntu straffi væg oss vid, vort land umgirdtu þínum frid.

8. Géf oss framför í gódum dygdum, gjæt vor vid syndum, qvöl og hrigdum, vernd þín oss geymi' um vötn og lönd, vér felum oss í þína hönd.



## e) Fyrir Deyandi.

### No. 248.

Lagid: Öldúngar Júda annars dags.

Þeim, sem daudinn nálægist nú, nádugi Drottinn! hjálpa þú, ó! hvad hörmúngin hardt þá skjer, hvad jardneskt er, eckért þá framar huggar hér.

2. Þinn kraptur styrki þeirra lund, sem þúngann báru dags um stund, nú er lífs dagur enda á, æ! láttú þá, qvöldværdir gódar, Fadir! fá.

3. Enginn svo hladist eymdum hér, ad vonar-sjónir missi' á þér; send veik-

um hægð og legg þú lið, lát sálar-frið, lina ofraun og gefa grið.

4. Æ! lát þá minnast á það vel, að nú síðasta' er rauna jel, og hvørn einn líka hyggja' að því, að heimi í, andstreymi við er enginn frí.

5. Þitt orð þeim sýni sannleik þann, sigur á deyð að Jesús vann, og að oss tilbjó samvist sá, þér sjálfum hjá; gef þeim traust setja allt þar á.

6. Veit þeim øbluga von og traust, um vegsemd með þér endalaust, og þá farsæld, sem er þér hjá, þitt auglit sjá, og meiri æ fullkomnun fá.

7. Vert þeirra Guð og gef þeim náð, gæð þá við andlát styrk og dáð; líkhamans þegar bresta bønd, í blíða hønd, þína, Guð! meðtak þeirra ønd.





# III. Sálmar til vissra Tíma.



## 1. Ára-skipti.

Einn Guð þér allir prísið. (Sjá No. 31).

No. 249.

Með sínu lagi.

Guðs vors nú gæðsku prísum, góðir rétt-kristnir menn! með saungum líkn hans lýsum, lof segjum honum enn, fulltíngi fyrir sitt, sem hefir af gæðsku sinni, hvørr einn trúi' eg það finni, á þessu ári' oss veitt.

2. Miskunsemd hans og mildi, vér minnumst glaðir á, og virðum víst sem skyldi, hans velgjørninga þá, er hann nú þetta ár, oss géfið hefir øllum, kónum bæði og køllum, og kunnugt fyrir oss stár.

3. Voldugur Drottinn veitti, voru á landi frið, allt fólkið einninn fæddi, og gaf hvað þurfti við, af hans misk-

unar hönd, því bygd og bæum vildi, blessun fadirinn mildi, gefa um gjörvallt land.

4. Oss hefir vardveitt alla, af födurlegri náð, ef vildi' hann yfir oss falla, sem vor er mörg óbáð, med jafnri mædu' og pín, fyrir laungu værum vér deyddir, af sorg og eymdum eyddir, hvörr fyrir syndir sín.

5. Sí-ljúfur svo sem Fadir, svo er hann mildur víst, vér fáum frelsi gladir, fyrir vorn Drottinn Krist, med réttu traust' og trú; hann af oss sviptir syndum, setur skamt hrigdar-stundum, veslum hjálp viss er sú.

6. Allt gott þú einn oss gefur, ó Gud vor himnum á! allt hvad andarbrátt hefur, allt skal þér lofgjörd tjá! í Jesú nafni nú, þín bidja börn enn fremur: blessa árid sem kémur, allra þörf uppfylltú. :,: Í Jesú nafni nú, þín bidja börn enn fremur: blessa árid, sem kémur, allra þörf uppfylltú. :,:

## No. 250.

Lagid: Herra! þér skal heidur og lotníng greida.

Eitt á enda ár vors lífs er runnid, enn oss sendast Guds af nádar brunni,

líkn, hjálpræði, líffins gjæði, lán og næði, hvarf það hræða kunni.

2. Hjartað dansi, honum lofgjörð inni, hátt til ansi, túnga, mannvit, sinni, hvörr með gáti, gøfgi kátur, Guðs náð játi, líða' ei láti' úr minni.

3. Honum sálin hlýðni sverji vísa, hans vort málið, æ skal gæðskú prísa; vort þakklæti, veri' hans mæta, vilja' að gjæta, ást svo ætíð lýsa.

4. Honum selum hagsæld árs kom-anda; hann sjer vel um oss, hvað mun þá granda? oss hann seka, ei útrekur, allann speki, hans burthrekur vanda.

5. Alvöld mildin, øllu þú sem ræð-ur! enn góðvildar seð oss þinnar gjæð-um; auðga dygðum, hamla hrigðum, hrind burt stygðum, bú oss bygð í hæðum!

## No. 251.

Lagið: Lofið Guð, lofið hann hvörr sem kann.

Eitt nú er, útrunnið líffins ár; lof sé þér, líss Herra' og faðir klár! allt þig lofar endalaust, anda sem hrærir, vet-ur, sumar, vor og haust, vegsemd þér færir; hvør dags sól, heill veita' og gleði, heims um ból, hvervetna réði, líkn og skjól, ljúfur oss tédi, Guð hvörs mildi

gøfgum vér. :,: Tíd og eilífd heidri
hann, hans kjærleik prísi. :,:

2. Greida ber, Gud! fyrir lidna tíd,
þackir þér, þín geymdi' oss nádin blíd.
Gud og Fadir vor þú varst, varnadir
grandi, umsjón fyrir øllu barst, í voru
landi; frjófsemd af, fylltir og gróda,
enn létst haf, audlegd frambjóda, frid-
ur gaf, oss farsæld góda, allt í settri
ordu stód; :,: allt forsjónar auga þitt,
áleit í mildi. :,:

3. Allir nú, enn felum, Drottinn!
þér, allt hvad þú, oss hefir géfid hér,
ønd, líkhama, audnu, líf, øll vor heim-
kynni, Gud, vort athvarf, hjálp og hlíf!
hønd geym oss þinni. Vel munt því,
vor Gud! oss leida, bjørg á ný, bygd-
um tilreida, landi í, líkn, heill útbreida,
þér fulltreystum allir enn, :,: ad þú
blessir árid nýtt, oss sem nú géfur. :,:

4. Utbreid þú, ó Drottinn! krapti
med, traust og trú, til þín, ad fáum
sjed, orda þinna ljóma ljós, leid villtum
beina; dygd og vitska vort sé hrós, veg-
semdin eina! géf oss frid, gódum ad
halda; send oss lid, sitt hvørjum gjalda;
alla vid, ást, nád margfalda; af jørd'
og hafi braudi' útbýt, :,: hvørn med trú
sín stunda størf, styrk, Gud! og blessa. :,:

5. Kóngs vors lönd, krýn farsæld, Drottinn kjær! þín sé hönd, þeim æ til verndar nær; Valdsmenn þeirra vitsku prýd, veit styrk af hædum, ad farsæla landa lýd, létta burt mædum! géf þeim fá, gledi þá kanna, ávöxt sjá, embættis anna, blessun sá, um bygdir manna; hvörs eins blessa stétt og stand, :,: einn hvad bera' ei orka má, adstodi fleiri. :,:

6. Séf oss nád, Gud! medan lifum hér, vort allt rád, vanda til dýrdar þér; oss í dygdum efli sú, afstýri föllum, í Jesú bidjum nafni nú, neyd hrind af öllum. Íslands lýd, almáttug leidi, forsjón blíd; farsæld útbreidi, árs hvör tíd, óhöpp hjásneydi. Gud! þig heidri gjörvöll lönd! :,: þig vegsami ár og öld, allur lífs skarinn! :,:

## No. 252.

Lagid: Sædsku Guds vér prísum.

Pöck, gódi Gud! vér færum, med gledisaungum þér, hátídar hljómi skjærum, hugkátir tjáumst vér; heyr med velþócknun þú, Fadir! þad lof, er ljódum, lypt munns og sálar hljódum, á nýu ári nú.

2. Þú gafst oss lands og lýda, ljúfann, ó Herra! frid, og lagdir blessun

blída, bjargrædi sérhvørt vid; þitt væga vísdóms rád, oss hefir ætíd leidda, og alla stigu greidda, med fødur mjúkri nád.

3. Þegar til þín oss snérum, þín miskun tók oss vid; af himni hrestir erum, huggun þú gafst og frid. Hugkjæti helgri med, þér bljúgir þackir ydjum, þig, Drottinn! enn tilbidjum, þitt prísum gædsku géd.

4. Gjør nú, ó Gud! þad bidjum, géf oss blessun í ár, med oss í øllum ydjum, æ sé þín gædska klár, hvørn blessa, hvørs eins stand! lát vísdóm vaxa' og dygdir, vellídan késji hrigdir, blessa Kóng, lýd og land!

## No. 253.

Med sínu lagi.

Rís upp, mín sál! ad nýu nú, nýa lofgjørd uppbyrja þú, því nú er nýtt ár komid, nýr skeinkur þér, nýgéfinn er, nýrunnid himna blómid.

2. Lof sé þér, Gud! fyrir lidid ár, lífs heillin mín øll í þér stár, ó þú, minn andar kraptur! sem vægdir mér, svo enn eg er, á nýtt ár kominn aptur.

3. Þú hefir verndad vedhlaup mitt, vel, svo eg gjæti þnossid þitt, á nú um-

lidnu ári, líkham og önd, þín líknar hönd, leiddi úr hættu og fári.

4. Einn varstú traust og unan mín, ein mig verndadi gædskan þín, eg gékk í geymslu þinni, hagsæld og ró, þín hönd mér bjó, og huggun sálu minni.

5. O! mín sálar heill hjartanlig, haldtú því sama fram vid mig, á ári inngángandi, handleidslan þín, sé hlífdin mín, vid háska' og öllu grandi.

6. Ný miskun ári nýu á, nýa mér qveiki laungun hjá, þér einum þjóna, hlýda; mitt kall og stétt, trúr rækja rétt, rór þvaggja', ef vilt, hid strída.

7. Þá æfi árum hallar hér, hjástod best, Fadir! vertú mér, géf endíng glada nauda; athvarfid mitt, skal ordid þitt, eins í lífi sem dauda.

8. Allt þad gott, sem mér unntir þú, almáttug hönd þín geymi nú, og blessi mig og mína, þitt andlit blídt, um árid nýtt, yfir mér láttú skína.

## No. 254.

Lagid: O Drottinn allsvaldandi!

Þöckum vér Gudi gladir, af gódu hjarta, hug' og trú, allir sem innsafnadir, erum í Drottins húsi nú; hann oss gaf, líf, og lénti, líknsemd af, hvad

sem þénti, ei hann svaf, allt sá best er hennti.

2. Vor Gud! þér vegsemd tjáum, vardveitslu þína fyrir og nád, framar enn skynjad fáum, forsjón þín hefir ad oss gád; fyri hlíf, heilsu, gródnr, hjálp vid kíf, næríng, fódur, þér eilíf, þöck sé, Fadir gódur!

3. Æ! fremur enn þig bidjum, oss réttu þína Födur hönd, ad allt til lofs þér ydjum, andi þinn styrki vora önd; auk oss dád, audgast dygdum, um vort ád, varna stygdum, í sorg oss nád, send frá efri bygdum.

4. Lát hvörn árs-daginn eina, æ kénna jafnan sért oss med, og menn í öllu reyna, ad stjórn þín mild þá fær ásjed. Fadir! vér, forsjá þinni, felum hér, líf, heimkynni, allt hjá þér, adstod, blessun finni.

## 2. Missira-skipti.

### a) Vor-Sálmar.

No. 255.

Lagid: Gæd-skurikasti græðari minn.

O Herra Gud! eg þacka þér, þú hefir hlíft og stjórnad mér, á nú um-

lidnum vetri, háska og slisum varnad vid, veitt blessun, næga hlífd og lid, mér og mínu adsetri. Drottinn! Drottinn! eg kann eigi, út ad segja, ástar anda, miskunar þinnar mér til handa.

2. Samt hefi' eg syndgad mikid og mjøg, móti þér hátign guddómlig! minn Gud! minnstú þess eigi, lát yfirgnæfa gædsku þín, gjørdu enn framar vel til mín, hvad eg efa aldreji. Drottinn! Drottinn! mín hefir gjætt og meinin bætt þín miskun ríka, unn mér hún fylgi' á eptir líka.

3. Missirid er'nú umlidid, en hid nálæga tekur vid, því bid eg, Herra hyri! ad mig leidi þín hjálpar hønd, hættulaust yfir mein og grønd, og' athøfn allri stýri; Drottinn! Drottinn! ad øndu minni máttur þinn og mildi gjæti, líkhaminn sømu lidsemd mæti.

4. Inngáng bædiog útgáng minn, áform og hegdun serhvørt sinn, farsæl þú, Gud minn gódi! mér og minni svo stjórna stétt, ad stundi' eg hana vel og rétt, í þinnar forsjár flódi. Drottinn! Drottinn! leid þú mig um luckustig frá lasta voda, vyrdstú mig ætíd í øllu stoda.

5. Allt hvad eg gjøri og gjøra læt, Gud minn blessadur! ad því gjæt, svo

farnist farsællega; reisur mínar og ráðahag, ræðu og ástand nótt og dag, annastu alla vega, Drottinn! Drottinn! leyf þú ei eg lífs á vegi lostum sinni, mig fel eg þér og mitt heimkynni.

6. Leið þú mig, Guð! þann vissa veg, sem vísa orð þín guðdómlig, um alla æfi mína, geym mín í sannri guðrækne, gef þú að eg innlæstur sé, í vernd og vøktun þína. Drottinn! Drottinn! leifðu mér, að lifa hjá þér og lausnar degi, fagna, náð þína svo mikla megi.

## No. 256.

Lagið: Guði lof skal ond mín inna.

Vetur er enn á enda, eilíft lof sé þér, Faðir kjær! þú létst oss lucku henda, og lagðir það til, sem þurftum vær; þú hefir øll vor efni, annast við fári' og nauð, verndað í vøku' og svefni, og veitt oss daglegt brauð; varnað voða og føllum, veðra og húngurs pín, afstýrt stórslisum øllum, og stoðað vel børnin þín.

2. Enginn kann yfirvega, alla blessun sem veittir þú, andlega og stundlega, á þessum liðna vetri nú, heilsu, lán, heill, bjargræði, hofum enn þegið vér, margsháttar gagn og gæði, gafst þú oss, Drottinn! hér, þú hlífðir hásķa'

og grandi, héldst bygd og sképnum vid; þú veittir voru landi, verndun á alla hlid.

3. Þakklætis offrid þýda, þyggdu nú af oss aptur á mót, fyrir ást og ásjá blída, øll velferli og nádar hót; svo fyrir Son þinn mæta, sendann til lausnar oss, þú létst hann borga' og bæta, brotin vor øll á kross; í honum allt þid góda, oss veittir, Drottinn! þú, þér gjørum þakkir bjóda, þad er vort offur nú.

4. Hvørr kann ad tjá og tína, trúfesti þinnar sérhvørn vott? eda med ordum sýna, allt, sem landsbúum veittir gott? auga þitt ad oss gádi, eyra þitt heyrdi' oss vel, hondin þín hjálpa nádi, hýrt var þitt ástar þel. O þú, Drottinn alvaldi! allt gott er létst í tjé, hér og um allar aldir, æfinlegt lof þér sé!

## No. 257.

(Eptir gódann Petur).

Lagid: Kjær Jesú Kristi!

Guds gædsku prísa, geymar, høf og stord, lof hans auglýsa, lifandi manna ord; himnanna hersveitir, Herrans votta dád, allt gott enn oss veitir, ástin hans og nád; merkin tída hentug

hann, høgum ský̈da setja vann, vorum hlýda kjørum kann, kjæla' og sólar bráð.

2. Ðís enn framleiddi, eitt um vetrar skeið, Gud og lífs greiddi, gánginn heim í leið; vodanum afvendi, vedrin gjørdi hæg; leika lét í hendi, lífsins medøl þæg; gaf fárádum huggun hann, hressíng þjádur jafnan fann, oss í nádum veitast vann, vegnan gégn og næg.

3. Med hvørju má eg, minn Gud! heidra þig? ekkert til á eg, áttu sjálfur mig; þitt eg þér skal bjóda, þad er mín ønd og líf, prís þinn lystugt ljóda, lán hvørt reyni' eda kíf. Offur greidi' eg þackar þér, þig tilbeidi: vertu mér, lífs um skeid, sem eptir er, unan, von og hlíf!

4. Ný nádar gædi, nýu sumri á, líf, føt og fædi, Fadir! vyrdstu ljá; gagn, sem gengid stydur, gefi' oss himininn, frami, heilsa, fridur, fylgi' oss út og inn. Fénadar hjørd ei finni naud, færi jørdin øllu braud, lands umgjørdin láti aud, ladast ad oss sinn.

5. O Jesú! á þér, øll mín grundast von, haf bústad hjá mér, heilagi Guds Son! einkum lífs vid lotin, láttu anda þinn, þegar eg máttar þrotinn, þenki' á dauda minn, huggun sedja hjartans

þel, hugann gledja deyds vid el, heim þá qvedja kann eg vel, og koma í himininn.

6. Þar sífeld sæla, sem ei bregdast kann, og líf inndæla, æ vid leikur mann; alla' án enda gledur, ástin Drottins heit, unun ædstri medur, í heim dýrdar reit, eymdá róli frelsud frá, fyrir stóli lambsins þá, hofud bóli himins á, heilög dvelur sveit.

## No. 258.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Lof sýngid, gøfgid gladir, Gud vorn Skapara prísa ber, sem med oss fer, sem Fadir, framleiddi jørd og himna her, gøfgid hann Gud, hvørs haldist, grunnlausa hefir nád, frá eilífd og um aldir, allir hans miklum rád, vor=føgnud blídt útbreidir, bod þitt, ó Gud, vor Gud! þér lofgjørd, þøck og heidur, því sýngur ønd vor glød.

2. Voldugur, vís og gódur, veturinn, Fadir! létst frammgá, her náttúrunnar hljódur, hvíld tók og sem í dvala lá, med vor=blóma blídum vakti, bendíng þín hann til lífs, hýrt brosti og burthrakti, blíd sól þraut vetrar kífs, il=gjøsum enn útfleytir, øllum því gledi

ljær, fjør hressíng, frjóssemd veitir, farsæld um bygdir grær.

3. Gud, allrar gjædsku lindin, gledst enn náttúran øll vid þad, í daggardropum sendir, dýra frjóssemd hér ofan ad; strax blómi skógur skrýdist, skraut jardar nýskéd læst, inndælum urtum prýdist, engid er blómstrum glæst, lopt hlýtt, ylmur ágjætur, øll lada til vor hnoss, vor-gjæda' er, Gud! þín lætur, gædska útbýtast oss.

4. Um vøllu' og grænar grundir, gjædsku þinnar bergmála róm, ótal þúsund þúsundir, med þrá-samstilltum gledihljóm; lof þitt um loptid dunar, løfa þig blómstur strád, fjall, laut og lækja buna, lof róma þinni nád, hvørt hljód føgnudi fyllt er, fagrann æ sýngur prís, oss því ad þakka skyldt er, þína trygd, Gud alvís!

5. Ei skal þó túngan eina, algódi Fadir! prísa þig; hjartad í ástum hreina, hefji med gladværd til þín sig! sífeldt skal vor ósk vera, med verkandi' ást og dygd, hér vora þøck ad færa, þjóna gladir med trygd, vér lífs tóm vort hér helgum, vor skal ástundan sú, ad lærum, fúsir fylgjum, Fadir! því skipar þú.

## No. 259.

Lagid: J Jesú nafni uppstá!

Ný upprann þín sumar=sól, vottur til um eilífd eigi, ad í minni grøf eg þreyi, vor Gud! athvarf vort og skjól! úr ham vetrar følum færir, fold þín al= vøld máttar=hønd, uppýngd sképnan hýr sig hrærir, um hafid, lopt og ílnud lønd.

2. Gud! þín lindin gædsku ný, med árdøgg foldu fredna kjætir, frjófum med qvøld=skúrum vætir, sólar vermda hollum hlý; tímar árs í ordu' er settir, enn nú skiptast, lof sé þér! þraut skamm= dægra ljós þitt léttir, líka af nordurs búum hér.

3. Þú upplýkur þinni hønd, gledur, blessar, gnægtum fyllir, gæda þinna' en harma stillir, þeirra sképna', er þágu ønd, þín af feiti' og frjóssemd drjúpa, fótspor þá í skýum gár, ástar undra af= grunn djúpa, opid hvørri sképnu stár.

4. Lautin, brekkan brosir hver, sád= grøs, ótal urtir gróa, oss ad sedja' og gledja þróast, skógur bjørg og skjólid lér; í ótal lækjum ad oss streymir, un= adsemdum náttúran, af þér fyllt, þá gledi geymir, gnótt, er tæmast aldrei kann.

5. Hvørr finnst góður, Guð! sem þú? trúfast, ørlátt hvar er hjarta, á hvørju Foður nafn eins skartar? vér undrumst þína ást og trú; án þín, Guð! vér glatast hljótum, glæpugt líf vort til þess vann, vér þó lífs og náðar njótum, nægta, er mildi þín oss ann.

6. Dilum lýsir ljósið þitt; engann vantar ástar gæði, ó! þín náð er vort lofqvæði, og þín vægð, sem oss lét fridt! Guð tilbiðjið, gøfgið, qvedið, Guðs náð prísið, virðið, menn! hvað margt gott vor Guð oss tédi, gott hvað margt vill tjá oss enn.

## No. 260.

Lagið: Guði lof skal ønd mín inna.

Nú skal enn í Guðs trausti, uppbyrja nýann missira hríng, lífsins hertoginn hrausti, hafdu gát á oss allt um kríng. Nýa blessun, nýtt sumar, nú lát oss fara hér, hvað um lopt, haf, jørð sveimar, hlýða má, Drottinn! þér; lát nýa náðarstrauma, nýkomna frjófga tíð; virðstu vernda og geyma, veikstaddann Íslands lýð.

2. Géf þú oss farsæld góða, géfðu oss enn í landi hér, af jørðu gras og gróða, gagn sjáfaríns og heilsu kjør, blessun um bygðir allar, bjóð andar, líkhamans,

enn heillum oss tilfalla, ábúum þessa lands; svo gladir náum njóta, næríngar lífs og auds, þá skal ei þockin þrjóta, þágu vors daglegs brauds.

3. Kóngsins tign stødug standi, styd þú, Drottinn! hans Rikis-ráð, fridurinn fordi grandi, forsjón þín blessi Ísaláð, vøld, kirkju, kristinndóminn, kénníng, trú, líf vort hér, eilífi lífsins ljóminn! leid allt til dýrdar þér; vorn innog út-gáng bædi, øll verk og ferdalag, bygdir og øll bjargrædi, blessa þú nótt og dag.

4. Alla lands Yfir-herra, í þína felum verndar-hønd, eign og embætti þeirra, og alla menn um þessi lønd. Íslands vorn enn veri, þín voldug hjálpin sterk, oss svo hér enginn géri, áhlaup né skémdar-verk; þig ef menn vita vera, vorn skjøld á alla hlid, þá mun alls enginn þora, oss spretta fíngri vid.

5. Í stjórn og umsjá vorri, ytri og innri fridur sé, ytri í høndlun hverri, hinn gód samvitska láti' í tje; en sá eilífi fridur, oss géfist himnum á; þín hjørd, ó Herra! bidur, hana í náð lít á; vor heill, athvarf og verja, vertu í

landi hér; svo skal Sumarið byrja, með sønnu traustí' á þér.



## b) Haust-Sálmar.

### No. 261.

Lagið: Gæðskurikasti græðari minn.

O Guð heilagur, heilagur, heilagur Guð og Drottinn vor, blessaður um aldir alda! þér offra eg þakklæti nú, þig ákálla með bæn og trú, þér vil eg gott lof gjalda, Guð minn! Guð minn! skyldt er mér að þakka þér og þig að prísa; upp, upp minn saungur, Guðs ást að lýsa.

2. Lof sé þér heill og hjástoð mín, himneski Guð! fyrir miskun þín, og veitta velgjørð alla; sem nú umliðna sumar tíð, sýnt hefir mér þín gæðskan blíð, og lét mér allt vel falla. Guð minn! Guð minn! mig hefir leidt, og meinum eydt þín mildin ríka, bygð mína varðveitt og blessað líka.

3. Upplokinn fann þinn ástar brunn, eg og þitt náðar djúpt afgrunn, minn Drottinn! mér til handa, þaðan kom mér øll þørfin mín, því prísa eg nú gæðsku þín, og vil þér vegsemd vanda.

Gud minn! Gud minn! allt hvad er, í aunum mér, þér einum unni; lof þitt sé jafnan í mínum munni.

4. Allann mig, Drottinn! offra' eg þér, á nú komanda vetri hér, og alla æfi mína, lát mig umflýa lasta verk, leidi mig jafnan hønd þín sterk, geym mig fyrir gædsku þína. Gud minn! Gud minn! hvar eg er, og hvørt eg fer, og hvad eg gjøri, skil aldrei vid mig, hyrdir hýri!

5. Allt þad, sem ecki þócknast þér, þad virdstú taka burt frá mér, vel svo þínum vilja hlýdi; en þad, sem þér er þægilegt, og þénar til þinnar dýrdar frekt, géf mér þad, Gud minn blídi! Gud minn! Gud minn! verk mín øll, og vegnan høll, sem málog minni, farsælist af þér úti' og inni.

6. O Herra! tak þad allt frá mér, er mér kann snúa burt frá þér, svo ockur enginn skilji, ó Drottinn! géf mér øptur þad, er mér kann þér ad snúa ad, er þad mín ósk og vilji. Gud minn! Gud minn! virdst æ hér, ad vera med mér, minn Herra hýri! eilíft lof sé þér, Drottinn dýri!

## No. 262.

Lagid: Gudi lof skál end mín inna.

Lof sé þér, Drottinn dýri! døgum og øldum stjórnar þú; há-sumar tíminn hýri, hann er kljádur á enda nú; ó hvad ótal morg gædi, oss gaf þín nádin blíd, líf, heilsu, føt og fædi, farsæla sumar tíd, trú klára' í kyrrd og fridi, kristinndóms medøl øll, þín hjálp vard hvørjum ad lidi, svo hrepptum ei slísaføll.

2. Med mjøg margføldum gædum, miskun þín krýndi sumars tíd, frjóssemd af himna hædum, hefir á jørdu audnast lýd, land og sjór gagn og gróda, géfid hefir oss nú, áhlaupi íllra þjóda, oss hefir fordad þú, yfir og undir-stéttir, ásá þín milda hønd, í þína umsjón settir, almennilegt tilstand.

3. Þér gjørum þakkir færa, þýdi Fadir! af hug' og trú, lof þitt eblist og æra, vid allt þad, sem oss veittir þú; en hvad á hvørjum degi, høfum styggt veldi þitt, minn Gud! minnstu þess eigi, misverkin øll géf qvitt, lát oss ei glæpa gjalda, géf heiløg þeckjumst rád, Fadir! vid oss framhalda, fulltíngi virdstú' og nád.

4. Herra! lof þér sé þýdi! þinn fyrir Son, er dó á kross; þú blessar lønd og lýdi, læsíng atvinnu upplaukst oss; fyrir líf og lucku alla, lid, heilsu, vernd og fé, er þú létst oss tilfalla, æfinleg dýrd þér sé! svo skal sumarid enda, sýn oss þig nádugann, og virdst oss veturinn senda, vægann og farsælann.

## No. 263.

Lagid: Rís upp, mín sál! ad nýu nú.

Sjá! blóminn sumars á burt er, íklædast vetrar búníng fer, náttúran, dymma dægra, og hretin hørd, lífs lada hjørd, leita ad skjóli þægra.

2. Sjá! vér medtókum sumri á, svo margføld gædi' af landi' og sjá, bjuggumst vid lopts óblídu, bjuggumst vid þørf, vor bæa størf, budu ad verjast strídu.

3. Sjá! ad lifum og sérhvad gott, sem þegid høfum, gædsku vott, þeckjum Drottins dásamann. Oss hættum af, hreif, blessun gaf, hann leiddi' oss alla saman.

4. O Gud! þig prísar sinni' og sál, sérhvad, sem bærir raust' og mál, og sképnu skarar snjøllu; þér þackar allt, lán þúsundfaldt, þú sem vidheldur øllu.

5. Vertú vor hlíf, heill, unan øll, allt hvad lifir um dali' og fjøll, til þinnar mildi mænir; gef blessun, braud, burtvísa naud, og bøli, sem ró oss rænir.

6. Ad lifa svo ad líki þér, léna oss styrk, svo fáum vér, følnadri foldu medur, ad hvílast vært, uns hróp þitt skjært, heiminn til lífs uppqvedur.

No. 264.

Lagid: Syrgjum vér ei sáluga brædur.

Oll náttúran enn fer ad deya, ilur horfinn, saungfuglar þegja, kulid skékur qvistu ber-snauda, qveina stráin følnud mót dauda.

2. Híngad sól døpru hornauga vendir, hvørt geislana blíd fyrri sendi, foldin styrdnar, fyrr sem réd gróa, felur skugginn ljós, jordu snjóar.

3. Enn lifir þó aldanna Fadir, ó-umbreyttur, forsjá hans gladir, felum vér oss, fulltraust þad gétur, fridad enn og geymt hér í vetur.

4. Rockrum yndis nægtum þó svipti, náttúrunnar dauf hátta-skipti, alvøld speki' og elska nærgætin, áqvardadi hvad sem oss mætir.

5. Veturinn er velgjørd frá Drottni, rakir hans forsjá, aldrei svo þrotni, þad

hvørri til gagns er og góda, hans gædska mun sképnunni bjóda.

6. Hann baud vetrar-húmid oss færi, þar heillir, sem gledji og næri; Herrans nægtir hollar oss fæda, hann réd oss mót vetrinum klæda.

7. Foldar í skauti frednu hann lætur, felast qvikar urtanna rætur, uppyngdar þá út vetri hallar, í æsku-blóm nýtt lífsins hann kallar.

8. Þínum enginn þeckir af gjørdum, þúsundasta partinn á jørdu, en af því stóra sem vér þó sjáum, sanna hjartans ánægju fáum.

9. Fagnid! ord Guds fúsir ad geyma, Fadir ormanna kann oss ei gleyma; stig hans boda gángid hug-gladir! Gud er sumar og vetur vor Fadir.

## No. 265.

Lagid: Gudi lof skal ond mín inna.

Kominn er kaldur vetur, kom þú til med oss, Drottinn minn! líf vort, eign og adsetur, annist miskun og kraptur þinn. Oførum, íllum dauda, andstreymi, sorg og þrá, styrjaldar stórum voda, sturlun samvitsku frá, húngri, drepsótt, hallæri, hardindum, dýrri tíd, forda oss, Fadir kjæri! fylgi oss nád þín blíd.

2. Gefdu oss gódann vetur, gefdu oss hagstæd vedra-føll, gef þú oss gott adsetur, gef þú oss þarfa medøl øll, annastu ekkjur allar, og føðurlausann hvørn, annast þá á þig kalla, aumstaddra sértu vørn, unn oss þitt ord ad læra, og synda fordast vél, oss hjá þér unn ad vera, unn oss ad deya vel.

3. Blessa þú bygdir manna, blessud velferli lát oss fá, blessudu braudi sanna, blessun Guds orda unn oss ná; blessa vor brjóst og sinni, blessa vor verk og mál, blessa vor bæa kynni, blessa þú líf og sál, blessa þinn barna skara, blessa þú hús og menn, blessa oss, vondu vara, veturinn blessadu enn.

4. Frá ædstum tignar tróni, þín trúføst nád enn gæti vor; þér hvørr einn hlýdinn þjóni, hønd þín oss leidi sérhvørt spor; innri og ytri fridur, eining í hvørri stétt, haldist oss einninn vidur, og allskonar høndlan rétt; geym oss vid glæpa-føllum, grandi, fári og neyd, sídan úr eymdum øllum, í eilífa dýrd innleid.



## e) Eptir gott og ardsamt Sumar.

### No. 266.

Lagid: Lofid Gud, lofid hann hvorr sem kann.

O vor Gud! er nú jardyrkjan hér, útendud, allir því færum vér, þér vor Fadir! þøck og prís, þú oss blessadir, stjórnin þín er væg og vís, vér sýngjum gladir! frjófgun lands, forsjón þín greiddi, gagnsemd manns, góda tilreiddi, skepnum hans, skadsemd frá-leiddi, lífs bjorg søfnud saman er. :,: Allt hvad hefir andardrátt, einn Gud vegsami. :,:

2. Sól þín skein, sannhlý um hvolfid blátt, kulda mein, kroptug, í hvørri átt, burttók hún, en himininn, hlýtt regn oss færdi, breiddi jord út barminn sinn, blómleg grøs nærdi; yrktum vér, ardsama reita, vonin hér, vorn gladdi sveita, Gudi ber, greida þøck veita, starfid borgad vort er vel. :,: Allt hvad hefir andardrátt, einn Gud vegsami. :,:

3. Lof sé þér, launadir, Drottinn! þú, allt vort hér, erfidi og mædu nú, ydni hjá þér ávallt fann, ást og nád kjæra, heill létst þú í hvørn einn rann, himininn færa, víst ert sá, verndarinn þjóda, sem vilt oss ljá, vætu, þurk,

gróda, er þér hjá, upphaf alls góda; þér ber æra, þøck og prís. :,: Allt hvad hefir andardrátt, einn þig vegsami. :,:

No. 267.

Lagid: Í dag þá hátíd høldum vér.

Lof sé þér, hjartans hróp vort því, heyrdir þú, Fadir þjóda! starf vort borgar nú blíd á ný, blessán af jardar gróda, hvørt stráid, lauf og blómstur ber, berlega vitni ad mikil er, Drottinn! þín gædskan góda. Vér þøckum þér, þig lofum vér!

2. Heyskap vorn blessad hefir vel, hønd þín ad þessu sinni, því syngjum lof med þacklátt þel, þad medtak af nád þinni! géf oss forsjálni' ad gjarnan hvørr, gáfur, sem veitti nád þín ør, á bestann hátt brúka kynni, og þacka þér, þig prísa hér.

3. Lát vorar hendur bjóda braud, bjarg-þrota þurfa-mønnum, svo léttum undir annara naud, med ást og kjærleik sønnum; þegar vér afgángs høfum hér, hugsa lát oss ad skyldugt er, bágstøddum bjarga grønnum; svo þøckum þér, þig prísum hér.

4. Líf medan varir lát oss þér, líkjast í kjærleik hreinum, í føgnud himna

framar vér, fullkomnum hans þá reyn=
um, þó kunnum nú þinn kjærleik sjá,
klárlegar skín hann himnum á, þér sé,
Gud! æra einum; vér þøckum þér,
þig lofum vér!

## No. 268.

Lagid: Gædsku Guds vér prísum.

Vér þøckum þér, hinn gódi! þig prís=
um vér, ó Gud! ad þú af þínum sjódi,
þarflegt oss veitir braud, oss geymir
æ og nú; allt þad, sem fram þú færdir,
forsjón þín ávallt nærdi; gódur, vor
Gud! ertú.

2. Land vort blessa, lífs Herra! legg
fædu' á sérhvørt bord! lát blessun
þeim ei þverra, sem þitt vardveita ord!
ørbirgum adstod tjá; géf audgum gjaf=
mildt sinni; géf eining, svo menn
kynni, síns njóta' í fridi fá!

---

## d) Eptir bágt Sumar og í hardæri.

## No. 269.

Lagid: Jesús Kristur er vor Frelsari.

O Gud! sem rædur øllum gædum,
af jørdu, vøtnum, sjó og hædum, þín
hønd útbýtir, Herra kjær! hvørskyns
gáfum, sem þyggjum vær.

2. Allt vald þú, Drottinn! ætíð hefir, öllu, sem lifir, næríng gefur, þegar upplýkur þinni hönd, þá mettast allt, hvað dregur önd.

3. Þegar útsendir þú þinn anda, þá nýast ásýnd jarðar landa; en ef krapt dregur undan þinn, oss sparar jörðin gróða sinn.

4. Í sumar margur sá og reyndi, sínu örlæti nú að leyndi, náttúran annars nógu rík, neyð er verðskulduð af oss slík.

5. Vér kjósum gæða kjör, en sýnum, kaldsinni mikið gáfum þínum, ó Guð! refsa því ei, sem ber, enginn fyrir þér saklaus er.

6. Géf oss ánægðu enn með sinni, úthlutun móti taka þinni, og óski svo vort andvarp stillt: æ verði, Drottinn! hvað þú vilt!

7. Í hug til þinnar hjálpar stefnum, hagtær þú vorum litlu efnum; björg lífsins drýgi blessan þín, bjóð frá oss víki húngurs pín.

8. Blessa vort land og bæg frá mæðum, bjóð þú einninn að rík af gæðum, opni náttúran oss sitt skaut, og við hallæris fordi þraut.

9. Til þinnar, Drottinn! mildi mænum, miskun þín byggi' ad vorum bænum, veit þú oss hjalp mót vodá' og neyd, vertú vor Gud í lífi' og deyd.

## No. 270.

Lagid: Kom hér, mín sál! og kynntú þér.

O Drottinn kjær! hvad veitstu vel, vanqvædi gjørvoll mín! mér hjálpar æ hvar helst eg dvel, hjástod og gædskan þín, haldt mér stodugum vid þinn veg, víst þín af hjarta' ef leita eg, ró gefst, en raunin dvín.

2. Mig þó heimsæki margføld naud, mædan ef ángra fer, þó daglegt hljóti' ad bresta braud, svo banníst naudþurft mér, raskast þó ei mín hugar hægd, hef eg allskonar gæda nægd, því Drottinn líkn mér lér.

3. Haf því í skorti gladvært géd, grátin og hugsjúk ønd! fimm þúsund litlum mat því med, mettadi Jesú hønd; Herrann skérk þínum hefir ei gleymt, heldur þér nóg til vista geymt, þó úrrædi vyrdist vønd.

4. Hvad hann þér gagna sjálfur sjer, sannlega muntú fá, heims nægta þó ei heppníst þér, herra-bord vid ad stá, lát þér nægjast í lægra sess, lífs upp-

heldis ad neyta þess, sem skamtar hønd hans há.

## No. 271.

Lagid: Gædskurikasti grædari minn.

Þad er svo margt og mikilsverdt, minn Drottinn! sem þú hefir gjørt, mig vid um mína daga; allt var þad gott, eg þacka þér, þín forsjón mild útbýtti mér, því, sem best hér nam haga; Fadir! Fadir! veiti' lid mér, þad eptir er, og øllum líka, guddómur þinn og gædskan ríka.

---

## e) Eptir allgódar og ardsamar Vertídir.

## No. 272.

Lagid: Gudi lof skal ønd mín inna.

Frá þér, ljósanna Fadir! flýtur øll gjøf, sem nefnist gód, vér sjáum vonar=gladir, þú veitir allt, sem hentar þjód, á þitt ørlæti mænir, allt hvad lífs hræríng ber, hæd, vøtn, laut, hálsar grænir, herma oss stórt þad er, hafid baudst heita skyldi, hirdsla audæfa þín, þadan þín midlar mildi, mørg gædi skepnum sín.

2. Þínu lífs eptir ordi, ad þeirri hirdslu søfnumst vér, sem børn ad fødur=

þordi, blessunar þinnar leitum hér; enn gaf þín ørlát mildi, oss þadan gódann plóg; hvørr er, sem ecki skyldi, upphrópa: þú gafst nóg? dýrd sé þér, Gud! sem géfur, gott allt til sjós og lands; allt hvad andar-drátt hefir, efli prís Skaparans.

3. Hverr kann þér, Herra! næga, herma vegsemd og þackargjørd? þú safnar forsjón fræga, fiskum hafs, sem menn sauda-hjørd, midt í sjós ólgu øldum, opnar sig hønd þín gód, med gædum svo margføldum, mettir þú landsins þjód; því hættulegri heita, hér vor erfidis kjer, þess betur þrátt vorn sveita, þín borgar mildin ør.

4. Lof þér, Gud! allir inni, allt má nefna þíns kjærleiks vott; lát oss nú líkjast þinni, líknsemd í því ad gjøra gott; géf oss med gáfum þínum, góda ánægd og frid, hallæri, háska, pínum, Herra! oss forda vid, géf ad vér lifum gladir, greid þú oss allt í hag, vér þinni forsjón, Fadir! felum oss nótt og dag.

## No. 273.

Lagid: Jesú Kristi! vér þockum þér.

Prísi Drottinn allt hvad er, øllu sem næríng géfur; af brunni hafs=

ins bjørg oss ljer, blessad enn land vort hefir! ó Gud! hvad værum vér án þín? virdst oss framvegis gledja, med þinni líkn, uns líf vort dvín, lands heillum gódum sedja. Lát oss annt ad gjøra gott, gjøf þína svo rétt brúkum; þacklætis sýnum þar med vott, ad þurfamanns tár, afstrjúkum. Drottinn! þér einum dýrdin ber, vér þockum þér, þig lofum vér!

## f) Eptir bágar Vertídir og í Fiskileysi.

### No. 274.

Lagid: Hvørr, sem ad reisir hæga bygd.

Gud! þinni stjórnun hæfir hrós, í hrigdum, skorti, mædum, þín hefir høndin líknar ljós, lykil ad øllum gædum; nær þeim upplýkur lætur lýd, luckusæld hreppa' á hvørri tíd, af hafi, jørd og hædum.

2. En ef þú lykur aptur þá, ørbyrgdin viss er líka, lífs næríng hvervetna landi frá, læsist hafsskautid ríka; nálgast þá húngurs neydin sár, nú hefir margur þetta ár, mátt reyna mædu slíka.

3. Fésjóð sinn hafið furðu tregt, féck oss, vér megum klaga: líkhams að lúð er fjörið frekt, forgéfins marga daga; en verði, Drottinn! vilji þinn, veitstu hvað þínum hvört eitt sinn, börnunum helzt kann haga.

4. Vér möglum ecki móti þér, miklu heldur oss fleygjum, í þinn forsjónar faðminn hér, felum oss þér og segjum: æ Fadir! mikla mildin þín, miskuni oss og fordi pín, vongóðir vér svo þreyum.

5. Það oss ei líði þánka úr, ef þykir atvinnu bresta, að skinið fylgir eptir skúr, og skort opt nægtin mesta; þú hefir allt í þinni hönd, þér felum bæði líf og önd, neyð bæti náð þín besta!

---

## 3. Morgun-Sálmar.

---

### No. 275.

Lagið: Þér þackir gjörum.

Ljómar ljós dagur, lífs kjætist hagur; sjá! ljós sveit vekur, sól nótt burtþrekur; einn Föður alda, eilífum gjalda, þöck skal þrefalda.

2. Lof hátt skal hljóma, hjálp og náð róma, Guðs geymslu bestu, gæðsku nægð mestu; bölgóðir þreyum, þar til burtdeyum, synd hatur segjum.

3. Vort kall vel rækjum, vort gagn rétt sækjum, óttumst Guð eina, elskum dygð hreina, sátt og samlyndi, sem er líss yndi, bæn og blíðlyndi.

4. Verum vongóðir, vel þolinmóðir, þrautir afþreyum, þó hér stríð heyum, síst Drottinn sefur, sinni náð hefir, heitið, hjálp géfur.

5. Mitt líf, minn andi, mín raust sýngjandi, ó Guð upphæða! um þinn prís ræða, vel sé við tamin; vegsemd skal samin, þér og þökk, Amen!

## No. 276.

Lagið: Gæðskuríkasti græðari minn.

Með friði nóttin fráleið svört, fyrir mér aptur sólin bjørt, lýsir og gladt mig gétur; í mætti' og gæðsku mikill þú, með krapti þínum, Guð! enn nú, oss tíð og takmørk setur; dýrð ber, því þér, vernd og náð og vitsku dáð, mér virdstu senda, hvørn dag í blessun hér byrja og enda.

2. Í svefni Guð mín vørnin var, eg vissi' ei af mér sjálfumþar, og háski-

ann ei adgætti; en móti hvørskyns hættu' og pín, Herrann var sjálfur verndin mín, hans forsjón fár upprætti, krapt med, gladt géd, nýann gefid, hann nú hefir heilsu minni; ó Gud! eg treysti umsjón þinni.

3. Í nafni Jesú ángurs frí, eg byrja þenna daginn því, hann verdur mér hagstædur; Guds vilja ef ad eins eg ann, allt mér til góda leidir hann, lifi og lucku rædur, hann mér, hjálp tjer, Herrann rádi, Herrans nádin hjá oss veri, hans allt, sem lifir, lof frameri!

## No. 277.

Lagid: Hvørr sér fast heldur.

Hátt upp í hædir, mitt hjarta lypti sér; Gud sem nú gædir, mig gledi, lofa ber, nýann dag vott um nýa eg sje, nád, nú sem lætur :,: nádugur Gud í tje. :,:

2. Hans nádi heyra, þá hóf eg andvarp klockt, fúst fødur=eyra, fann mína naudsyn gløggt, þá fyrsta byrjast þørfin vann, um ásjá bad eg, :,: og Amen! sagdi hann. :,:

3. Gud! hvørju gjalda, gjøf þína má eg nú? þøck þúsundfalda, hér ber eg fram í trú, ad um mig hugad enn er

þér, géf gáfur þínar, :,: að góðu verði mér. :,:

4. Enn framar feti, færist eg lífs á skeið, géf æ eg géti, gengið fram dygða leið, takmark míns lífs sé takmark það, oss fýsi' að finna, :,: nær flytjumst eilífð að. :,:

## No. 278.

Lagið: Himna rós, leið og ljós.

Dagur er, dýrka her, Drottinn Guð minn; nótt er liðin, lof sé Guði! ljós skín; gledur enn, marga menn, mirkra flóttinn, líf og sál, líka mál, lofi Drottinn!

2. Fyri þinn Son, og sælu von, sé þér hærst lof! mig þú spardir, meinum vardir, minn Guð! mér gafst frið, líkn og lið, leið svo nóttin; líf og sál, líka mál, lofi Drottinn!

3. Mig hefir leidt, og meinum eydt, miskunin þín, hvørja stundu' á heimsins grundu, hér til, mér vert hjá, mildur þá, eg missi þróttinn; líf og sál, líka mál, lofi Drottinn!

4. Ed bið þig: annast mig, enn í dag nú, fyrir þann sanna, sál-vin manna, Son þinn, veit mér náð, vernd og ráð, vægð og liðsinn', líf og sál, líka mál, lofi Drottinn!

5. Helgann dug, hreinann hug, hjá mér uppqveik, þer ad hlýda, líka lída, lán dags, og þúngann med, þolugt géd, þreya hlýdinn. Gódann dag, gladann hag, géfi' oss Drottinn!

6. Hvad eg hér, forma fer, farsælist vel, útgáng, framgáng, inngáng blessa æ minn, og í nád, allt mitt rád, annast' hvørt sinn, gódann dag, gladann hag, géfi' oss Drottinn!

7. Eg fel þér, allt hvad mér, ádur gafst þú; sé þinn dugur, mér máttugur, minn Gud! bæti sá, best sem má, breiskann þróttinn. Gódann dag, gladann hag, géfi' oss Drottinn!

8. Líf og ønd, efnin vønd, eg nú þér fel, øllu íllu, voda' og villu, ver mig; sómi og dýrd, sé þer skírd, sífeldt, Gud minn! líf og sál, líka mál, lofi Drottinn!

## No. 279.

Lagid: Fadir vor sem á himnum ert.

Ljósid dags fagurt ljómar enn, líf breidir út og gledi' í senn, minn fyrsti þánki því nú sé, þakklæti Gudi ad láta' í tje; ad eg upprisinn, frór og frí, farid gét til mins verks á ný.

2. Í værdar skauti sætt eg sváf, svefninn mér nýa krapta gaf, minn

líkham', sál og hús mitt hér, í hendi geymdir, Drottinn! þér; sú føðurlega forsjón þín, fordad hefir oss neyd og pín.

3. Hér fyrir sál og málid mitt, minn Gud! vegsamar nafnid þitt; míns hjarta traust og athvarf allt, á medan lifi' eg vera skalt; því hvørn, sem á þér hefir trú, Herra! ei yfirgéfur þú.

4. Hjálp eg uppfylli hér í dag, hvad þú baudst og minn styrkir hag, ætíd stunda med allri gát, annara' og mína velferd lát; fótsporum Jesú fylgja hér, svo fái eg himna dýrd hjá þér.

## No. 280.

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

Lít eg enn daginn létta húmi, loptid purpura geislum strád, sem lík eg ádan lá í rúmi, líf nýtt þygg af míns Fødurs nád; sje, tilbid, undrast yfir því, ad hlotid hefi fjor á ný.

2. Þessi reynsla, þó þegi annad, þar um órækt mér géfur skil, medur undrun svo má eg sanna, mikill og vís ad Gud er til, alvaldur, gódur, øllum nær, umsjá holla, sem sképnum ljær.

3. Hann lætur sképnur línar deya, líf nýtt uppýngdum géfur þeim; um

augnablik ad eins hér þreya, um ei-
lífd fagna' í betra heim; deya hlýt eg,
svo himna víst, hold mitt uppnísid
fái gist.

4. Vid von þá styrkur vil eg bída,
og vernd míns Drottins treysta hér,
mót heimsins löstum herkinn stríða,
hins leita, sem þar uppi er; holdid
temja, sem himnum á, helgadri sálu
fylgja má.

5. Æ! styrk mig, Fadir! upp svo
rísi, og lifi hér, sem sképna ný; þíns
ords og dæmis ljós mér lýsi, lastvar
svo gángi fram í því; upprisnum, lífs
nær útlegd þver, er mér þá sæla vís
hjá þér.

## No. 281.

Lagid; Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Ast þína, Gud! enn mér bodar, upp-
rennandi morgun = sól; þig ad prísa',
er vardir voda, væra ljedir hvíld og
skjól, fyrst skal ydja' og munnsins mál,
mín af blundi hresta sál, lyptir sér í
himna hædir, um hátign þína og misk-
un rædir.

2. Blunds í fadmi' eg lá sem lidinn,
líkn þín vakti' og til mín sá, endurnær-
íng, nædi' og fridinn, nádug veitti þín
forsjá, enn mér nýtt gafst aptur fjör,

ótal bjóst mér heilla kjør, er þú vildir ad eg hlyti, uppvaknadur og þeirra nyti.

3. Lífs þess krapta áttu alla, er mér gafstu nýtt í dag; til þín þenkja' og þig ákalla, í þrautum skal og gledi-hag, lífs míns Fadir! løgin þín, lífs regla sé jafnan mín; yfirvegan ástar þinnar, unadsemdin sálar minnar.

4. Eg vil þín med lotning leita, og lífs vid sporid finna hvert; í elsku' og dygd þér eptir breyta, eins hreinskilinn leynt, sem bert; þú minn vilja' og veikleik sjer; vertú aldrei fjærri mér; leid mig svo fram lífs hvørn daginn, loks ad býrdar erfi' eg haginn.

## No. 282.

Lagid: O Fadir himneski' og eilífi Gud!

Upprís mitt hjarta og í mér hvad býr, upprís mín túnga og máli rétt stýr, upprísi lofsaungur andheitur, nýr, upprísinn dags roda nótt flýr.

2. Eins og lík andvana eg lá í nótt, ecki neinn finna réd líkhama þrótt, dauda og lífs er æ millibil mjótt, mér lét þó Guds verda nád rótt.

3. Hans réttri leidi mig høndin í stétt, hún í dag greidi minn fóta-stig

rétt, hún öllum sneydi mig hamingju prett, hvørgi svo veidi mig tál sett.

4. Lát oss, Gud! neina ad lifa svo hér, lífsins svo dagana telja, ad vér, allir þá deyum, ó Drottinn! hjá þér, dýrdina erfum med lífs her.

5. Fús skal eg, Drottinn! þó bída, sem ber, bera dags þúngann, en lid veittu mér; eilífur sómi og þøckin sé þér, þig losi hvad, sem ad lífs er!

## No. 283.

Lagid: Sólin upprunnin er.

Enn til ljóss alvald þitt, á ný mig færdi, af dúrsins dái' og mitt, dug hrestum nærdi, líf, sem ad lá, lúid á fótskør þinni; vernd þín, sem vidhéldt mér, vottar, eg enn sé þér, minn Gud! í minni.

2. Því skal mín þacklát sál, þér aldrei gleyma, hegdan, hjarta og mál, holl bod þín geyma; med nýum dug, í dag hún fast ásetur, ad stunda dygd og dád, Drottinn! gef veikum nád, ad breyta æ betur.

3. Eg er í hættum heim, hans glis mig letur; en móti óvin þeim, adstod þín hvetur; eg megna allt, ef þinn kraptur mig stydur, súrt ef mér sendast

vann, sykra þad aptur kann, þitt fylgi og fridur.

4. Aldrei yfirgafst þú, þann á þig treysti; vera skal vissa sú, von mín og hreysti; í qvøld eg mun, áft og nád lýsa þinni, ad héldst mér' á þeim stig, ad óttast, Fadir! þig, svo frid eg finni.

## No. 284.

Lagid: Rís upp, mín sál! og bregd nú blundi.

Hýr aptur morgun-blída brosir, breidir út heill og fagnud sinn; vid annir heims sig ønd mín losi, og til þín skundi, Drottinn minn! fyrst allra þøck svo færi þér, fødurlega sem vidhéldst mér.

2. Hollt í svefn-værdum hlaut eg nædi, hreppti nýtt líf og krapta þar; hús mitt, líf, velferd, lánid, gædi, læst í míns Fødurs høndum var; mín gjætti forsjá fødurlig, féck ei skadrædi nálgast mig.

3. Byggd í nád, Fadir! þá sem flýtur, þøck af viknudu brjósti nú; heppinn er sá, sem hælis nýtur, hjá þér og setur á þig trú! æ skaltú vera athvarf mitt, aldrei bráft mér fulltíngi þitt.

4. Æ! hjálp mér, svo med alúd vandi, allt mitt framferdi vel í dag;

ad trúr í minni stétt eg standi, stúndi heill mína og brædra hag; leid mig á fótspor Lausnarans, sem leidi mig til himna ranns!

5. Med hugfró eg þá hlaup mitt þreyti, Herra! þín forsjá leidir mig; eg veit þitt heit-ord aldrei breytist: elskar þú þá, sem stunda þig; þú ert minn Fadir ástargjarn, eg, fyrir náð, þitt kjørid barn.

No. 285.

Lagid: Sæll dagur sá.

Sú kémur stund, kroptug fram þeg-ar alla, af grafar-blund, Guds Sonar raust mun kalla, og eilífs lífs, eda dóms vekja til. Eg verd, mín sál! einn med í þeirra skara; lífs leid er hál, líkn Drottins enn þó sparar, þig, þess ei dyl.

2. Enn vard þér vært, vægd Drott-ins enn þitt hefir, fjør endurnært, og Fødur-trygdar géfur, þér merki ný; minnstú til hvørs þad skér? Guds ást-ar géd, gjøri þér til hans snúa, ad fáir sjed, undir eilífd sig búa, hvørr skuli hér.

3. Þér vaki sá, þánki jafnan í brjósti, synd fæli frá, fýsi dygd ad kappkostir; eilífd eg flytst, vid andartak hvørt nær.

Hann greiði þér, gjørðir allar svo starfa, að stundir hér, øðrum og þér til þarfa, vel vinnist þær.

4. Rótfest hjá mér, minn Faðir! á-form þetta; kénn mér, að hér, hef eg ei búistað réttann; mitt føðurland, er mínum Guði hjá. Þángað svo eg, þaunkunum hvørn dag snúi, þann þræði veg, þar til mig jafnan búi, lið þitt mér ljá.

## No. 286.

Lagið: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

Dagur austur-lopt uppljómar, ljóss-ins Herra! dýrð sé þér, mikla vernd og milda dóma, miskun þín oss jafnan tjer; morgun-roðans blíðri brún, blessuð enn nú gleður hún; af sæng uppprísum sælir, glaðir, að sýngja lof þitt, hjartans Faðir!

2. Skapari þareð lýðs og landa, lífs og heilsu veitir hnoss, láti' hann sannleik, ljós og anda, leiða, skína' og styrkja oss, að þjóna sér í þeirri stétt, þar hann hefir oss í sett; sérhvørt bøl, sem mér kann mæta, miskun virðist hans að bæta!

3. Guð! hvað sem í øllum áttum, oss til heilla skaptir þú, eptir sínum eðlisháttum, ebli vora farsæld nú; géf

oss þenna góðann dag, góði Faðir! sjá vorn hag, oss þín blessuð gæðska geymi, gæðin full í betra heimi.

## No. 287.

Lagið: Endurlausnarinn vor Jesú Krist.

Guði sé lof fyrir ljósið gladt, liðin með værð er þessi nótt, eg vil uppríſa, og minn Guð príſa. Gæti vor Guð!

2. Hans verk því eru himin og jörð, hér með er ljós og dymman gjörð, mót mörgum voða, mönnum til góða. Gæti vor Guð!

3. Svo marga lófgjörð segi' eg þér, sem þú gafst andar=takið mér, um æfi mína, fyrir alla blessun þína. Gæti vor Guð!

4. Mínum misgjörðum, Guð minn! gleym, Guð minn! lát mig ei deya í þeim! mín verk að stunda, veit mér án synda. Gæti vor Guð!

5. Svo lát mig vera, sem þú vilt, sé æ þitt náðar=heit uppfyllt, á mér og mínum, með krapti þínum. Gæti vor Guð!

6. Séf mér að skynja endast á, æfinnar skeið og lífsins þrá; minn Drottinn góði, mér öllum ráði! Gæti vor Guð!

7. Eg fel mig nú og øll Guds børn, almáttugs Guds í skjól og vørn, í himnaríki, hann oss inntaki. Gæti vor Gud!

## No. 288.

Lagid: Sá vitnisburdurinn valdi.

Hvørn skyldi líf mitt lofa, ef lífs ei høfund þann, er lét mig lifa' og sofa, og lífga þar med vann; skyldt er og ljúft mér líka, ad lofa hinn gædsku-ríka, því verdur þess er hann.

2. O! ad mitt áform vekti, ó Gud! ad lofa þig; ó ad eg ætíd þeckti, hvad annt þér sé um mig! hjálp, Gud! á hvørjum degi, hvør ein mín athøfn segi: ljóst ad eg lofi þig.

3. Mun þá einn morgun fagur, mig vekja' af þægum blund, hinn mikli dómsins dagur, þá Drottins fødur-lund, lofsæld mig lætur gledja, lífs gledi' og heillum sedja, um eilífdar alla stund.



# 4. Qvöld = Sálmar.

## No. 289.

Lagid: Þock sé þér góð gjord.

Sólin rann, ljós leid, ljúfur Gud mig stydja, í dag vann og neyd, allri burt ad rydja, af því hans er greid, øllum líkn ad bidja, enn skal mín ydja.

2. Veit mér þrótt veg þinn, vel, ó Gud! áftunda, og ad skjótt eg finn, enda lífs, ígrunda, svo hefji rótt hug minn, hédan burt þá skunda, til fegins funda.

3. Veik mín dád æ er, abl og mentir dvína, gjørvallt rád, Gud! þér, géf eg mitt, audsýna, vyrdstú nád í nótt mér, nú eg fel í þína, umsjón ønd mína.

4. Mér ei neyd mun þá, mædu' og qvída valda, ef lífs skeid og þrá, endar helid falda, géfst mér þreid, Gud sjá, gledi' og dýrd margfalda, um aldir alda.

## No. 290.

Lagid: Kristur reis upp frá daudum.

Dags vøku' er enn nú endi, og nætur = svefn fyrir hendi; svo breytist allt í heimi hér, en himnesk gledi stadføst er. Sæti vor Gud!

2. Eilífi einvalds Herra! eg vil þér þakkir gjøra, að sendir Jesúm Soninn þinn, Sáluhjálpara' og hirdir minn. Gæti vor Gud!

3. Þú hefir á þessum degi, þyrmt mér en glatad eigi, annast svo sem þitt einka barn, ó Gud! hvad þú ert nádar-gjarn! Gæti vor Gud!

4. Eg vil þó aumur játa: eg má ei barn þitt heita; hróp synda minna í himininn, hefir opt stígid, Fadir minn! Gæti vor Gud!

5. Þú gafst mér blessun þína, þá nád hefi' eg syndum launad, í dag sem øll mín æfi-qvøld; æ! mína þúsund punda skuld! Gæti vor Gud!

6. Fadir! ó Fadir náda, Fadir sann-leiks og dáda! fyrirgéf øll mín afbrot leid, fyrir árnun Jesú pínu og deyd! Gæti vor Gud!

7. Annars eg ei má sofa, ellegar nádir hafa; hvørr vill vænta sér værd og frid, vera ósáttur þó vid Gud! Gæti vor Gud!

8. Gleym þú því glæpum mínum, Gud minn! en krapti þínum, vernda þú mig, svo vil eg traust, vel sofa' og hvílast háskalaust. Gæti vor Gud.

9. Sál, æru, audnu lífid, og allt þad þú hefir mér géfid, géf eg í þína gædsku vørn, Gud minn! vardveit þú øll þín børn. Gæti vor Gud!

10. Jesú, ¡meistarinn mildi! mín óskar sál og vildi, himneska ró og hvíldir fá, heilagra þinna landi á. Gæti vor Gud!

11. Gud géfi oss gódar nætur, Gud hjálpi' oss vel á fætur! á hann vér setjum traust og trú, trygd hans felum oss allir nú. Gæti vor Gud!

## No. 291.

Lagid: Lángar mig í lífs høll.

Hvíld er þæguſt þjádum, því hún blessíng tilbýr, Guds ad gædsku rádum, gjørdist nóttin mørg hýr, skjær frá lýdi' og ládum, laungum þegar sól flýr, aptur værd adsnýr.

2. Lof þeim lífs-foríngja, líf sem geymir vort þrátt, sætlega skal sýngja, sál og túnga mín hátt, nýrri nád umkríngja, nú mig lætur sinn mátt, og blynnir ad dátt.

3. Nú áfalla nótt vann, nádir lúdir fá menn, allann hennar óttann, yfirgnæfir værd enn, lífs um ferdar flóttann, farsæl endar hvíld senn, laun fáum þá þrenn.

4. Mína daga mig lær, minn Guð! telja svo hér, að eg skynji allnær, er síðasta qvøld mér, endíng þegar øll fær, æfistundin hjá þér, þú betra líf ljer.

5. Mér hlíf minn Guð vel eg, mínum lífs á vegi, aldur hvar sem el eg, eins á nótt og degi, forsjón hans mig fel eg, fyrir tign hans hnegi, og ædst lof segi.

## No. 292.

Lagið: Sólin upprunnin er.

Uppdregst að auga=brá, enn dauðans bróðir; mig gleyminn minnir á, og mælir hljóður: minníng dauðans, dag hvørn nú hjá þér vaki; hef' eg það huga' innrætt, haft og í dag þess gætt, að enda' eg taki?

2. O sál ódauðleg mín! ebldi' eg heill þína? hugsan sú: hverful dvín, hérvistar línа; jók hún mér megn, mót girndum heimsins blindum, og hvatti' að yðka dáð, aðhyllast Guðs míns ráð, en sjá við syndum?

3. Væg, Faðir! væg í náð, væg þú mér sekum; lát brot mín ljót afmáð, létt sektum frekum; sjá, hjarta sært, synd hatar til þín leitar, sem einka athvarfs síns, í nafni Sonar þíns, um náð ei neita.

4. Mig fødur-forsjón vann, fram í dag leida, í nótt því annast kann, og meinum eyda; hels dúr mig frá, heimi þá svæfir kaldur, ønd dýrdleg freksud, frí, fullsælu lifir í, eilífda' um aldur.

## No. 293.

Lagid: Hjartad, þánkar, hugur, sinni.

Ljóss á vængjum leid einn dagur, lengst í vestrid frá oss inn; einn þú veitst, hvørt annar fagur, í austri rennur nockurt sinn, Herra Gud! sem hefir rétt, himin-ljósum midin sett; ótal vitsku verkin ljóma, vald og gædsku' er þína róma.

2. Þér af hjarta þøckum gladir, þenna lidinn sæla dag; øllum meinum af verndadir, allra leitst í mildi hag. Géf ad minnumst allir á, enn nær dauda bar oss sá; géf því lífid vel svo vønd-um, viss sé hlífd í þínum høndum.

3. Blund á oss lát sætann síga, sig hér þinni fødur-vørn, í nótt sem máské náköld hníga, nú þín audmjúk fela børn. Sofni augad dauda-dúr, draumi sálin vakni úr, frá nátt-dægra dymmu hafin, dýrdar ljósi þínu vafin.

## No. 294.

Lagid: Kom Andi heilagi.

Til hafs sól hradar sér, hallar út degi, eitt skeidrúm endast hér, á lífsins vegi.

2. Ó Gud! hvørt annad nú, enn þá vor bídur, auglýsir engum þú, ódar enn lídur.

3. Nóg er ad vitum vel, vort líf ad endi, og ad þad eins og hel, er þér í hendi.

4. Ad um oss annt sé þér, ad sért vor Fadir, hughraustir vitum vér, vissa nóg þad er.

5. Þó dagsins skundum skeid, skjótt fram ad nóttu, brádt hennar lídur leid, ad ljósri óttu.

6. Svo lífid braut er breid, til bana kíssins, og daudinn eins er leid, aptur til líssins.

7. Svo lifa sérhvørr á, sem sálast egi, en andast eins og sá, sem aldrei deyi.

8. Í þína umsjón nú, ástríki Fadir! felum líf, bygd og bú, blundum svo gladir.

## No. 295.

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

Míns Guds føðurleg mildi sparad, mig hefir enn nú þenna dag, líf mitt

frá øllu vondu varad, víkid fyrir mig øllu' í dag; þacklát og audmjúk því mín ønd, þína minnist vid fødurhønd.

2. Mig ørlát saddi, mér nam svala, mér ledi klæda-og húsa-skjól, ad heyra' og sjá og hugsa' og tala, hjá mér enn krapta máttug ól; brjóst mitt vakti og breisklegt géd, bendíngu þinna orda med.

3. Æ! hvørr fær huga yfirfarid, ástgjafir þínar, Fadir minn! æ! héldt eg vel þad hafdi' eg svarid: hlýdinn ad reynast sonur þinn? notadi' eg gædi' er gafstú mér, Gud minn! sem vissi' eg þócknast þér?

4. Fyrirgéf brot mín, Fadir kjæri! fyrr enn mín augu lykja sig; þinn andi sátt og svolun færi, samvitskan þegar klagar mig; sjá, allt mitt atþvarf, øll lífs von, er sá fyrir mig leid, þinn Son.

5. O Drottinn! þinni umsjón anda, eignir og líf mitt nú eg fel; fullviss ad eckért fær mér grandad, forsjón þín allt því geymir vel. Af fætur þá eg aptur rís, enn skal þér syngja lof og prís.

6. Allt eins deyandi eg mun hnegja, í trausti Jesú høfud mitt, eg mun þá sofna' en ecki deya, eignast vaknadur

ríki þitt, hvar þig, ó Guð! um eilíf ár, englanna prísar raustin klár.

## No. 296.

Lagið: Rís upp, mín sál! að nýu nú.

Fyrir gott allt þig gøfgum vér, Guð! sem oss náð og miskun tjer, eg þó se mørgu minna, líknsamt geð þitt, lofqvæði mitt, láti náð hjá þér finna.

2. Hjálp í dag tjeðir mikla mér, mig hjartanlega tókst að þér, bænheyrðir blíðt sem Faðir, mig og mitt hús, miskunarfús, frelstir og forsorgaðir.

3. Allt hvað eg er og andi sá, í mér gladvær, sem hugsar á, að þín dýrð eblast nædi, allt hvað minn hag, ebldi í dag, eru þín meðdeild gæði.

4. Eptir þinni elsku og mátt, annastú mig um þessa nátt, sjá ei til synda minna, í dauðans neyð, allsherjar Guð! aðstoð láttú mig finna.

## No. 297.

Lagið: Guðskurkasti græðari minn.

Nú gengur sól að gyltum beð, gánga vil eg því feginn með, að hvíldar hægu rúmi; víst hefir allt mitt vinnulag, verið án slisa þenna dag, frá birting' hans að húmi. Guð minn! þjón þinn, færir þér, af hjarta hér, það hef-

ir hann eina, þúsundfaldlegar þackir hreinar.

2. Það er svo margt og mikilsverdt, minn Drottinn! sem þú hefir gjørt, mig við um mína daga; allt var það gott, eg þacka þér; þín forsjón mild utbýtti mér, því sem best hér nam haga; Fadir! Fadir! veiti lid mér það eptir er, og øllum líka, guddómur þinn og gædskan ríka.

3. Géf þú oss hæga hvildar-stund, svo hvørr og einn við lokinn blund, frelsist af líkhams lúa; erfiðið léttist æ hvørn dag, af von um dýrd og sælu-hag, við bestu kjør ad búa, hjá þér, þá vér, notin sjáum, full og fáum, Fadir, þjóða! þess sem í heimi gjørdum góða.

4 O Drottinn! vertú allra hlíf, annastú, Drottinn! þeirra líf, sjúkleiki sem ad þjáir. Géf þú oss hjarta gott með aud, gled þú oss, svo ad hjálp í naud, hvørr einn fátækur fái. Anægt, þér þægt, hjartalag, um hvørn einn dag og hógvært sinni, géf þú oss øllum af gædsku þinni!

## No. 110.

Lagid: A Gud alleina.

Minn tími stendur, minn Gud! í høndum þín; enn er á enda, eitt stig

af vegferd mín; leidtogi tryggur, trygd þín enn reyndist mér; ó! hvad øryggur, er sá, sem treystir þér, fyrir øllu' er áliggur, einn þú best honum sjer.

2. Þygg mitt þakklæti, hér sem glød færir ønd, allt fyrir ágæti, er þín mér veitti hønd; ó! hvad eg minni, er ást og þinni trygd! saurgad hef' sinni, af synda vidurstygd; vægd þó nád þín vinni, og vidretti mína dygd.

3. Sjá! synd eg hata, þú sjer mitt hjarta þel; eg bíd minn bata, bod þín ef ræki vel; veikum þú vægir, vilja álítur minn, hjarta þad hægir, hræddu vid breiskleik sinn; nádin sú mér nægir, náløgann þig ef finn.

4. Nú fer ad nóttin, nádþurfi' eg leita þín; Gud! þinn á þróttinn, þorgód von stendur mín, sist mun mig saka, þá sit í skjóli því; þú veitst ad vaka, svo værda njóti' eg frí, og mig ad þér taka, í þad hæli eg flý.

5. Í deyd øryggur, er hvørr sá treystir þér, leidtogi tryggur, trygd þín þá reynist mér. Minn tími stendur, minn Gud! í høndum þín, ef vilt útendud, ad skjótt sé vegferd mín, fel eg í Fødur-hendur, frelsada sál' af þín.

## No. 299.

Lagið: O Faðir himneski' ogeilísi Guð!

Himin-sól vendi í hafsins skaut inn, húmið oss bendir til værðar um sinn, leið svo til enda einn lífs dagur minn, líkn vannstu senda mér, Drottinn!

2. Þér, blíði Faðir! lof þýðasta ber, þú mig verndaðir og øllu frá mér, grandi vísaðir þín gnæfandi hér, gæðska blessaði hvað mitt er.

3. Þú, sem vel greiðir mér gæfunnar stig, gjør það eg beiði: þín Føðurhønd mig, anníst og leiði, mín ønd ørugg sig, í lífi' og deyð reiðir á þig.

4. Øll skal svo hrundin burt ángist og þrá, er værðar-stundin mér gleðileg þá, síðasti blundur þó sígi mig á, sælum Guðs fundi mun eg ná.

## No. 300.

Með sínu lagi.

Sá ljósi dagur liðinn er, líður að náttur stund; himneski Faðir! hjá oss ver, hægann gef þú oss blund. Gleðji oss Guð í Himnaríki!

2. Gæðskan þín allvel geymdi oss, og góð verndaði' í dag, mýkti í náð mótlæti' og kross, miskun þín sá vorn hag. Gleðji oss Guð í Himnaríki!

3. Þar fyrir allir þackargjørd, þér færum, Drottinn! vér, heidri þig menn, himin og jørd, og hvad sem skapad er. Gledji oss Gud í Himnaríki!

4. Svo margt brutum vér móti þér, megnum ei tel'a þad, ord, hugrenníngar, verkin vér, vanda ei gádum ad. Gledji oss Gud í Himnaríki!

5. Fyrirgéf oss nú, Fadir kjær! þad frømdum þér á mót, oss nýann dugnad aptur fær, ydrun ad gjøra' og bót. Gledji oss Gud í Himnaríki!

6. Adgæt þú oss nú enn í nótt, oss verndi mildin þín, ad sofna kynnum sætt og rótt, sviptir frá allri pín. Gledji oss Gud í Himnaríki!

7. Þá líkhaminn hvílist, haldtú þó, hønd þinni yfir mér, géf þú ad allir ødlumst ró, oss forda meinum hér. Gledji oss Gud í Himnaríki!

8. Ad morgni aptur uppvek þú, oss á haggvæmri tíd; svo af oss þá í sannri trú, syngist þér lofgjørd blíd. Gledji oss Gud í Himnaríki.

9. En þegar endast æfi-tíd, og kémur vor dauda-stund, veit oss, Jesú! hún verdi ei stríd, værann géf sídasta blund! Gledji oss Gud í Himnaríki!

10. A enda heimsins oss sért hjá, innleid í dýrd med þér; lát oss eilífann fögnud fá, og frid þegar deyum vér! Gledji oss Gud í Himnaríki!

No. 301.

Lagid: Heimsins Stýrir forsjón fasta.

Hvíldir nætur húmid bodar, Herra! sál mín gledst í þér, enn þín stýrdi øllum voda, alvøld hønd í dag frá mér, heilsu, blessun, fjør og frid, fann eg andar-tak hvørt vid, síns Guds ástar undrum lýsi, ønd mín þacklát, lofi, prísi.

2. Var eg í dag sá vera skyldi? vitna þad, mitt hjarta'! í qvøld; ávann ó-þreytt míns Guds mildi, mig ad fordast glæpa vøld? æ! eg blygdast, auga þitt, alskygni! sjer dagfar mitt, æ því gjørr þad yfirvega, æ því meir eg fyllist trega.

3. Fús þú brotin fyrirgéfur, Fadir! svo menn elski þig, í þad skjól mín ønd sig vefur, audmjúk, trúgód huggar sig, vid míns Jesú qvala qvøld, þá qvitt-adi' hann mín synda gjøld, fyrir hann eg vænti vægdar, og veit þad eitt til hugar-hægdar.

4. Ljá mér, Fadir! fylgd þíns anda, ad framqvæmt géti eg áform mitt, æ því meir mig allann vanda, sem afbrot fleiri gafst mér qvitt; eg sofna veit senn

af mér ei, eg er þinn, hvørt lifi' eda dey, í Føburhønd, minn Fadir! þína, fel eg líf og sálu mína.

## No. 301.

Lagid: Géf þinni Kristni gódann frid.

Gud Fadir! sem oss geymir vel, gædsku mátt þinn eg prísa, þitt enn ad lofa ástar þel, og miskun þinni lýsa, skal mín þacklát vanda vísa.

2. Eg, sem þíns anda ástgjøf hlaut, er þínum trygdum minni, vesæll, til þeirra vægda', er naut, vann ei af miskun þinni, synd uppgafst mér enn eitt sinni.

3. Gud! heiløg vera, gód og trú! Gud minn, Gud fedra minna! frá módurlífi minn varst þú, æ mætti' eg verdur finnast, í tølu barna teljast þinna.

4. Leid mig þitt endurlífnad barn, lát andar frid mig næra; nú sofna' eg, Fadir gædsku=gjarn! géf mér hvíld trygga' og væra; til dóms lát mig ei dúrinn færa.

5. Fadir! oss háska forda' og neyd, fel eg þér mig og mína; þér treysti' og ad mér tek þinn eid; trygd hefi' eg reynda þína, aumum miskun enn munt sýna.

## No. 303.

Lagid: Himna rós, leid og ljós.

Gudi vér, hessum hér, helgann qvøld=saung, dagur lídur, fagur, frídur, fæst því, hvíldin hæg, hjádum þæg, því skal hvørt sinn, líf og sál, líka mál, lofa Drottinn!

2. Eilíf nád, allt vort rád, annast hefir, slísa=føllum, affstýrt øllum, oss frá; sýngi þér, allt hvad er, ædst lof, Gud minn! líf og sál, líka mál, losi Drottinn!

3. O! hvad mjøg, opt hefi' eg, ílla mót þér, dygdum hafnad, syndum safnad, sál mín, kallar því, eymdum í, á þig, Gud minn! lífid hér, leidist mér, leys mig, Drottinn!

4. Veit mér ró, frid og fró, Fadir! í nótt, lát ei hræda mig né mæda, mein húng; kraptur hér, med sé mér, mátt=ugur þinn; góda nótt, gott og rótt, gef oss, Drottinn!

5. Vljúg er mín, bæn til þín, besti Gud! enn: ad mig geymi, hér í heimi, hønd þín; verndin þín, vørnin mín, veri hvørt sinn, góda nótt, gott og rótt, géf oss Drottinn!

6. Eg fel þér, allt hvad mér, ádur gafst þú, sál' og lífi, hjálpi og hlífi,

hønd þín; allt hvað er, meður mér, mikli prís þinn; líf og sál, líka mál, losi Drottinn!

## 5. Borð-Sálmar.

### a) Fyrir máltíð.

No. 304.

Með sínu lagi.

Faðir á himna hæð! hvørr fyrir Jesú náð, elsku þína oss vottar, ønd og líkhama mettar.

2. Hvað um lopt, haf og jørð, hefir tilsetta ferð, forsorgar þú og fæðir, fjølgar, annast og klæðir.

3. Með lofgjørð og lotníng vér, líka sem kristnum ber, þyggjum í dag þakklátir, þitt lán, sem að oss veitir.

4. Lát oss í hreinum hug, halda oss við þinn veg, svo með samvitsku góðri, seðjumst voru fóðri.

5. Hjálp oss nú, Herra kjær! svo heiður þinn eblum vær; fyrir Frelsarann Kristum, Faðir! á þig treystum.

Vér þøckum þér hinn góði! (Sjá No. 268).

## b) Eptir máltid.

### No. 305.

Lagid: Kristi! vér allir þockum þér.

Gud vor Fadir! vér þøckum þér, fyrir þinn Son Krist vorn Herra, af mildi þinni, sem margføld er, manneskjur virdist næra, allar sképnur, sem eru med ønd, oss hefir sadt þín milda hønd, lof sé þér æ og æra.

2. Herra! sem mettad hefir nú, hold vort, er deya blýtur, sál vora einninn sedjir þú, sem aldrei deyr né þrýtur; ord þitt er hennar abl og megn, ad strída synd og løstum gégn, uns med þér nadar nýtur.

3. Himna Fødur á hvørri tíd, heidrun mesta sé framin, sá oss qvittadi syndir vid, fyrir Soninn til vor kominn, hjálparann Jesúm Herra vorn, hvørr oss þín gjørdi óska-børn, ætíd lofum vér, Amen!

### No. 306.

Med sínu lagi.

Heidrum vér Gud af huga' og sál, hans lof vor túnga syngja skal, ad sína miskun sýndi ljóst, saddi oss vel med dryck og kost; sá øllu holdi fædu

fær, fædt hefir oss nú Drottinn kjær, þad allt hans mildi þøckum vær.

2. Þøckum honum nú, þjónar hans, þad er æ skylda sérhvørs manns. Játum: ad oss elskadi hann, af nád sinni skapadi mann, med húd og holdi, blódi' og bein', bygd er sú helzta sképnan ein, og sídan gésin sálin hrein.

3. Gud hefir verøld vel tilreidt, vanta lét ecki' á næríng neitt; fjøllin og dali frjófgar hann, fénadinn gras ei vanta kann; vex af jørdunni vín og braud, veitir þad hvørt ár mildur Gud, og hjálpar svo af húngurs naud.

4. Fiska veita oss vøtn og sjór, verdur af þessu bjørgin stór; eggin og fugla eignumst vér; oss til atvinnu skapad er, naut, geitur, svo og sauda-fé, sjálfur Gud lætur oss í tje, svo ad vor næríng nógleg sé.

5. Þøckum honum og þyggjum nú, þad hann géfur oss sanna trú, høfum því æ í hjarta sett, halda hans bod í vorri stétt; svo jafnan øll hans heiløg hjørd, heidri hans blessad nafn á jørd; þad skal vor allra þackargjørd.

---

# 6. Brúdkaups-Sálmar.

## a) Á undan Hjónavígslu.

Í nafni Jesú athøfn má. (Sjá No. 48).

### No. 307.

Lagid: Gæskuríkasti grædari minn.

Fyrstu brúdur til fyrsta manns, framleiddi mildin Skaparans, ó! hjónabandsins Herra! af þínum himni þau álít, þitt sem nú koma fyrir auglit, ebl heill og heidur þeirra, í heim, æ þeim, virdst lídsinna, lát þau finna, líkn af hædum, blessa þeim lífsins lán og mædu.

### No. 308.

Lagid: Heimili vort og húsin med.

Þér, lífsins Herra, Gud, vor Gud! gøfgun og lotníng sýnum, þú skapar ljós og lífs føgnud, líka med krapti þínum, ástir tendrar í úngdóms barm, allteins fullordins styrkir arm, og heillum audgar fínum.

2. Frábærlega jørd føgur er, full med øll hentug gædi, þau ef ad eins rétt þekktum vér, og þekkt hvørr brúka nædi,

armædan sjálf oss yndi fær, á medal þyrna rósin grær, líftjón líf betra grædir.

3. Hvørr sá hér vina situr í krans, sem ei med gledi-tárum, velgjørdir telji Verndarans, veittar á barndóms árum? ó Gud! þær reiknad einginn fær, í dag þó vilt þú mikla þær, med nádar nægdum klárum.

4. Par fyrir prísum þrávalt vér, þig, Fadir allra lýda! gamlir og úngir greida hér, gøfgun um heiminn vída; á himni' og jørd' i hvørri átt, hljómi sú lofgjørd dag og nátt: blessad sé nafn Guds blída!

5. Blessa þann dag nú egum á, ástanna gledi' ad sæta, og brúdhjóna lags, er byrjast á, í blessun virdstú gjæta: blessa hvørn aldur, stétt og stand, styrk og blessa vort Føðurland, lát einíng ást innræta!

## No. 309.

Med sínu lagi.

Heimili vort og húsin med, nema Herrann byggja vildi, árlega blessi bú og fé, bjørg svo hvørr hljóta skyldi, af gædsku hans og Guddóms nád, sem gjarnan eblir allra rád, annars vor ydja' ei gyldir.

2. Nema Gud sjálfur styrki stad, og stjórni borg og landi, hlífi og gæti øllu ad, svo engu stofnist vandi, gefi og sjálfur gódann frid; gagnlaust er þó ad vaki lid, fær engu fordad grandi.

3. Lítid ávøxt og ydar børn, af Gudi þau hafid þegid, haggvæma fá þau hjálp og vørn; hans lán og gáfur segid; forsjón vill hann þein veita vel, vis þeirra fæda' hún ávalt er, sjálfir þad sanna megid.

4. Eins og ad pílur ecki fár, øblugur hefir í hendi, þángad sem hugdi, hann sér til fjár, sérhvørri frá sér renndi, mátt Guds og vilja merkir þad, mann og qvinnu úr ymsum stad, til samvista hann sendi.

5. Sæll er sá mann þeim géfur Gud, gæfusamt lánid barna, óvinum qvídir ecki vid, þeir ýfa hann ei gjarna, øfund og neyd ef hann vill hrjá, hjástod ørugga hefir sá, volædi sér ad varna.

6. Fødur Syni og Anda sé, ædst dýrd um jørd og himin, eins sem hún var ad upphafi, án enda verdi framin; kénn oss ad halda kristinn sid, qvittast og skiljast syndir vid, sá þad vill syngi: Amen!

---

### b) Eptir Hjónavígslu.

No. 310.

Lagid: Sædsturkasti grædari minn.

Þau féllu ad þínum fótum hér, Fadir! einum treystandi þér, gódra því adstod ertú; þad bandid trygda blessa þú, blídri med Fødur hendi nú, sem trúlynd tengir hjørtu, æ med, gladt géd, líssins feta géf þeim gøtu og gledi næga, í þíns fridar skauti og skjóli þæga.

No. 311.

Lagid: Sædsturkasti grædari minn.

O Gud! þín mild og heiløg hønd, hjúskapar gaf á jørdu bønd, þig bidjum, helgur Herra! géf þessum hjónum heill og nád, hjartans eindrægni, ydni, dád, þeirra lát yndi' ei þverra, þau leid, þeim greid, hjálp ad bera, hvad sem skér, svo heit adgæti, vongód í hrigdum, vør í kjæti.

---

## 7. Katechisatións-Sálmar.

### a) A undan Katechisatión.

No. 312.

Lagid: Kristi! vér allir þøckum þér.

I nafni Jesú nú, vor Gud! nálæg þér børn þín standa, ord þitt í gledi

eins og naud, oss færir líf til handa; svo þad til gagns vors sanna vér, séum fúsir ad læra hér, gêf øllum oss þinn anda.

## No. 313.

Lagid: Heidrum vér Gud af huga' og sál'.

Alvísi Gud! lát ord þitt blídt, útbreidast heims um løndin vídt, góda þeim úngu gêf sem fyrst, til gudrækni og dygda lyst, þinn kraptur ædri øllu er, úngum og gømlum kénn því hér, gódi Fadir! ad gédjast þér.



## b) Eptir Katechisatión.

## No. 314.

Lagid: Gædskuríkasti Græðari minn!

Nádugi Gud! vér þøckum þér, þad oss úr mirkri leiddir hér, og qveiktir ljós þitt klára; kénndir oss þeckja þig og hann, þú hvørn útsendir, Lausnarann, strax á tíd æsku ára; gjøf sú, gêf þú, ávøxt færi, ad vér lærum lifa' og deya, Frelsarans bodord sem fyrirsegja.

Vér bidjum þig, ó Jesú Krist!
(Sjá No. 130).



## 8. Konfirmatións-Sálmar.

### a) Á undan Konfirmatión.

### No. 315.

Lagid: Óvinnanleg borg er vor Gud.

Pessi dagur, ó Gud, vor Gud! géf vel oss blessast nái, vid þig oss bind og vid þín bod, veit trúarstyrk hvorr fái; Fadir! hér fyrir þér, fólk úngt og gamalt sjer; oss, Fadir! álít þú, med ædstu mildi nú, andi þinn lid oss ljái.

2. Þitt legg þú úngum ord í munn, innra þess kraptur brenni, ad trúna' og hennar atrid kunn, æ følskalaust medkénni. Þeir fyrri færdust þér, fyrir þeim bádum vér, skírdust til þíns nafns þá, þig, Gud! nú treystum á, von sú uppfyllast vinni.

3. Rádar sáttmál ánýa þú, nú vid børn þessi' og sídan, lát já þad, sem þau segja nú, síst þeim úr minni lída; en breiskt þó er sérhvørt, einn þú máttugur ert, hjálpa med styrkri hønd, hvørri frómlyndri ønd, til enda trúrri' ad bída.

4. Og nær þau húsum fedra frá, flytjast í verøldinni, trúarbrøgd Jesú þú lát þá, þeim vera' í fersku minni;

svo hlýdin þjóni þér, á þig treysti' einn, sem ber, yfirgafst' aldrei þann, á þig sig reida vann, og Födur líkn fela þinni.

## No. 316.

Lagid: Gædskuríkasti grædari minn.

O Fadir, Son og Andi! þinn, óreſinn stendur sáttmálinn, eg þó mín ord ei haldi; æ! minn mig jafnan á minn eid, en ef eg skeika' af réttri leid, unn mér þad ángri valdi; hvørr þá, hér má, vita, Gud! ad veitir nád, því viljum gladir, á sáttmál þitt treysta, tryggvi Fadir!

## b) Eptir Konfirmatión.

## No. 317.

Lagid: Lofid Gud, lofid hann hvørr sem kann.

Drottinn! þú, Drottinn, ad hátign stór, æskan nú, einlæg en hvikul sór, þínum merkjum undir æ, og dygdar strída. Seig þú: børnum líd eg ljæ, læt þau heill bída. Gud er hjá, Gudi ef hlýdid; Fadir sá, sjer hvad bágt lídid, órugg þá, elskud børn! strídid, sterk er Drottins hjálpar hønd. :,: Ydar Fadir elskar heitt, elskendur sína. :,:

2. Dygda-skeid, skundid nú, kjæru børn! en sú leid, er hætt og villugjørn;

hættri villu þurfid þér, þó síst ad qvída, ljós á vegum yckar er, ord Drottins blída. Guds forsjá, greidir veg ydur, hættum frá, hvervetna rydur, alla þá, almáttug stydur, sem ljúft er ad Drottinn leidi sig. :,: Hann er sæll, sem hlýdir fús, himnanna Gudi. :,:

3. Varnir! hér, hlustid ord Drottins á, hrædist þér, ad hneixla børnin smá; Drottins raust af hærstu hæd, hátt dunar þanninn: mín skal hegníng hitta skjæd, hneixlunar manninn; en hvørr sá, er villtann leidir, veginn á, veg sjálfs síns greidir, sælu' ad fá, sem Gud tilreidir, þeim, er kjærleiks vinna verk. :,: Gjøri hvør ad gæta sín, Gud Drottinn allra! :,:

## No. 318.

Lagid: O Drottinn allsvaldandi!

Gud, Fadir orma' og anda, eilíf, trúføst veran merk! óbifud ord þín standa, þó alheims falli bygging sterk; veit oss trú, vel ad halda, ef veikist sú, styrk margfalda, vid oss þú, og veikleiks lát ei gjalda.



## 9. Reformatións-Sálmar.

### No. 319.

Lagið: Væri nú Guð oss ecki hjá.

Guð ljóssins Fadir gódi! nú, gøfgi þitt nafn vort hjarta, úr ljótu mirkri' oss leiddir þú, í lærdóms skin Jesú bjarta, þá mirkurs skýldi þoka því, þú sagdir: verdi ljós á ný! dróst svo frá dymman svarta.

2. Pína kirkju stríddi' íllskan á, en Guð! þú nádir styrkja; hug og dug gafstú þínum þá, þeir lýstu' upp vegi-inn mirkva, svo frelsi' og ljós oss féll í skaut, flýa hjátrúar veldið hlaut; sem klettur stód þín kirkja.

3. O Guð! lát oss ei optar sjá, ald-anna mirku daga, og lát Kennendur aldrei fá, oss sem á tálar draga, svo allir kristnir, eins og ber, þig elski, þecki' og hlýdi þér, og þínum elskulega.

4. Oll blessan, Drottinn! er hjá þér, oss blessa þú af hædum; kirkjunn-ar ætíd vørdur ver, vernda frá ófrid skjædum; á jørd trú manndygd oss skal þá, undirbúa, svo himnum á, ljóssins Guð lofa nædum.

## No. 320.

Lagid: Allt eins og blómstrid eina.

Góð stendur, Gud! þín kirkja, grund-vøllud, føst óhræð, hana vannst stydja og styrkja, gégn stríds ofríki' og flærd. Illskunnar megnt ofbeldi, ei hús þitt bifa má, mótstendur mirkra veldi, merk-um byggt sannleik á.

2. Líknsami Fadir ljósa! oss leiddir fund þinn á, allir sem inngáng kjósa, í hús þitt, gjarnan fá. Þá baudstu, burtu líða, blindni og hjátrú vann; lofgjørd þér lúkum blída, í ljósi því upp sem rann.

3. O Gud! oss unn ad læra, hvad ertú mildur oss, og í nyt ord þín færa, svo ødlumst dýrdar hnoss; æ medur oss þitt skjæra, orda ljós, Drottinn! geym; lát þess fridar-bod færa, farsæld um allann heim.

---

# 10. Kirkjuvígslu-Sálmar.

## No. 321.

Lagid: J dag eitt blessad barnid er.

Þig innilykja, ó Gud! kann, ei jørdin, hús né stadir, himnanna enginn himin vann, þig, himna taka, Fadir! alla hluti, þú ætíd sjer, einninn þann søfnud, sem

ad hér, þig dýrkar, þig ákallar, vor hjörtu bljúg sig hefja nú, himnanna til, hvar sjálfur þú, drottnar um aldir allar.

2. Í nafni Jesú oss lít á, eptir hans fyrirheitum, hús þetta blessa, heyr oss þá, hér þinnar nádar leitum. Hér heyrum vér þitt heilagt ord, hér setjumst vér vid Jesú bord, hér bygdir helgar lærum; þú, Fadir! rétt oss þína hønd, þinn andi styrki vora ønd, ad gódann ávext færum.

3. Margur, sem hrigd í brjósti ber, hvørn buga mótgángs hleckir, athvarfs leitar og hjálpar hér, hans mædu best þú þeckir, leid hann, ó Gud! af ángist út, og lát hvørn þann, er þjakast sút, frelsis stund finna þína; svo hann med gédid gladt á ný, gángi musteri sjálfs þíns í, þacklæti hér ad sýna.

4. Þig bidjum vér í þessum stad, þú, Fadir allra þjóda! vort blessa land og vernda þad, veit því frid og heill góda: í nafni Jesú oss heyr þú, í nafni Jesú von og trú, á hans ord ætíd festum: ad þú oss veitir, Herra! hér, hvørs í hans trausti bidjum vér, og oss er æ fyrir bestu.

5. Á sídan, Gud! med Engla her, um eilífd samstemmandi, fegri lofsaung vér

færum hér, á farsælldarinnar landi, þar fáum vér þig sjálfann sjed, og Son þinn Jesúm Kristum með, sem megum vin vorn kalla, þar gefur þú oss frid og frægd, fögnud, regsemd og gæda nægd, Drottinn! um eilífd alla.



## 11. Fridar Sálmur.



### No. 322.

Lagid: Herra! þér skal heidur og lotning greida.

Bjódid lof þeim bøli og neyd afvendti, burt er strid, sem oss med naud umspennti, bæna gádi, grimd afmadi, Gud alrádi, og sína nád oss sendi.

2. Herrann ædsti hýr oss gaf, ad fridur, frá himni sté til vorra landa nidur, hann oss kjætir, hvad sem mætir, hrigd upprætir, barn adgætir, er bidur.

3. Gud! med lotning þér sé þøck vor samin, þinn lofstýr um øll heims løndin framin; þig, er gridin, gæfu lidid, gafst og fridinn, einn tilbidjum, Amen!



## 12. Huggun í Sjúkdómi.

### No. 323.

Lagið: Af djúpri hrigd ákalla eg þig.

Eg farsæld lífsins ádur sá, á mínum gledi=døgum, ótal gladværdir átti' eg þá, í eptirlætis høgum; vil eg því nú veikleika med, vardveita jafnan rósamt géd; þó særist sorgar sløgum.

2. Eg má syndara aumann mig, ó Gud! fyrir þér játa; óhlýdinn er eg brátt vid þig, þú agar samt í máta; skal eg sekadur eckert þá, álag tímanlegt borid fá, og mig leidrétta láta.

3. Fadir! mig allann fel eg þér, forsjón þín ad mér gæti; hvørt sem þú lengra lénar mér, líf, edá heil' eg mæti, á þér einum skal allt mitt traust, ásjá mannanna' eg trúi laust, þú hjálpar, huggar, kjætir.

4. Eg þá trúadur út af dey, erfd mín er viss á hædum, mitt andlát því eg óttast ei, ellegar grafar hrædu; og þó eg rási' um daudans dal, Drottinn! nád þinni' eg treysta skal; þú ert hjá mér í mædum.

5. Harma-tølnm skal hrinda frá, en heiður Guði veita, með þolinmæði honum hjá, hjálpar og náðar leita; jafnan í nauðum hugsa hér, hvørsu líknsamur Drottinn er, hann einn kann øllu að breyta.

## 13. Við Kirkju-gáng Mæðra eptir Barn-burð.

No. 324.

Lagið: Sæðsku Guds vér prísum.

Lof, dýrð um aldir alda, ó Guð! þér syngjum vér, þyggl ofgjørð þúsundfalda, þú veikum miskun tjer! oss þegar ángur skér, í føður umsjón tekur, og aldrei burtu rekur, þá sem að treysta þér.

2. Hættar þrautir, sem þjáðu, þær hvurfu, gleymdist hvør, og inndæl orð viðqváðu: einn maður fæddur er, arftøku von sem á, í dýrðar ríki æðstu; ó von, án líka, stærstu! hversa burt hrigð øll má.

3. O! vor Guð! veit hvør móðir, vel børn uppali' um heim, ávextir ydju góðir, eilífð farsæli þeim, upp þá risin af grøf, til gleði, glaðvær segi:

Guð! hér er eg og þegin, af þér þín góða gjöf!



## 14. Á Fæðingar-degi Manns.

No. 325.

Lagið: Guðs Son kallar: komið til mín.

Fyrir mitt líf eg þakka þér, á þessum degi' er gafst þú mér, Guð! þér eg gøfgun færi, að þín náð til þess þøkkun var, það eg af engu skaptur var; líf mitt sú náðin nærir.

2. Undarlega þú um mig bjóst, við umsjón þína frameg dróst, að augnabliki þessu; gleði-dag margann gafst þú mér, grátur og þjáníng umbreytt er, í farsæld, frið og blessun.

3. Overðugann meðkénni' eg mig, margfaldrar náðar lífs um stig, ó! þú allsherjar Herra! mig, jarðar duptið, minntist á, í mildi þinni eilífð frá, svo farsæll fengi' eg vera.

4. Þú sást og heyrðir mæðu mín, mín andvörp taldi forsjón þín, fyrr enn eg skapnað fengi, minn deildann verð útmældir mér, miklu fyrr enn eg beiddi hér, þá eg var enn þá enginn.

5, Þú létst mig fyrir þér finna náð, frá eilífu þín vitsku dáð, synd alla sá þó níma. O! elsku' og náð, þá aumum mér, allrar veraldar Herra tér! ó Fadir! forsjón þína.

6. Að lífið mitt adgættir þú, að lífs og heill hér stend eg nú, að lífs ánægju' eg smacka, að undarlega' útleiddir mig, og híngað til um gæfu stig, þér, Fadir! allt eg þacka.

7. O Guð! ef lifa lengur á, legðú mér til það gagna má, af þér eg vona þessa. Eg líf og sál afhendi þér, æ Herra! virdstú líkna mér, vernda mig best og blessa.

## 15. Ferda-Sálmar.

### No. 326.

Lagið: Fadir vor, sem á himnum ert.

O þú Guðs barna geymarinn! sem greiðir inn- og útgáng minn, í nafni þínu nú vil eg, náðþurfi byrja ferdaveg. O Drottinn! bjóð þú Englum þín, á leidinni þeir gjæti mín.

2. O Drottinn! virdstú að mér gá; ó Drottinn! leið mig til og frá; hönd þín mig verndi hvar eg fer, háskanum

vísi burt frá mér; ó Drottinn! skildu ei við mig, einka förunaut kýs eg þig!

3. O Drottinn! geym mitt megn og mál, minn líkhams krapt og veika sál, húsið líka og heimkynnið, holla vini, sem skilst eg við, gjættu þeirra og géf mér þá, glaða og heila aptur sjá.

4. O Drottinn góði! annast þú, áformið minnar reisu nú, taktu mig að þér trútt og vel, tilsjón þinni mig allann fel, slisförum öllum varna við, vertú minn Guð á alla hlið.

5. O Drottinn! eign mín æfinleg! af þér lifi og hrærist eg, fyrir mig Jesús útgaf önd, af því leið mig við sterka hönd, einkum nær eg skal falla frá, farsæla reisu géf mér þá.

---

## a) Við Húsföðurs lánga Burtför.

### No. 327.

Lagið: Væri nú Guð oss ekki hjá.

Þú þeckir, Guð! vort áform allt, og vorn fótstig þú greiðir, ydn góða blessar einn ávalt, allt stýður, verndar, leiðir; eg byrja ferð, en bið: að þú, blessir mitt áform líka nú, háskasemd allri eyðir.

2. Géf heilsa, þol og heill frá þér, hjá mér á vegum búi, svo hagsæld finni' eg hvar eg fer, og heim með gladværd snúi, um vøtn og lønd mót voda hag, vertú minn skjøldur nótt og dag, eg þinni tilsjón trúi.

3. Ástvini mína ei forlát, minn ert og þeirra Fadir, heimkynni mínu haf á gát, hvad sem mér úthlutadir, heimafolk, eignir, ástand, líf, almættis þinni fel eg hlíf, géf aptur finnumst gladir.

4. Eg svo í fridi reisi rór, ræki mitt kall med dádum, eg held til baka, hitti frór, hús mitt gladur í nádum, og ásamt mínum eptir þad, eg þig prísa og dáist ad, þinni vernd, þínum rádum.

---

## b) Vid Húsfødurs Apturkomu.

### No. 328.

Lagid: Fadir vor, sem á himnum ert.

Mitt hús enn stendur, þøck sé þér, þú Gud! sem geymdir mitt hvad er; margur heimkominn hús sitt fann, hrapad, velbyggt sem qvaddi hann, en stormur, vatnsflód, eldur braut, ørsnaudur svo hann ráfa hlaut.

2. Þú heyrdir, Drottinn! þad eg bad, þá eg og mínir skildumst ad, þú hefir vardveitt þá og mig, þín nád oss

fylgdi mildilig, ferd mína hefir framad þú, finn eg allt skadlaust heima nú.

3. O Gud! Verndarinn! eg þig bid, oss hér framvegis haldtú vid, ad med fridsemi, eins og ber, umgángast mættum gladir vér, og lifa þar til æfin dvín, í bæn og trú og von til þín.

4. Öll vor fótspor og allann hag, annist þín forsjón nótt og dag, þín hønd oss leidi, Herra kjær! hvar sem vér gaungum, nær og fjær, og géf, sídast ad sælir vér, samføgnum upp í dýrd hjá þér.

## 16. Vid opinbera Aflausn.

a) Fyrir:

Nádugi Gud! fyrir nafnid þitt, etc.
(8da vers af No. 138).

b) Eptir:

Minn Gud! eg má þad játa, etc.
Sjá No. 145.

## 17. Vid Líka Uthafníngar.

No. 329.

Lagid: Þann signada dag vér sjáum nú einn.

Dagur svo lángur aldrei er, ad ei med qvøldi lendi, daudinn lífid dregur

með sér, dapur í burt úr hendi, vér skulum út, en grøfin er gjør, þar gésst ei annar endi.

2. Gud gési það svo þjónum vér, í þessari verøld inni, að Guðs Son með trúnni taki hverr, svo traustlega miskun finni; þá heimurinn frá oss hallar sér, hjálp Guðs aldreji linni.

3. Nær førum vér í vort Føðurland, og úr fárinu skulum venda, géf eg mína sálu Gudi' í hand, í gledi himnaríkis senda. Gud Fadir, Guðs Son, Guðs heilagur Andi, gési oss góðann lífs enda!

Lof sé Gudi! vor lausn er gjørð etc.
(Sjá No. 92, 2að, 4ða, og 5ta vers).

## No. 330.

Lagið: Fadir vor, sem á himnum ert.

Andlegann styrk mér auktú þá, ó Gud! nær verøld skilst eg frá, svo gédrór mína gési' eg ønd, gódi Fadir! í þína hønd; hørmum mínum í huggun snú, og himninum fyrir mér uppljúk þú!





# Vidbætir.

## I. Lofgjørdar- og Packlætis-Sálmar.

### No. 331. (1).

Lagid: Rís upp, mín sál! ad nýu nú.

Eilífi Gud! þín gædsku gnótt, gjørvallra minna daga nótt, upplýsti nád einskjærri, svo leidin þraung, ei þókti laung, þjáníngum fetud nærri.

2. Fyrir þá elsku, Fadir vor! færum þér vid hvørt æfi-spor, þackir í þessum heimi, en sídarmeir, þann aldrei deyr, eilífdin prís þér geymi.

3. Þér einum felum alla oss! þinn einka Son, er leid á kross, vort dæmi, von, ágjæti, sé þar til vér, sønnum hjá þér, sorg ad breytist í kjæti.

### No. 332. (2).

Lagid: J Babýlon vid vatnin straung.

Þig lofi allur engla her, alheims verndarinn blídi! þig lofi jardar þjódin hver, þér allt hvad skaptir hlýdi! þig

lofi allt hvað lofa má, er líf og tilveru' af þér nam fá, um þitt alveldið víða! útbreiðist lof þitt alla tíð, eilíf guðdómsins þátign blíð, af túngum allra lýða!



## II. Endurlausn vegna Jesú.



### No. 333. (3).

Lagið: Guðs Son kallar: komið til mín.

Jesús Kristur vor vinur er, vinfengi hans fulltreystum vér, samvitsku' er ógnun eydir; flýum því glaðir fund hans á, er frelsa náði' oss qvölum frá, og til lífs eilífs leiðir.

2. Af elsku til vor ofan frá, Guðs einka Son steig jörðu á, og maður verða vildi; ó þann fögnuð, sem fáum vér! Frelsari vor hann orðinn er, prísum hans miklu mildi.

3. Guðs einka Son er vinur vor, vér ef hans fetum dygða-spor, í huggun hrigðin breytist; óttast ei þurfum deyð né dóm, Drottins ef þeckjumst náðar-róm, oss þá hans vingan veitist.

4. Vinur trúfastur vor er hann, er vill oss hjálpa og líka kann, ef hörmúng á vill stríða; synd-þjáðir flýum

fljótt til hans, fullkomna meina græð=arans, sem andar svipti' oss qviða.

5. Oss yfirgéfið aldrei fær, undir hans vernd framgaungum vær, ef hrøs=um, hann oss stydur; hvørr honum treystir, sæll er sá, síféldt hans gánga vegum á, um aðstoð bljúgur biður.

6. Vor ástvin, Jesú! þackir þér, þín=ir frelsuðu gjøldum vér, sem von oss veittir blíða, þínum fagnaðar fundi ná, fullsælum gleðjast Drottni hjá, í flock útvaldra lyða.

## No. 334. (4).

Lagið: Heiðrum vér Gud af huga' og sál.

O hvílík heill! að þeckjum þann, þjóða gjørvallra Frelsarann, Jesúm, sem lífið lét á kross, ljúfur til frelsis øllum oss. O! þá brennheitu elsku hans, ei vildi hann dauða syndarans, en til far=sældar leiddi lands.

2. Sælar má kalla þjóðir þær, þig sáu' og heyrðu, Jesú kjær! meðan í heimi hafðir dvøl; hvørs þó oss hér ei géfist vøl, þig munum glaðir síðar sjá, samarfar þínir verða þá, í helgra bú=stað himnum á.

3. Sanna huggun og sælu von, sjálfur hefir oss veitt, Guðs Son!

endurlífgaðir að hjá þér, eilífrar gleði njótum vér. Sú eptir þreyða sæla' og hnoss, sífeldt upplífgar hvørn af oss, þegar aðkémur þraut og kross.

4. Til himins fórst á undan oss, eptir útstaðinn deyð á kross, eins munum eptir endíng kífs, endurvakna til betra lífs, í þínu ríki' ødlast þá, æru og dýrð þér sjálfum hjá; hvað þá viðjafnast huggun má?

5. Á þig trúum og vonum vær, oss veika styrk þú, Jesú kjær! þér svo að aldrei føllum frá, freistíngar þó oss leiti á. Þú heyrir æ vort harma qvein, hjálpar og græðir andar mein; sú er vor líkn og sælan ein.

---

## III. Sannur Kristinndómur.

### No. 335. (5).

Lagið: Sá frjáls við lögmál fæddur er.

Allt gott kémur frá einum þér, ástríkur manna Faðir! af þér hins besta væntum vér, í von loks deyjum glaðir.

2. Helgist þér æ vort hjarta' og mál, svo bøtum rædu ljóta, vísdómsfull orð þín vora sál', veki til yfirbóta.

3. Andar gagn vort og annara með, orðræður vorar stoði; þolið og hógvært gèf oss geð, glæpa svo firrist voði.

4. Herra! þegar að þúngann kross, þú vilt oss bera láta, víst hann að góðu verður oss, von sú oss gjøri káta.

5. Ef að trúlyndir elskum þig, andar mein kunna ei granda; voði og neyð þó sýni sig, senda munt náð þíns anda.

6. Hvað sem oss mætir heims um bygð, hug-glaðir vèr því tøkum; mýk oss gjorvalla mæðu' og hrigð, mæðdir þá til þín qvøkum.

7. Verði oss, Faðir! vild þín á, vantrú og efa forða, óþolinmæði' oss flýi frá, fyrir krapt þinna orða.

8. Samvitskuró og sálar frið, sælum gèf oss að halda, einnig meðbræður vora við, varast tvídrægni kalda.

9. Svo sem að fjøldann synda þrátt, sjálfur oss fyrigèfur, eins gèf framvegis ydkum sátt, við alla sem skyldan krefur.

10. Auðlegð ef fellur oss í skaut, elskuríkt veit oss sinni, að aumra léttum undir þraut, eptir tilætlun þinni.

11. Ef fáum neyð og ørbirgð reynt, eptirráðstøfun þinni, trú og þolgæði ljóst og leynt, lát oss votta hvört sinni.

12. Athafnir vorar allar hér, ætíð géf oss að vanda; svo ydjum það, sem þóknast þér, þinn send oss styrk til handa.

13. Hóf og ydju, sem hentar best, hreinskilni' og dygdir allar, oss kristnum géf að ydka mest, uns dauðinn héðan kallar.

14. Lát oss svo, Drottinn! lifað fá, lastvara meðan þreyum, að sæla vís þér sjálfum hjá, sé oss þá héðan deyum.

No. 336. (6).

Lagið: Kom Skapari heilagi Andi.

Þú, sem hið góða elskar eitt, enn þótt að veikum finnist hjá! án þín eg megna ecki neitt, allur minn kraptur þér er frá.

2. Breiskleik minn, Drottinn! þeckir þú, þín náð og styrkur efli mig, á þínum kjærleik kroptug trú, kenna skal mér að elska þig.

3. Lát elsku þá minn hnegja hug, að helga líf mitt einum þér; þín linkind æ mér léni dug, lastvørum hegða mér, sem ber.

4. Géf þú mér skyn, að dygd og dáð, dýrmætast hnoss í verøld er, að sá, sem vandar allt sitt ráð, øruggur sérhvørn mótgáng ber.

5. Að fullgjörð dygð ei finnast kann, föstum grundvelli stofnuð á, nema skír trú á Skaparann, skíni guðrækni sinni hjá.

6. Þú sem einn verkar veikum í, að vilja' og gjöra það, sem ber; styrk þú minn veika þróttinn, því, frá þér minn allur kraptur er.

## No. 337. (7).

Lagið: Kristnir menn! umfram allar tíðir.

Eilífi Guð vor allra Faðir! einn ertú góður, mikill, vís, af undrum þinnar gæðsku glaðir, gjöldum vér þér af hjarta prís; þig að dýrka mjög inndælt er, um gæðsku þína syngjum vér.

2. Hvörr, sem á gjafir þínar þekkir, og þær rétt vyrða skyn á ber, því skyldi hann þig elska ekki, af elsku leiddur hlýðnast þér, á gæðsku þinni efalaust, æ grunda sína von og traust!

3. Að Jesúm Krist, þinn Son, oss sendir, sérlega krefur þökk af oss, hann þig, sem Föður, þekkja kénndi, þoldi vor vegna deyð á kross, lærdómi bæði og lifnað' með, ljós og farsæld útbreiða réð.

4. Fyrst Guð oss þannig elskar alla, og eblir heillir sérhvörs manns, látum oss, bræður! léttbært falla, að líkjast

dæmi Skaparans, ástsemi, dug og elsku með, ástundum dygð og frómlyndt géð.

5. Kjærleiks Guð! oss sem kallað hefir, Krists ríkis til af þinni náð, og øllum jafnan gott allt géfur, æ géf oss bæði vilja' og dáð, að lífs til enda þjónum þér, sem þínum børnum verdugt er.

## No. 338. (8)

Lagið: Allt eins og blómstrið eina.

Hjálpa mér, Herra blíði! af hjarta gédjast þér, eg svo gégn øllu stríði, orð þitt sem bannar mér; verk ráðvønd æ að ydja, aðstoða virðstú mig, með þeim svo ber tilbidja, og bestann dýrka þig.

2. Géf, Faðir! krapt eg kunni, késja girnd vonda' í mér, ráðvendni æ svo unni, og finni náð hjá þér! afvega lát ei leiða, løst mig, né glæpa her, ei spott né ótta neyða, ótrúr að reynast þér.

3. Boð þín mér blessuð vísi, braut rétta lífsins á, hana mig feta fýsi, farsæld eilífri ná; styrk mig að vilja vinna, verkin skyldu með trú, og ædsta umbun finna, er dygðum heitir þú.

4. Géf þú mér góðfúst hjarta, gagnast øllum sem best, aumka þann qvøl um qvartar, kjætast samheillum mest;

ljúfum svo Jésú líkist, lund kjærleiks-
fullri með, farsæld þíns friðar ríkis,
fæ eg þá glaður sjeð.

5. Gef að eg rétt ígrundi, góður að
ert og vís, auðna mín allar stundir, af
þér að gjörvöll rís. Þó sorg umhverf-
is hljómi, harðar ef raunir þjá, í lífi,
deyð og dómi, Drottinn! þig treysti'eg á.

No. 339. (9).

Lagið: Kom Skapari heilagi Andi.

Drottinn! ástunda dygðir mér, dag-
lega géf og boðorð þín; þú til ens
góða þróttinn ljer, það veri besta hugg-
un mín!

2. Víki eg þínum vegum frá, vyrðst
þú í náð að bénda mér; fyrirgéf breisk-
um, Faðir! þá, framvegis géf eg
hlýðnist þér.

3. Ást þín foðurleg ætíð mig, uppörfa
skal að stunda dáð; vongóður kém eg þá
fyrir þig, þegar eg allt mitt vanda ráð.

4. Því ef eg dygða þræði stig, þol-
góður freistíng yfirvinn; góð meðvit-
und þá gleður mig, Guð! hún er sælu
pantur minn.

No. 340. (10)

Lagið: Adams barn! synd þín svo var stór.

O Herra Guð! þér heiður ber, með
hjartans gleði og lotníng vér, til

þín nú þánka rennum, dásamlegur í øllu ert, allt hefir mjøg vel til vor gért, þakklátir það meðkénnum, æ! lof, tilbeiðsla, ást og dýrð, eilífi Faðir! sé þér skírð, Føður-náð fyrir þína, sem einka reyndist verndin vor, velferðar til hvørt greiddi spor, því ber oss þøck auðsýna.

2. Fyrir vort lífið þøck sé þér, þín lofsverð náðar-gjøf sem er, og það af miskun þinni, heldur því við og hjúkrar að, Herra! en einkum fyrir það, ber oss með blíúgu sinni, þér þacka blessað þitt hjálpráð, að þú hefir af Føður-náð, kristna menn þar til kallað, þig réttann Føður þeckja vorn, þín verða farsæl óska-børn, nú og um eilífð alla.

3. O! hvílík huggun er oss það, ega þvílíkann Føður að, voldugann, vísann, góðann! fáfróðir, breiskir, veikir vér, vinna fátt skynjum, sem oss ber, má oss því margt ofbjóða; svo er og varið vorum hag, að víst er fjørtjón nótt sem dag, samt þurfum síst að qvíða, ef—eins og hlýðnum børnum ber—með breytni góðri stundum vér, að þóknast þér og hlýða.

4. O Faðir! láttu elsku þá, sem øllum heimi vyrðist tjá, upphvatning æ oss vera, hreinskilni stunda hjartans mest,

og hegðun alla vanda best, í þinni aug-
sýn, Herra! að vér framgaungum ætíð
hér, eins og ráðvøndum kristnum ber,
og stundum mest sem megum, þinni
líking og þóknun ná, þúsundføld náð-
ar gæði þá, vís vér í vonum eigum.

## IV. Trúrækni.

### No. 341. (11).

Lagið: Allir Guðs þjónar athugið.

Heilagur Faðir himnum á! Høfuð-
ur trúarinnar, þitt voldugt orð oss
vísar á, veg sáluhjálparinnar, lát oss
trú rétta rækja hér, í ríki þínu svo að
vér, þig sælir fáum finna.

2. Vertu, Jesú! vort lífsins ljós,
leið oss á veginn sanna, unaðsemd vor
og æðsta hrós, æ sért, hjálparinn
manna! sá traustið á þig setur fast,
síst mun um eilífð fortapast, hreppir
sæld himin-ranna.

3. Vor trú sé bygð, sem vera ber,
vísdóms á orðum þínum, til enda lífs-
ins allir vér, ávøxt verðugann sýnum;
en nær vér røsum, Herra! hér, hjálp
oss að ekki føllum vér, né síðar sælu
týnum.

4. Brákadann sundur brjót ei reir, blis trúar endurnærdu, ydrandi sálna andvørp heyr, andans þeim huggun færdu; gef ad þér aldrei føllum frá, freisting er sækir megn oss á, send þú líkn hjarta særdu.

5. O Drottinn! sem ad oss í hjá, uppbyrjad trúna hefir, efl hana svo ad ødlumst þá, oss daudi, grøf umvefur, endalok trúar, eilíft líf, hvar eptir heimsins mædu' og kíf, fagnadar gnótt þú gefur.

No. 342. (12).

Lagid: Kristnir menn! umfram allar tídir.

Þín sjást, ó Gud! um verøld vída, vísdóms, almættis, gædsku spor, jørd, himin, árin ódt sem lída, allt hrópar: mikill Gud er vor! hverful umbreyting innir bert: óbreytanlegur Gud ad sért.

2. Gjørvøll náttúran hannig þylur, þér þýrdar lofsaung ósjálfrád, mín sála gjædd med skynsemd skilur, þitt skipar øllu vísdóms rád, og med trú, sem þinn Andi lér, upp til þín, Drottinn! lyptir sér.

3. Hvad er eg þess, ad þori' eg senda, til þín, Alvaldi! huga minn, þú, sem ert, verdur, varst án enda, Vera heiløg

og fullkomin? Þinn helgur Andi hjarta í, hreinskilnu býr, eg treysti því.

4. Ó! hvað þú mönnum öllum hefir, auðsýnt föðurleg kjærleiks hót, með Anda þínum oss þú géfur, athvarf til þín af hjartans rót. Það sonar traust vér fengum fyrst, fyrir þinn Son, vorn Jesúm Krist.

5. Ó! hvað veikann það hressir huga, að hessa klöckva sál til þín; eckért mótlæti mig kann buga, meðan eg veit þú gjætir mín; allt skápað birtir almátt þinn, allstaðar eg þinn kjærleik finn.

6. Nú sje eg glöggt þín guðdóms merki, gæðskú, almætti, vísdóm þinn; hvört eg er einn, í værð eða verki, veit eg að þú ert Faðir minn. Faðir! í þína föður-hönd, fel eg öruggur líf og önd.

7. Það er sú trú, sem hér í heimi, himininn opinn sýnir oss; það traust, ó Drottinn! géf eg geymi, guðrækni með, sem besta hnoss! við enda lífs míns viss er trú, við mér, sem Faðir, tekur þú.



## V. Elska og Traust til Guðs.

### No. 343. (13).

Lagið: Sólin upprunnin er.

Hvað eru vinir, völd, vit, fjör og hreysti? hvað lífsins heilla fjöld? hann þeim lítt treysti, vel sem að veit, veif-ast allt burt sem reykur, mótlætis mirk við el; mínd skugga' eg horfna tel, þá ljós um leikur.

2. Því treystum veikir vér, völt á heims gæði? glis stundlegt eckért er, á-nægju sæði, ókomins lífs, unaðar blóm, sem gefur, fyrst það hér böl opt býr, í beiskju lífi snýr, grøf yndi grefur.

3. Vor, sem hér æfast á, í reynslu standi, skilinn lífs skóla frá, skynsam-ur andi, fyrir víst veit, valt er gjörvallt í heimi, en æðri öruggt hnoss, ánægju lífs að oss, Guð mildur geymir.

4. Sannfæring sífeld mann, sú á skal minna, lífs yndi hér að hann, hvik-ult mun finna; honum að er, hér æt-lud stundar vera, hann því nær sorg hér sá, samferðast gleði, má, rór báðar bera.

5. Ó Drottinn! einum þér, óhult eg treysti; géf aldrei grandi mér, glis

